

Eg létti mér upp þegar lýkur hér ferð
um ljósheim á vængjuðum hesti.

*Sigurbjörn Jóhannsson*

# LJÓÐMÆLI

EFTIR

SIGURBJORN JÓHANNSSON.

---

ÚTGEFENDUR
ÞORST. JÓNSSON OG BJÖRN WALTERSON.

---

WINNIPEG
PRENTSMIÐJA LÖGBERGS
1902

# Til landa minna.

*Eg fer af stað í fátæklegum klæðum*
*að finna ykkur, kæru landar mínir.*
*Mér bárust aldrei blóm frá mennta hæðum,*
*það búningurinn ljóða minna sýnir.*
*Þau skreyttu fötin aldrei eignast hefi' eg,*
*og að mér sama forna kuflinn vef eg.*

*Eg ólst við mennta armóð Snælands dala,*
*og ekki heldur lærði eg að þegja.*
*Á heiða auðn í einverunni smala*
*mín orð eg fór í stuðla föll að hneigja,*
*og ljóða ruglið lét eg vin minn heyra,*
*hann lof því gól og sagði: „Kveddu meira“.*

*Eg gjörði það, eg gegndi ljóða kvöðum,*
*en gagnyrðin var miður hirt að brúka,*
*það streymdi frá mér stefja rusl á blöðum*
*og stökur lét eg jöfnum höndum fjúka.*
*Það gleymt er nú og glatað flest að kalla*
*og gjörvallt hefði þannig átt að falla.*

## II

*Við orf og reku oft eg samdi kvæði*
*og yfir hjörð um sumar jafnt og vetur,*
*en oftast þó í næturvöku næði.*
*Í nætur kyrð sá andinn jafnan betur*
*þótt fyrir ljós mitt löngum drægi skugga*
*í líki svölu hamhleypan á glugga.*

*Eg kvað ei til þess skáld eg teljast skyldi*
*en skárst mér féll að hugsa þó í ljóðum.*
*Eg kvaðir minna vina gjöra vildi*
*og vífin náðu á mér tökum góðum,*
*að neita þeim var næstum óhugsandi*
*þótt nokkur stundum fylgdi þessu vandi.*

*Svo hefi' eg flest í ýmsra anda kveðið.*
*Minn eigin reikning sýna nokkrar stökur.*
*Það dimmdi oft og dapurt varð þá geðið*
*við dagsins strit og leiðar nætur vökur.*
*Að fjöldans augu aldrei ljóð mín sæi,*
*mín ætlun var, þótt skræður víða lægi,*

*En fyrir hvatning vildar vina minna*
*eg vinsa fór úr blendnu ljóða moði,*
*en slíkt er ekki vandalaust að vinna,*
*þótt víl og kvörtun bæti ei né stoði.*
*En móti vilja mörgu rúm hér gef eg,*
*og móti vilja ýmsu kastað hefi' eg.*

## III

*Eg fæ mér skjól í flokki líka minna,*
*sem flögra lágt og ei að grunni kafa,*
*en svimar við að horfa upp til hinna,*
*sem hátt á menuta tindinn klifrast hafa.*
*Eg virði þá, en þekki mína galla*
*í þröngsýninu látt á neðsta hjalla.*

*Eg árs og friðar óska löndum mínum.*
*Og unglíng hvern, sem fræðast vill og*
*mannast*
*að mennta gyðjan beri á brjóstum sínum.*
*Hvert blóm á vori mest er þörf að annast.*
*Svo kjarkveik strá ei kulda hretin beygi,*
*og krepptar sálir færri þjóð vor eigi.*

*Svo flýr minn ljóða fugl á ykkar náðir.*
*Hann fá þarf skjól því oft blés kalt á móti.*
*Hans rödd er veik og vængjastúfar hrjáðir*
*af volki löngu heims í ölduróti.*
*Þó gegn um allt hann sól og sumri unni*
*en svartnætti og éljum illa kunni.*

S. J.



# I.

## KVŒÐI FLUTT A ÝMSUM SAMKOMUM.

---

### Þjóðhátíðarkvæði

flutt að Brúarfossi 1874.

---

Nú hittast menn á hátíðlegum degi,
þars hamra búi drynur fornan söng
og kvíslar straumum klungurlagða vegi
með *k*vin og roki fram úr gljúfra þröng.
Ei kennir þrots hans kynja máttur stríður,
hans kvæða efni jafnt hið sama er,
hann segir áfram, áfram tíminn líður,
því alda tal og sagan vitni ber.

Sem eina þjóð að merkum aldamótum,
oss mjallfrons búa tímans foss nú bar
og eftir föngum fagnaðar vér njótum
við fróðra orð og meðul glaðværðar.

Já, markverð er oss manndáð fyrri tíðar,
þá mundin Ingólfs reisti íslenzkt bú
og vér hans arfar öldum tíu síðar
þess endurminnumst hátíðlega nú.

Því skal oss ljúft að lyfta anda hlýum
með lofi' og þökk í trúar sameining
til alda föður fjarri jarðar skýum,
sem friðar væng sinn breiðir oss um kring.
Hann lét oss mæta mæðu storma kalda,
svo mátt hans tignar kenna hlytim vér,
en hæst þá gnæfði harms og neyðar alda
var hjálpin næst, það sannar árstíð hver.

Svo látum þangað frjálsan anda flýa,
sem fasta vígi drottins hjálpar er
og biðjum hann um náð og blessun nýa
á nýrri tíð, sem oss að höndum fer,
hann blessi sinna orðsins þjóna anda,
hann Íslands stjórum vísi kærleiks spor,
hann blessi sérhvers byggð og verkin handa,
hann blessi lands og sjóar afnot vor.

Vort sveitarfélag hingað safnast hefur,
svo hátíð vor sé eining bróðurleg.
Oss heilög skylda skýlaust þar með krefur,
að skunda allir mannkærleikans veg.

Sem út til hafsins iðar fossinn sterki,
þótt ís og klungur flétti honum bönd,
svo hvetjum ferð und frelsis ástar merki
að fullkomnun, sem þráir mannsins önd.

---

FYRIR MINNI

## Benidikts próf. Kristjánssonar í Múla,

þá hann var nýstaðinn upp úr hættulegum sjúkdómi.

---

Vor helgimála hirðir kær
og holli félags bróðir,
þín návist okkur yndi fær,
sem áður væntum hljóðir
hvert augnablik, oss bærist fregn
um burtkall andar þinnar,
en kropið er nú kvíðans megn
fyr krafti vonarinnar.

Vér biðjum alvalds náð á ný,
þín notið lengi fáum.
Að sjá þig herrans húsi í

vér hjartanlega þráum.
Já, heilla óskir æðstu hér
þér allra raust samkveði.
Þitt minni drekka viljum vér
með virðing, ást og gleði.

---

FYRIR MINNI

## Jónasar Gíslasonar,

þegar Laxárbrú var vígð.

Hér er glatt við hængja slóð,
hér er líf og skemmtun góð.
Elfu gyrtan eyðistað
ei svo margur fótum trað
okkar liðnu æfi stund,
er nú sækjum þennan fund.

Laxa móðan misjafnt fríð,
man eg, oft á vorri tíð,
hjúpi íss þá hrinda vann,
hræddi röskan ferðamann.
Sagði glöggt í svölum nið:
„Sjálfbyrgingur! Stattu við.“

Hugvit manns og handa lag
hrósa sigri þennan dag.
Yfir tvískipt iðu kast,
að sem hamrar kreppa fast,
traust og hagleg brú er byggð,
bjálkum elfd og járni tryggð.

En við það, sem önnur störf,
undirstöðu fyrst var þörf,
vel er stæðist straumfall hvasst
steina flug og jaka kast,
löngu storkið funa flóð
fannst til þessa tegund góð.

Stáli kantað stöpla grjót
stjörnum hvarma blasti mót
saman þrýst, sem þviti einn,
því ei sundrar máttur neinn.
Hér til þurfti hrausta mund
hagleiks vit og trúa lund.

Hér til valdist hetja ein,—
hetjan kennd við Ýmis bein.*)
Gamla Jónas Gísla nið
gamla Ísland kannast við.

*) Hann var nefndur Jónas Grjótgarður.

Marga hrímnis hnútu sá
hreif og klauf í stykki smá.

Vottar snilldar verklag hraust
vítt um landið þörf og traust
grjóti byggð af greindum höld
garða, brunna, veggja fjöld.
Hönd sú lengi haldi þrótt,
húmi seint að dauðans nótt.

Hér til verks hann gamall gekk,
garp til fylgis hraustan fékk.
Hörð var klofin hella mörg,
hrutu neistar, stundu björg,
sem við tröll þá móði með
Mjölnis valdur hamast réð.

Heill sé gamla hetjan þér.
Hendur þínar lögðu hér
grundvöll fyrst að gjörðri brú,
get eg, muni skoðast sú
óborinna ýta sýn
óbrotgjarna minning þín.

Ferðamenn úr ýmsri átt,
eins vort sveitar félag smátt,

rétt sem virða verk þitt hér,
veit eg, eflaust munu þér
inna þýðlegt þakkar mál.
Þín svo veri drukkin skál.

———

ÞAKKARÁVARP TIL

## Jónasar bónda Guðmundssonar á Sýlalæk.

Kveðið undir nafni Neskirkju fyrir ljósahjálm, er hann hafði gefið henni.

A fúastokkum forn eg stend
í fátæklegu moldar skrúði
af hádags vorsól hörundsbrennd,
en hregg og stormur þak mitt lúði.
Mín fátæk börn, er búa kring,
þau bjóða mér ei klæða skipti,
né færa til mín fögur þing,
svo faldi eg úr rústum lyfti.

En þó er einn minn sonur sá,
er situr fjarst, en gleymdi eigi,

hve skræmd eg er og fangafá,
að fagna lýð á helgum degi.
Hann sat hér oft frá æskustund,
þá orði drottins börn mín hlýddu
og sótti löngum fús minn fund,
þótt fylgjur vetrar móti stríddu.

Hann skartgrip dýrum skreytti mig,
er skemmtir augum barna minna
og hefur sál á hærra stig,
en húm og moldin gaf til kynna.
Þótt skammdags blæa sígi svört,
er söng og ræðu enginn tálmi,
þá leiftra um mig ljósin björt
frá loga stirndum kristals hjálmi.

Og þegar dýrðleg signir sól
í sumarhátign rústir mínar
og vermir það á vetri kól,
svo veggur minn og þekja hlýnar,
það skart mitt allra skærast er,
—sem skyldi þúsund ljós mig prýða —
er leggur inn um ljóra gler
og loga stirnir hjálminn fríða.

Þá höfðinglegu heiðurs gjöf,
er hugsjón minna barna vekur,

þú keyptir sonur handan höf,
því hjá oss slíka enginn tekur,
en stein í moldar stað þó er
á stöðvum okkar hægt að finna,
sem mig úr karar bóli ber,
svo blygðun hverfi rústa minna.

Minn ljósa hjálmur leiftrar skær,
hann lýsir einnig þínu sinni,
því kristni andinn kristalstær
er kórónan á velgjörð þinni.
Eg veit mitt félag þakkar þér.
Eg þakka hlýast, bið og spái,
að þú og niðja þinna hver
í þúsund liði blessun fái.

---

## Á gamlársdagskvöld
1883.

Þótt fölum sé hjúpi vor fósturjörð klædd
í frostköldum hávetrar blundi,
á þessari stundu skal gleði vor glædd

á góðvina skemmtunar fundi.
Nú látum vér söngraddir hressa vorn hu[g]
en hyggjum þó gætnir á tímanna flug.

Nú kveðjum vér árið, en hugur vor hress
að hástóli alföðurs vendi,
og rólega minnumst vér þakklátir þess,
er það hefir fært oss að hendi,
því eins þénar bölið og meðlætið manns
að menntun og varúð á lífdögum hans.

Hinn vonglaða anda vér færum á flug
og fögnum svo árinu nýa
með fastráðna stefnu og framkvæmdar du[g]
og frjálslyndið mannástar hlýa.
Hver fagni með öðrum, sem fellur í vil
og fylgi þeim bágstadda liðveizlu til.

Svo hugsum án kvíða til komanda dags,
en *k*vikull sé hugur vor eigi.
Vér óskum hver öðrum til hamingju hags
á hverfulum lífdaga vegi,
en byggjum æ vonina bjargi því á,
sem breytingar tímanna hrakið ei fá.

---

## Sjónleikskvæði.

—Til áhorfendanna.

Með gleði söng nú sönnum vér,
að sumar nýtt oss gefið er.
Með gamanleik það sýnum senn,
að séim frjálsir gleðimenn.
Og gleði njóti sérhver sá,
er sjónleik okkar horfir á.

Burt, burt með deyfð og drunga lund,
vér dýra metum gleði stund,
því líf án gleði líkist nótt,
er ljósi' og varma fyrrir drótt,
það er, sem fugl í fanga vist,
er flug og söngrödd hefir misst.

Já, lifi saklaus gleðin góð.
Þér gestir vorir, menn og fljóð,
til slíkrar efna viljum vér
og velkominn sé ykkar hver.
Oss vermi gleði vorsól hlý,
svo vaxi andans blómstur ný.

—Til leikendanna.

Hvað er svo ljúft, sem ferð til vina fundar,
þars frelsis merki saklaus gleðin ber.

Menn hafa notið góðrar gleði stundar
við gamanleiki, söng og ræður hér.
Það hversdags mæðu myrkva skýum dreifir,
er menn og konur sjást með hýrri brá,
það vonar hörpu stirða strengi hreyfir,
að stríði með er sigri unnt að ná.

Því skal vor hugur þýðri glaðværð hrifinn
og þeim, sem skemmtu, sungin þakkar ljóð.
Hver íþrótt sling með andans fjöri drifin
mun ætíð virt hjá hverri frjálsri þjóð.
Þeir vinna þarft, er stytta leiðar stundir,
þeir styrkja, lífga dofinn hugar móð.
Já, lifi gleðin, lifi skemmtifundir,
vort líf sé jafnan bræðra eining góð.

---

## Minning Íslands 4. Nóv.

1892.

---

Hér er landar ljúft að finnast,
lítsins gleði fögnum vér.
Nú er stund á margt að minnast,

manns er hugsjón fyrir ber.
Þegar vonar blysi bjarta
bregður hulda framtíð á,
mjakast gleymsku myrkrið svarta
minning liðins tíma frá.

Vér erum fjarri föður landi,
fluttir norðan hafs um geim,
þangað hvarflar þrátt vor andi,
þangað æ vér nefnum *heim*.
Nú er okkar fóstran forna
færð í vetrar kulda bönd,
gráir skildir Gýmis norna
gyrða fast um hennar strönd.

Léttfær hugur langt oss flytur
ljúfar bernsku stöðvar á,
þar vor mædda móðir situr,
möttli sveipt af ís og snjá,
fætur ægi baðar bláum,
belti hamra vafin strítt,
undan jökulhjálmi háum
hár í lokkum fossar hvítt.

Skammdags röðull skrúðann gyllir,
skuggar þó í brattri hlíð.

Endurminning indæl fyllir
okkar brjóst frá þeirri tíð,
skíði þá og skautar váru
skemmtan góð um vetrar stund,
liprir fákar létt oss báru
langan sprett um dala grund.

Vorið blíða vér og munum,
vermdi röðull kaldan snjó,
leið hann burt í lækjar bunum
lands af hjöllum fram í sjó.
Lagðprúð hjörð um laufgan haga
lífi nýu kættist af.
Veiðiföng úr djúpi' að draga
dugnað bauð og hagsæld gaf.

Heitt eg ann þér ættland kæra,
ei þér gleymir hugsjón mín.
Meðan tungu má eg bæra,
mun eg nefna *heim* til þín.
Hagsæld, björg og blessun streymi
byggða þinna yfir lýð.
Verndar armur guðs vors geymi
gamla Ísland heims um tíð.

---

## Vorkvæði

Flutt á samkomu, er haldin var við stofnun sunnudagaskóla í Argyle,

1890.

---

Að finnast með gleði, það fjörgar vort líf,
hið fagra og blíða er gleðinnar hlíf.
ef kuldi og mótbyljir kreppa að oss,
þá kunnum vér langbezt að meta það hnoss.

Ef vetrarins kulda vér kenndim ei á,
með kaldlyndi tækim vér sumrinu þá,
ef böl væri ekkert, né blési á mót,
hið blíða og ljúfa ei virti menn hót.

Nú finnumst vér glaðir og fögnum, af því
hið fegursta náttúru ríkinu í,—
ó, vorið og sumar með blíðviðris brá,
það býður nú faðminn og heilsar oss á.

Þú vorgyðjan fagra, þitt vald er oss kært,
þú veturinn sigrar og lífið fær nært,
þú blómstranna móðir um búning fær skipt,
en blíðu og fegurð í hásæti lyft.

Þú svífur um daga í sólgeisla mynd
í suðrænum vindblæ og regnskýa lind.

Þeir vængjuðu söngflokkar kveða við kátt
og keppa við mennina' að fagna þér dátt.

Um nætur þú daggtára bikarinn ber
og blómunum ungu það lífsnæring er,
þau dafna og hefja sín höfuð frá grund
og hressandi angan þau fylla hvern lund.

Og skógartré hvert það, sem leynist með líf,
þótt lemdi það vetrarins næðinga kíf,
þú vermir, þú lífgar, þú laufkrýnir það
og lífinu nýgræðings hlynnir þú að.

En vorblómin minna vorn æskulýð á,
sem ætlað er tvennskonar þroska að ná,
hið jarðneska brauð fær ei orkað því eitt,
vor andi þarf næring, sem guðs orð fá veitt.

Það ljúft skyldi hverjum og léttunnin þraut
að lýsa þeim ungu á menningar braut.
Vér óskum þeim heilla, sem iðka það starf,
þeir óbornum tryggja svo dýrmætan arf.

Svo tökum vér sumrinu vonglaðir við,
það veiti oss hagsældir, blessun og frið,
en bindum, sem tryggast vort bræðralags þel
og brúkum svo tímann og gáfurnar vel.

ÁVARP

## Til séra Hafsteins Péturssonar.

---

Velkominn hingað af hrímfjalla svæði
heiðraði gestur og landi vor kær,
ættjörð og vini sem yfirgafst bæði
ósk vorri samkvæmt og dvelur oss nær.

Þessi þig hjörðin að hirði sér valdi,
hér sem nú einhuga safnast þér að,
vonin þó lengi í vafa sig faldi,
vér hvort þín nytim og enn finnst oss það.

Aður sem gestur þú heimsótt oss hefur,
hlýddum vér mál þitt og stefnu þess á,
hver, sem í uggleysis svima ei sefur,
sannleikans árgeisla hrifinn var þá.

Lengri vér kusum þá líðandi stundu,
laðandi guðmál að heyra frá þér.
Orð þín til hjarta vors feril þann fundu,
frelsi og sannleik sem helgaður er.

Nýu með ári að nýu oss veitist,
náðarboð drottins að flytur þú hér.

Staðráðin áður vor stefna ei breytist,
starf þitt vér kjósum, ef fáanlegt er.

Styrk þú vorn anda að vinna og vaka,
veginn oss lýstu um tímanna sæ.
Móti þér hendur og hjörtu vor taka,
hús vor og brauð sé þér velkomið æ.

Velkominn hingað að verkinu þarfa
víngarðinn drottins að rækta oss hjá,
andi hans styrki þinn anda til starfa,
andlega samvinnan blessast oss þá.

Velkominn sannleikans götu að greiða,
guð sér með þóknun á verkahring þann,
vanrækta hópinn að vara og leiða
villu frá stigum, sem umkringja hann.

Vertu af höfundi sannleikans settur
sverði með andans, er Vídalín brá,
heimsins í trúflokka *hafinu klettur*,
hneiksli og villa sem brjóta sig á.

Gleðilegs nýárs og gæfu þér biðja
gamlir og ungir, sem hlýddu þig á.
Starftíma langan og styrk til að iðja
stjórnari tímanna láti þig fá.

# Skilnaðarkveðja.

Til sama.

---

Stundin er komin að kveðjast, og skilja
kæran og hollan við leiðsögu mann,
en skilnaður sá er ei vorum að vilja,
viknaðir, saknandi nálgumst vér hann.

Torfær er leiðin og vegljóst er valla,
vegræknin hvikul í gleði og þraut.
Raddir í þokunni kring um oss kalla:
„Komið með okkur þá sléttari braut."

Þú hefir lýst okkur ljúfmennið bezta,
laðað til samheldni reykula hjörð.
Skilnaðar stundinni fæst ei að fresta,
fallvalt og breytið er sérhvað á jörð.

Sízt er til bóta um söknuð að kvarta,
sálarþreks æfingin veitir oss lið,
tára vér bindumst, en hitnar vort hjarta
hjartnæmu skilnaðar orðin þín við.

Seint mun oss fyrnast þín fylgdin ótrauða,
frjálslyndi, skyldurækt, mannástin blíð.
Seinfyllta skarðið og salinn þinn auða
sjáum vér daprir á komandi tíð.

Þegar vér skemmtum oss, gleði þú gladdir,
greiddi úr vanda þín fjölhæfa sál,
börn vor, sem ástríkur faðir, þú fræddir,
fluttir þeim sorgbitnu huggunar mál.

Verum ei daprir, sú vonin oss styður,
vin þig að eiga, þótt skiljum í bráð,
fyrir oss einnig í fjarlægð þú biður,
flokk vorn þú styrkir með anda þíns dáð.

Alvaldur greiði þér gæfuleið bjarta,
gjörvallt hið mótstæða hverfi þér frá.
Blessunar óskir vors biðjandi hjarta
burtu þér fylgja og vaka þér hjá.

---

## Til kvennfélagsins í Argyle.

Flutt á samkomu 1889.

Hér skal helguð gleði
heillavænleg stund.
Frjáls með félags geði
finnast menn og sprund.

Hér er hús að líta
helgað kristnum sið.
Styrkjum stofnun nýta,
standi fylkt vort lið.

Hér skal gleði gróða
gefa helgum stað.
Lofsvert félag fljóða
framkvæmt lætur það.
Þeirra flokkur fríði
frjálsri lýsir sál.
Styrkjum þær í stríði,
styðjum þeirra mál.

Fast vor fylking standi,—
fast í trú og dyggð,
falskur sannleiks fjandi
flýi vora byggð.
Drottins rödd oss ráði,
rétti villta sú.
Leifs á heppna láði
lifi kristin trú.

Heill sé hópnum snóta
hrós og þakkir tjáð,
vorri byggð til bóta

blessist þeirra ráð.
Þeirra iðjar andi
alvalds dýrð í hag.
Leifs á heppna landi
lifi kvennfélag.

Dáð og mennt oss dafni,
drengskaps rækjum sið,
sál vor auðlegð safni,
sem ei grandar ryð.
Festumst félags bandi,
forðumst skrum og prjál.
Leifs á heppna landi
lifi íslenzkt mál.

Vonin hug vorn hressi,
hún vor létti störf,
drottinn bú vor blessi,
bæti andans þörf.
Frjáls og framsækjandi
fræg af andans móð
Leifs á heppna landi
lifi íslenzk þjóð.

———

## Undir nafni kvennfélagsins.

til samkomugestanna.— Orkt við sama tækifæri.

Þótt við oss horfi Vindsvals brá,
er vetri hótar svölum
og blómin leggist landið á
með litum dauða fölum,
á vorum andans akri sést,
þar ei mun sumar dvína,
því gleðin, lífsins blómið bezt,
þar breiðır kransa sína.

Hin glaða sál er guði kær
á góðra siða vegi,
því mannkærleikans mildi blær
þar mótkast reynir eigi
og þannig hagar þessa stund,
vér þökkum geði hlýu,
þeim okkarn sóttu félags fund
með fjöri andans nýu.

Þið hafið séð vor samtök veik
frá sjónar miði réttu.
Af rýrum kvisti ræktast eik
með rót og limi þéttu.

Þið hafið styrkt þann veika við
með vinar hönd og geði,
að blóm hans síðar sjáið þið,
mun sönnust okkar gleði.

Vér þökkum góða gleði stund,
því gleðin kjark vorn styður.
Vér þökkum drengskaps ljúfa lund,
sem leið vors félags ryður,
en kjósum drottins verndar vörð
mót villtu heimsins liði,
að blómga æ sitt hús og hjörð
með hreinni trú og friði.

---

## Kvæði flutt á kvennfélagssamkomu

1890.

Til gestanna.

Fögnum vér konur,—
félagið smáa,—
gesta hóp vorum
glaðar í hug.

Frjálsmannleg andlit
færa oss vonir,
að gagnsöm hér verði
og gleðileg stund.

Húsið vor allra,—
helgistað kæran,—
styðja og prýða
stefna vor er.
Veikliðað fylking
vilja með sterkan
að þeirri framkvæmd
óskar sér liðs.

Frjálslyndu vinir,
félagi okkru
virðing og liðsemd
veitið þér enn.
Hendurnar mörgu
hugar með fylgi
steini úr götu
stórum fá velt.

Velkomnir gestir
gamlir sem ungir
bræður og systur

samkvæmis til.
Barnslega gleði,
blómsveig þeim knýttu
sérhvers að enni
siðprýði með.

Velkomin gleði,
vorblóm þú gefur
hausti og vetri
hjarta manns í,
verkmanns úr limum
lúa þú eyðir,
elli þú klæðir
æskulífs ham.

Velkomin sönglist
sál manns þú hrífur
langt ofar hversdags
leiðinda nið,
vorum því anda
vængi þú lánar
sælunnar byggða
sólbjörtu til.

Velkomin málsnilld
mennta frá brunni,

fróðleik og heilráð
fær þú oss kennt,
skemmtiblóm gjarnan
skreyta þú lætur
ræðumanns einbeitt
áhuga mál.

Heiðruðu vinir,
hver eftir föngum
íþróttir taldar
æfi í kvöld.
Vart munu okkar
vonir þá bregðast,
að gagnsöm hér verði
og gleðileg stund.

---

## Til kvennfélagsins.

Á sömu samkomu.

---

Skal nokkrum þykja það um of
á þessum stað í dag,
þótt einn af mörgum yrki lof

um okkar kvennfélag,
sem húsi drottins hér í byggð
sitt helgar starf með trú og dyggð.

Þér félagskonur, fámennt lið,
en frjálst og hugumdjarft,
í verkhring fögrum vakid þið,
að vinna gott og þarft.
Þið gefið hvöt að gleðjumst vér
og glaðvært líf oss dýrmætt er.

Þið mannkærleikans leiðið lind
í ljós á réttan hátt.
Þið eruð fögur fyrirmynd
í framkvæmd slíkri þrátt.
og okkar þjóðflokks *hjarta* hlýtt,—
já, hjarta öruggt, trútt og blítt.

Vor eðlisskyldu bjóða bönd,
það beint og rétt eg finn,
að starfið hjartans styðji *hönd*
og styrk því ljái sinn.—
Að falt sé ætíð okkar lið,
þá eitthvað nytsamt vinnið þið

Og engra hug hér efa þarf,
þess óskar hver um sig,

að ykkar fjölgi fetum starf
á framfaranna stig,
að ykkar fríðu fylking við
úr flokknum systra bætist lið.

Með vonar gleði, vinar hug
og virðing hverja stund
vér þökkum ykkur þarfan dug
og þennan gleði fund.
Með blessun guðs og bjartan hag
æ blómgist okkar kvennfélag.

---

## Minni gleðinnar.

Kom heil í sal vorn saklaus gleðin kæra
og sorgar myrkva léttu' af hverri brá,
kom heil til okkar fjör og líf að færa
og fagrar söngva nótur leik þú á.
Vorn anda þreytir önn og hversdags
mæða,
ef aldrei dregur ský frá þinni sól,

en bros þín létta honum flug til hæða,
þótt hverfult renni blindrar gæfu [illegible]ól.

Það dylst oss ei, þinn vandfarinn er vegur,
ef vera skaltu saklaus frjáls og hrein,
þú skærust ert, er skýin frá þér dregur,
og sjaldan máske hollt þú ríkir ein,
en fyrir því vér fulla reynslu höfum,
að fjarlægð þín er dauða mark oss hjá,
því þú ert ein af guðs vors ástar gjöfum
og guði sjálfum upphaf þitt er frá.

Kom heil á fund vorn himins gjöfin dýra,
þú hjá oss prúð í öndveginu sért.
Á gest hvern set þú svipinn frelsis hýra,
er sýnir hvaðan fyrst þú runnin ert.
Þú fagra ljós í félags lífi manna,
æ, fylg þú oss á dimmri rauna braut.
Oss gefi drottinn gleði hreina, sanna,
svo glaðir sigrum vora hinztu þraut.

---

## Til lestrarfélags Íslendinga í Argyle.

Eg bið mér hljóðs og byrja máls,
ef brag minn vilduð heyra,
þú sagna gyðju flokkur frjáls
með fornum norðmanns dreyra.
Þú andans gróða félag frítt,
sem fræði greinar metur,
þitt æsku fjör sé ætíð nýtt,
svo æ þú dafnir betur.

Þú feðra vorra fræðum annt
um fornöld norðurlanda,
þú menntir nýar meta kannt,
er mannsins lyfta anda,
þú virðir fagra ljóða list,
sem lífsins gleði verju,
á búi þínu vildar vist
þú veitir skáldi hverju.

Þótt misjafnt gefi gæfan blind
og gnægta brest vér sjáum,
við andans nautnar ljúfu lind
vér lifað glaðir fáum.

Hún svalar andans æðri þrá,
hún andans fjötra greiðir,
því hún er ljóssins hæðum frá
og hug vorn þangað leiðir.

Þótt hveiti búr hér fáist full
er fleira nýtur gróði,
frá ættjörð vorri andlegt gull
vér eigum hér í sjóði.
Og heill sé félags flokki þeim,
er fyrir slíkt vill iðja,
með sterkum hug og höndum tveim
er hann oss ljúft að styðja.

Hér hafi gleðin grið í kvöld
á góðu bónda setri,
sér skemmti glaðvær gesta fjöld
og gleymi köldum vetri.
Því vetrar frost þótt virðist sár,
er von á sumri hlýu.
Svo kveðjum glaðir gamalt ár
og glaðir heilsum nýu.

---

## Ávarp til sama félags.

Þér menn og konur, öldnu jafnt sem ungu,
sem efla viljið nýtan mennta sjóð,
sem viljið rækja vorra feðra tungu
og vera talin námgjörn íslenzk þjóð.
Þú fræði greina félag vort hið þarfa,
þér fylgi heill, sem mest og bezt að starfa.

Nú er sú tíð, sem okkur færi gefur
að auðga sál og styrkja félags bönd,
þá frosti bundinn foldar gróði sefur
og færri annir tefja mannsins hönd.
Þín fylking örugg fram í dag vill sækja
með fjöri' og krafti', sín andans blóm að rækja.

Með skemmtan hverri skylt er gagn að vinna,
það skynseminnar lög oss jafnan tjá.
Að fróðleik andans fýsir oss að hlynna,
en fé er kraftur þess, sem gjöra á.
Þá eytt er fé, svo andinn þroska nái,
hinn æðri gróða, hygg eg, maður fái.

Hin tigna dís á Sökkvabekk, er situr
og sínum rúnum letrar gullin spjöld,
um gamla Snæland fræði mörg hún flytur,

um fræga menn á glæstri hetju öld.
Þess ljósa minning ljúft er oss að geyma,
því löngum dvelur andi vor þar heima.

Vort kæra félag fjölgi liðsmenn þínir,
í frjálsri eining blessist vel þitt starf.
Með góðu vali gott ef dæmi sýnir,
þú gefur vorum niðjum dýran arf.
Ef fornt og nýtt í fjársjóð þínum geymist,
vor feðra tunga langt um síður gleymist.

---

## Minni Argylesveitar.

Þú skógar hæðum girta grund,
með gleði skal þess minnast,
er landar sóttu fyrst þinn fund
og fýsti þér að kynnast.
Þá brosti ljúft, með litskreytt föt,
við landnáms manna sjónum,
þín blómrík auðna, bunguð, flöt,
með beltum skógi grónum.

Og hlýtt var þeim um hjarta rót,
er hauðurs unnu gróða.
Sem blómleg, fjáð og broshýr snót,
þeim bauðstu faðminn góða.
Þú gafst þeim kjark í hug og hönd,
er hagsæld myndi flýta.
Þeir tengdu við þig tryggða bönd,
er trautt þá fýsir slíta.

Þú breiddir fóstru faðminn þinn
mót forna Íslands sonum.
Þar byggði hver upp bústað sinn,
er bjargvænt þótti honum.
Þeir vissu, auðs var efna gnótt
hjá ungri fóstru sinni,
og viku hönd til verka skjótt,
að venda skikkju þinni.

Og eftir liðinn ára tug,
má óræk vitni líta
um landnemanna dáð og dug,
þinn dulinn auð að nýta.
Vér göngum á þinn hæsta hól
á heiðum júlí degi,
að litast um þín bœnda ból
og breyting dylst oss eigi.

Nú fátt vor augu fyrir ber
af frumbúningi þínum.
Þar akra geimur gróinn er
og girtur varnar línum.
Hver hæð nú líkist eyðiey
á öldu fleti grænum
og húsið hvert, sem fljóti fley
í friðar kyrð á sænum.

Þar fjörug golan fer með leik
um fylking hveitistráa
með gildleg höfuð græn og bleik
og granna leggi háa.
Þau iða líkt og alda kvik,
sem ýmist rís og lægist.
Sá báru dans við brauta strik,
sem bakka rendur hægist.

Vor hveitiauðga blómleg byggð,
þér blessuð ársæld skýli,
en forsjá holl og drengskaps dyggð
æ drottni' á hverju býli.
Svo varist hver þann villustig,
er váleg glöp má telja,—
í auðkýfinga þrældóm þig,
sem þjáða ambátt, selja.

Já, kæra Argyle frjáls og frjó,
í friðar örmum búðu
með glaðvært líf, en gætni þó,
og gróðri mennta hlúðu.
Svo Íslands niðja óðal kært
þú æ með sóma heitir,
á meðan röðulskinið skært
og skúr þér gróða veitir.

---

## Skemmtunarhvöt.

Að leita' úr skugga að ljósi og yl,
þá lágnættis frostkyljur þjóta,
þá lífshvöt oss holla og ljúfa eg skil,
það líkama' og sál er til bóta.
Því anda vorn kreppir í kyrsetu deyfð,
en kraftarnir örvast, þá glaðværð er
hreyfð.

Þótt mælskunnar blóm virðist falin og föst,
úr fönn má þau grafa og toga.

Á gleðinnar arni svo gjörum oss köst
og glæðum þar skemmtunar loga.
Sem bræður og systur þar setjumst í kring
og sjáum hvort ólundin brýtur þann hring.

Þótt komi oss hlekkur á hönd eða fót,
ei hræddir né kvíðnir vér stöndum.
Hvað helzt þá til skemmtunar mælum oss mót,
svo manndáð og kjark til vor öndum.
Því hlekkirnir liðkast, ef hreyfum oss þrátt
og hugsanlegt jafnvel þeir brotni í smátt.

Með skammdegis sólhvörfum léttist vor lund,
þá ljósið fer myrkrin að beygja.
Vér glaðir þá sækjum á góðvina fund,
er gestina velkomna segja.
Þeir eldri við gleðina yngjast á ný,
á æskulífs himninum sést ekki ský.

Við hækkandi röðul og dafnandi dag
oss drýgjum á framfara skriði.
Hinn alvaldi blómgi og blessi vorn hag
með bræðralags eining og friði,
svo nýu með ári, sem nálgast oss fer,
við nálgumst það takmark, sem fullkomnast er.

———————

# Minni Landnemanna.

---

Vaki nú gjörvallt, er gleði oss veitir,
[illegible] á söngnótum hrífandi lag.
Austrænn röðull með ylgeislum skreytir
íslenzkri þjóðminning helgaðan dag.
[illegible] skulum frá oss og þunglyndi varpa
[illegible]flokkur Ingólfs á vestrænni grund.
Frumherja vorra og framsóknar garpa
[illegible]um vér hróður á þessari stund.

[illegible]akkir hleyptu þeir austan um öldur
[illegible]ki hrannar að Kanada strönd,
[illegible] þeim bæði var brynja og skjöldur,
[illegible]andurinn var þeim in starfsama hönd.
Framsóknar áhugi brann þeim í barmi,
[illegible] sér að ryðja og fátækri þjóð.
Menningar löngun og mannkærleiks varmi,
[illegible] þeim brú yfir torfæru hlóð.

[illegible] vér lítum nú frumherja slíka,
fyrstir því íslenzkra landnema hér
[illegible] þeir könnuðu frjóefnisríka. —
[illegible], sem nafntogað hveitiland er.
[illegible]þrungnar skruggur þótt heli þeim hét*u*,
[illegible] og frostið og vosbúðar þraut,

kapparnir norrænu kjarkinn ei létu.
Klufu þeir ísinn á landnema braut.

Undursjón var þeim, sem Leifi, að líta
landið, sem íslenzkri bygging var fest,—
fiskisæl vötnin og frumskóga nýta,
frjólega sléttan þó geðjaðist bezt.
Þaðan að leita, sem eigi þeir undu,
áræði höfðu að feðranna sið.
Öndvegissúlurnar sínar hvar fundu,
settu þeir býli og tryggðust þar við.

Njótið þið ánægðir lífdaga lengi
landnemar góðkunnu vorri í byggð.
Búsæld og kynsæld með blessunar gengi
blómgist frá ykkur og þjóðræknis dyggð.
Nöfn ykkar letruð hjá niðjunum finnast,
nútíðar kynslóð þótt hnígi í láð.
Saga vors þjóðflokks hún mun ykkar minnast,
mín þó að ljóð sé (í) gleymskunni háð.

———

# Vestur-Íslendingar.

17. júní 1897.

---

Vor ættlands niðja flokkur frjáls
á frjórri vesturgrund
með fánann okkar feðra máls
sér fylkir þessa stund.
Með hjartans hlýa lund,
vér helgum þennan fund,
og sýnum að við séim Íslendingar.

Þeim heill, sem fornan feðrahug
í framkvæmd láta sjá
með sjálfstætt ráð og sóknardug
að sigrast þrautum á,—
sér óðalseign að fá
og eign sér tryggia þá,
svo íslenzk bænda eign hér blómgist
víða.

Og heill, þeim andans lífga ljós
hjá löndum okkar hér
og sólarveldis rækta rós
á rót, sem heilnæm er.
Þess eflaust óskar hver,

sem íslenzkt hjarta ber,
að menntalind hér mætti íslenzk renna.

Þeir vildu stærri starfhring fá,
en strendur föðurlands
og frjálsrar þjóðar framkvæmd sjá,
er frægðar ber nú krans.
Því iðju orkan manns
og andinn frjálsi hans
vill fram og upp sitt flug æ lengra
þreyta.

Já, allir vér þótt orkum smátt,
vér iðja skyldim rétt
og merki Íslands halda hátt
með hugar umsvif létt.
Í stríði stöndum þétt
með stefnu takmark sett,
sem frjálsir þegnar fósturlandsins nýa.

Og andstætt hjal þótt heyrim vér,
vorn hug ei kælir neitt.
Það land og þjóðin okkar er,
sem unnum vér svo heitt.
Þótt hér sé högum breytt,

það heiður fær oss veitt
að vera nýtir Vestur-Íslendingar.

Sú von og þrá í vorri sál
mun vaka sterk og blíð,
að okkar kæra móður mál
vorn, mennti æsku lýð.
Við allt vort æfi stríð,
já, alla heimsins tíð
hér verndi drottinn Vestur-Íslendinga.

---

## Kvæði flutt á fyrstu samkomu,

er haldin var á Skjaldbreið.

Í bjarka hlé und bláu röðultjaldi,
þars blómdúk foldar árla skreytir vor,
þar skógar gyðjan skemmtiflöt til valdi,
að skunda létt sín frjálsu gleðispor.
Hún benti til sín byggðar vorrar lýðum
og bauð þeim hjá sér fagran skemmtistað.

„Hér mætið þið ei Svalbarðs stormi
stríðum",
með stilltu brosi voldug gyðjan kvað.

Hún dró upp mynd af fögrum skemmtiskála,
er skyldi reistur fleti þessum á
og hneigði til sín huga manna strjála,
og hér er kostur merki þess að sjá.
Hið mikla starf á mánatíma einum
um mikinn áhug dagljóst vitni ber,
því frjóum jafn hátt fagurlima greinum
vor fyrsta skemmtibygging risin er.

Nú gleðst hér með oss gyðjan eðlisháa,
því gleðin lífs er henni unaðs bót.
Hún vaggar sér í toppum hæstu trjáa
og teygir faðminn vorsins skrúða mót.
Hún kinkar að oss kolli lokkaprúðum
og kvöldgolunnar strengi leikur á,
að óska heilla beimum jafnt og brúðum,
sem bygging þessa glöðum augum sjá.

---

## Kvæði flutt á Skjaldbreið

19. júní 1896.

Nú vakir voldug gyðja,
sem verndar þennan lund,
svo frjáls og fús að iðja,
hið fagra allt að styðja
og gefa gleði fund.

Sinn tignar búning bezta
hún ber um þessa tíð.
Sú fegurð hrífur flesta
í flokki hennar gesta,
svo gleymist strit og stríð.

Og hér er hof í lundi,
sem henni eigna má.
Á frjálsum gleði fundi
hver fórn þar gjalda mundi,
sem óspillt mannúð á.

Þeim heill, sem hingað vitja.
Það hressir líf og sál
að syngja, dansa, sitja

og snjallar tölur flytja
um frjálsleg félags mál.

Vér segjum flokkinn fríða
til fundar velkominn.
Þótt gjöri gagn að stríða,
hið glaða, fagra, blíða
það á við anda minn.

---

## Skjaldbreiðardrápa.

Flutt á samkomu, er haldin var á Skjaldbreið
4. marz 1898.

Þar's sterkar eykur stífar rétta hendur
og storma kyljur á sér láta springa,
með ennið væna íturvaxin stendur
hin unga Skjaldbreið Vestur-Íslendinga.

Hún tápleg er, en tálfríð má ei heita
með tildurlausan ytri búning þéttan.

Hið innra vill sig öllu fremum skreyta,
hún álítur það hollan sið og réttan.

Hún vóx hér upp í vetrar kulda nöprum
og vinsæld hennar þótti misjöfn vera,
með veiklusvip hún var þó aldrei döprum
og vildi sjálfráð Íslands merki bera.

Og Skjaldbreið vóx og skjótum þroska náði.
Það skalf ei jörð, þótt loftið heyrðist duna,
Hún erfði nafn frá okkar feðra láði,
sem ískrýnt fjall, er byrgir glóð og funa.

*
* *

Þú unga Skjaldbreið gleði lífs vilt glæða
og geyma fróðleiks auð í skauti þínu,
um félags heill og framsókn andans ræða,
en fara hvergi yfir hófsins línu.

Hér allt um kring á fund þinn sækja flestir
og fýsir þig, sem unga snót, að líta
og langt að komnir hafa heiðurs gestir
þér heilsað glatt og fært þér skemmtun nýta.

Hér klerka hópur kom oss heim að sækja
og kirkjuþingsins meginfylking prúða.

Þeir hlýðni' og kærleik kenndu þér að rækja
og klæddu mál sitt björtum helgiskrúða.

Þá Vilhelm, Magnús, Sigurð skáld vér sáum
og Sigtrygg okkar Lögbergs járnskjöld sterka.
Þeir veifðu glaðir vængjum andans fráum
og við þig ræddu stjórnar fræði merka.

Og Doktor Valtýr var þinn heiðurs gestur,
hann vísindanna skýru gulli stráði,
og Hafsteinn okkar hugumljúfi prestur,
er himinborna mælsku kraftinn þáði.

Þú ýmsa fleiri eflaust talið getur.
Já, Ólafíu sízt vér skyldim gleyma,
hún margt oss kenndi mörgum presti betur
og mælsku sinnar undurflóð lét streyma.

*
* *

Hinn rama Svein*) í róstu leik þú sýndir
og risamyndir Íslands klettafjalla.
Við álfadans**) þú íþrótt hvergi týndir,
hið illa fyrir góðu sást þar falla.

---

*) Skuggasveinn. **) Nýársnóttin var og leikin þar.

Þá Íslands fálkann innst við stafn þinn hefur,
og okkar nýu fósturjarðar merki,
og sönglist prúðri sæti hátt þú gefur,
en Sögu telst þinn öndvegs bekkur sterki.

Já, vertu Skjaldbreið vel hið innra búin
og vaxin yfir flokkadrátt og hroka,
í fylgd með sátt og frjálsum drengskap snúin,
en fyrir víg og kúgun dyrum loka.

Og horfðu austur hýru systur auga,
ef Helgafell í nágrenni þitt kemur.
Ei þarf að hræðast þaðan tröll og drauga,
nei, þar er blessað ljósið öllu fremur.

En stattu Skjaldbreið sterk á þínum grunni,
já, stattu fast og haltu þínum velli,
ef vera kann, þér ýmsir misjafnt unni,
svo á þér nokkrar glettnis kúlur skelli.

Á hálu svelli' ei hylli þinni voga,
en hugsa ráð að fjölga þínum vinum.
Þótt hitni brjóst, ei lát þú upp úr loga,
en legðu ís við sléttu eld frá hinum.

Sem grannar þínir gömlu eikartröllin
á greinum þolnum láta bylji springa,

svo af þér stattu andstæð élja föllin,
þú unga Skjaldbreið Vestur-Argylinga.

Þinn fræði auðar fari dagvaxandi,
þín félög standi traust, sem eikar rætur,
þinn Íslands fálki aldrei kyn sitt blandi,
á Íslands tungu haf þú jafnan mætur.

---

## Kvæði flutt á samkomu,

er haldin var á samkomuhúsinu Brú.

Á bungu fróns hjá byggðar vegi sléttum,
þars brúuð rennur lítil foldar und,
er rúmgóð bygging reist á grunni þéttum
og ráðin hér in fyrsta skemmtistund.
Hið glaða vor skal gleði okkar magna
og gesti hverjum húsráðendur fagna.

A stuttum tíma starf er leyst af hendi,
er stórt má virðast litlum mannflokk hjá

og margur, hygg eg, hingað augum vendi,
er húsið nýa vorsól blikar á.
Það Íslendinga eign og verk má telja
og íslenzkt nafn því sæmir bezt að velja.

Því íslenzk tunga hér skal inni hljóma
og helga kraft sinn vorum æsku lýð,
og forna Íslands fróðleiks helgidóma,
sem félagseign, það geymir langa tíð.
Þá beztu heilla ósk því eg vil inna,
að öll hér blessist félagsskapar vinna.

Að nær og fjær það nái góðri hylli
og niður kveði flokkadráttar kíf,
en brú það leggi byggðar parta milli
og bönd, sem tengi eindrægt félags líf.
Fyrst ein er sveit þar eitt skal félag vera.
Það einn ei lyftir, megna fleiri' að bera.

Því grandi enginn félags fellibylur,
en frá því streymi kjarngóð mennta lind
og himinborinn bróðurkærleiks ylur
hér blómgi alt í sinni réttu mynd.
En alls kyns hregg og hagl það af sér standi,
sem Herðabreið á voru forna landi.

———

# Kvæði flutt á barnasamkomu

Í skóginum hjá Grund.

—

Í skrauthvelfing skrúðgrænna eika
er skemmtan hin bezta að sjá,
þá ungmenni léttfætt sér leika
með lífgandi vonhýra brá.

Þá fluglettu fuglarnir hoppa
og fagnandi kveða sín lög,
en blöðin um bjarkanna toppa
þau blakta við hlývinda slög.

Og borðdúkur blómstranna móður
hér breytinn og fjölskreyttur sést, —
sá næringar nægtanna gróður,
sem náttúran framleiðir bezt.

Ó dýrðarsjón dásemdar verka,
sem dregur vor hjörtu að sér.
Já, allt lofar almættið sterka,
sem augu vor litið fá hér.

———

# Til séra M. Jochumssonar.

Í þessum bjarka laufgum lund
oss ljúft er dvöl að eiga,
því okkar hitt er óska stund
sem allir fagna mega.
Vér hjá oss kæran höfum gest
á hauðri vesturslóðar.
Þér fagna vill vor byggð, sem bezt,
þú Bragi Snælands þjóðar.

Þín ljóð oss skemmtu ættjörð á,
þau andlegt gull vér teljum.
Þau ættlands strönd oss fylgdu frá
í fjarlægð, nú hvar dveljum,
þau örfa kjark hins unga manns,
þau anda veikan stoða,
þau svala hjarta syrgjandans
og sæla heimvon boða.

Þú gafst oss Tegners lofsverð ljóð
á ljúfa feðra máli,
þú birtir djúpan Byrons óð,
sem bitru líktist stáli.
Um Hallgrím kvaðst þú ljóð af list,
þau lengst vor hjörtu geyma.

Þín ljóð vor hjörtu ljóða þyrst,
sem lífæð gegn um streyma.

Vort skáldið kæra, þökk sé þér,
að þú í dag oss gladdir,
sem heiðurs gest þig virðum vér,
það vitna hjartans raddir.
Vor hugur líkt, sem hrökk af blund,
með hingað komu þinni.
Þín dvöl hjá oss, þótt stutt sé stund,
hún stöðvast oss í minni.

Á meðan íslenzkt mál og þjóð
ei manna niðjum gleymast,
sem andlegt gull þín ljósfleyg ljóð
í letri og hjörtum geymast.
Já, stórt og dýrt þitt dagsverk er,
svo daglaun há þú ættir.
Þér hraustrar elli óskum vér,
svo yrkja jafnan mættir.

Vorn skyggir góðan gleði fund,
sem gest þig kveðja hljótum,
þótt innst í hjarta alla stund
þíns anda ljóss vér njót*u*m.
Um foldar braut og báru geim

að brjóstum jökul svanna
þig leiði drottinn heilan heim
í hendur ástvinanna.

---

## Til Einars Hjörleifssonar.

Með kæru vori komstu hér
vor kæri heiðurs gestur
með a lans blóm í barmi þér,
þau berðu fram, svo njótum vér,
og þess kyns blóm oss brestur.

Þú komst hér og með kærleiks yl,
oss kveðju orð að færa,
því frá oss ráðinn farar til
þú fýsist nú um láð og hyl
til okkar ættlands kæra.

Og hljóðleiks skugga húm því ber
á hugi þinna vina.

Þá skreyttur horfinn skjöldur er,
á skarðið auða horfum vér
og finnst þá fátt um hina.

Þú stóðst í raun við storm og sjó
við stjórn á letra fleyi,
þá ýmsum megin aldan sló,
þú aldrei breyttir stefnu þó
og hraktist heldur eigi.

Í stafni knarar stóðstu fast,
þá styrjöld bar að höndum,
og hinna löngu brynja brast,
því beit þér andans vopnið hvasst
og kvað á klofnum röndum.

Og ljóða snilldar laginn til
þú lékst á hörpu Braga,
við gleði söng og ástar yl
við ættlands þrá og sorgar spil
jafn töm var tungan haga.

Í skemmtileik þú sönn varst sál,
þín sakna gleðivinir.
Þótt fylking okkar standi strjál,

þér stíla allir þakkar mál
þeir sönnu Íslands synir.

Á meðan vonin ljós oss ljær
er létt sinn vin að kveðja.
Við eigum þig, þótt unir fjær,
með andans blóm þú til vor nær,
að gagna oss og gleðja.

Að farar heill þér fylgi sönn,
oss fellur ljúft að biðja.
Þér vaggi stillt og hýrbrýn hrönn,
en hnjúkar Íslands krýndir fönn
við nýtum brosi niðja.

Vor forna kæra feðra grund
þér faðminn móti breiði.
Þér fagni þjóðin frjáls í lund,
þér fylgi gæfa alla stund
og bjarta braut þig leiði.

———

# Til Valtýs Guðmundssonar.

Þótt hollt sé hér loftið og sólrík vor sveit
með sáðlöndin kornfrjóu engjar og beit,
vor andlegi himinn er misheiður mjög,
þar myndast í loftinu hrímþoku drög.

Nú sé eg þo heiðbjart í ættlands vors átt,
svo augum eg renni í stjörnuleit brátt,
og sjáið þið norðstjarnan okkar það er,
sem andlegu þokunni hrindir frá sér.

Svo skoðar mín hugsjón vorn heiðraða gest,
er hjörtun vor íslenzku fagna nú bezt,
á norrænum sagnfræða himni er hann
ein heiðskæra stjarnan, sem lýsa þar kann,

Þú velkominn ert oss á vestlæga grund,
sem vinur og bróðir á fagnaðar stund.
Að móðir þú átt til að heimsækja hér,
það heiður og ánægja byggð vorri er.

Þitt heiti oss minnir á sagnanna söfn,
á sögur um valfall og ásanna nöfn
og týhraustur varstu að brjóta þér braut,
þá barnungur stríddir við fátæktar þraut.

Þín framsókn og vinna á vísinda braut
er vitni um norræna kjarkinn og þraut,
því hvern bítur anda þíns ósvikið stál,
hann eggjast við mótstöðu björgin óþjál.

Með sögunnar logbjarta ljós þér við hönd
á Leifs komstu fornslóðir Vínlands á strönd.
Og Sökkvabekks dísar mun norðstjarnan ná
að nema burt skuggann, sem lagðist þar á.

Í fróðleiks og menntunar fornkunnum lund
á Fróða og Kraka þú staðnæmdist grund
og brunninum Mímis þar bergir þú af
og bikara sendir oss vestur um.

Þú manst það að Ísland er móðurjörð þín
og menntunar ljós þitt á þjóð vorri skín.
Þeim fremstu að ættjarðar ást muntu jafn
vor óborna kynslóð mun heiðra þitt nafn.

———— —

# Til Ólafíu Jóhannsdóttur

undir nafni kvennfélagsins.

---

Þá nýársröðull geisla glæðir,
oss gleði nýa' að höndum ber,
sem vorblóm fríð á vetri græðir
og vorum þjóðflokk dýrmæt er.
Með gleði hreyfing sveit vor sést,
að sjá og heyra nýan gest.

Vor kæra ættjörð miklast máttu
og munt þess njóta langa tíð,
að hrausta dóttur unga áttu,
sem andlegt gengur fram í stríð.
Slík kvennleg hetja hugumstór
oss heim að sækja engin fór.

Þú merkis berinn kvenna kæri,
sem komst frá okkar móður grund,
þótt torsótt leið og löng það væri
á landa þinna komstu fund.
Með hlýu systur hjarta vér,
sem heiðurs gesti fögnum þér.

Og merki annað enn þá stærra
þú innst í styrku hjarta ber,

það merki gnæfir himni hærra,
vor helga kristna trú það er.
Þín heimsókn var oss vonar hnoss
og velkomin þú sért hjá oss

---

ÁVARP BARNANNA

## Til séra Björns B. Jónssonar,

ritstjóra „Kennarans".

Þú fræðari barnanna hógvær og hýr,
sem heldur upp frelsarans merki.
og Kennarann andlegu blómskrúði býr,
sem beinir oss veginn og hug vorum snýr,
að háleitu helgunar verki.

Hvern mánuð þú sendir hinn guðborna gest,
að glæða og mennta vorn anda,
þá glapþoka heimsins um sál vora sezt,
hann sjón vora skýrir, hvar leiðin er bezt
og gefur oss styrk til að standa.

Og fagnaðar dagur oss fegursti skín,
er fund vorn þú sækir sem bróðir,

því byggðin vor kæra er bernsku stöð þín,
nú breiðir hún móti þér skrúðklæði sín.
Hér fagna þér faðir og móðir.

Vér börnin og ástvinur barnanna hver
þess biðjum með tungu og hjarta,
að styrkur hins alvalda iðji með þér,
svo æfitíð langa þín njótim við hér,
að leiða oss lífs veginn bjarta.

---

## Til Miss G. S. Peterson

frá foreldrum skólabarnanna.

---

Fyrst ber svo til í bráð vér skiljum
og barna hóp vorn kveður þú,
á þig vér orði varpa viljum
með vörm og þakklát hjörtu nú.
Hér hefir blessast vel þín vinna
svo vanda háðri stöðu í.
Að ungdóms menntun hol'ri hlynna,
þú helgar líf þitt starfi því.

Þú að þér laðar ungra hjörtu,
þau agar bezt þitt vinar mál.
Þú rætir menntablómin björtu
í barnsins glaða frjálsri sál.
Þú daufan skilnings gneista glæðir,
svo greiðist þokan allt um kring.
Þú velur með þeim veg á hæðir,
sem víkkar andans sjónar hring.

Vér fylgjum hingað hópnum unga
með hjörtu full af kærleiks yl.
Þótt fámál sé og treg vor tunga
að tjá þér makleg þakkar skil.
Vér óskum mennta ljós þitt lýsi,
sem lengst, á vorra niðja braut.
Þín sjálfstæð menning veg þeim vísi,
að vinna hverja mannlífs þraut.

Og þótt í kvöld vér kveðjast hljótim,
vor kær er ósk og von um leið,
að þín vér síðar nær oss njótim,
þá nærir lífið vorsól heið.
Þig aldrei hrífi heimsins mæða,
þitt hjarta gleðji nálæg jól,
frá upphafs veru allra gæða
þér eilíf skíni friðar sól.

## Til Solveigar Sveinsdóttur

skilnaðarkveðja frá skólabornunum.

Með hlýgeislum vorsólar hingað komst þú,
og hlúðir að menntunar gróða.
Með kærleik og þakklæti komum vér nú
að kveðja vorn fræðarann góða.
Þú bráðum ert horfin á braut vorri sýn,
með barnslegum söknuði minnumst vér þín.

Sem vorsólin blómunum lífsmagn sitt ljær,
svo lyfta þau knöppum frá grundu,
vor andlegu vorblóm svo upp komu skær,
þá anda þíns kraftinn þau fundu.
Í mildum og laðandi mannúðar blæ
vor misferli barnsleg þú leiðréttir æ.

Þú sást vora leiki og sjálf varstu glöð,
en siðreglur bauðst oss að vanda.
Þér fylgir vor hugur á fjarlæga stöð,
oss fyrnist ei ljósið þíns anda.
Og hugkvæmur draumur á hraðvæng oss ber
í húsið vort kæra, að fræðast af þér.

Að skilnaði einhuga ósk vor er sú,
það anda vorn kætti að nýu,

ef vorra til heimkynna vitjaðir þú
með vorsólar geislunum hlýu,
að verma þau blómin og vekja oss hjá,
sem vetrarfrost gleymskunnar leiða í dá.

Á sólbrautum gæfunnar, Sólveig vor kær,
þig sólveldis konungur leiði,
á lífskjör þín andi hans blessunar blær,
svo bölstormar fjarri þér sneiði.
Og barnanna sálum þú lengi sért ljós,
að lífga þar himneska ódáins rós.

---

## Til Jóseps Walters.

Eg kom til þín gestur og kunnur þér lítt,
þú komst oss á móti, sem bróðir,
með viðmótið ljúfa svo laðandi blítt,
sem lýsti því gjörla, hve bjart er og hlýtt
um hjarta þíns huldustu slóðir.

Og viðmótið hlýa var sama að sjá
á sérhverjum ástvina þinna,

og hagkvæma, indæla húsið þitt má
og heimilið gjörvallt að sjálfsögðu þá,
sem gestrisnis griðastað finna.

Því velkominn gestur hjá okkur nú ert
með ástríka vífið þitt kæra.
Það hresstist og glaðnaði heimili hvert,
sem heimsókn þið veittuð, því skal ykkur bert
vor þýðustu þakkarorð færa.

En hraðfleyg er gleðinnar heiðbjarta stund,
vér hljótum að kveðjast og skilja,
þá dregst yfir rökkur og daprast vor lund,
en draumblíð er minning um góðvina fund,
þótt mæti oss mótfallin kylja.

Þín ástmenni frændur og vinir, eg veit,
á veg ykkur fylgja í anda
með blessunar óskir og bænarmál heit
þau bezt, sem vér eigum í hjarta vors reit,
að mein ykkur megi' ekki granda.

Að hagsældar, friðar og hamingju sól
á hérvistar braut ykkar lýsi
og heimsins þótt bylti sér breytinga hjól
ei breytist hins alvalda miskunar skjól.
Sú hönd ykkur heimleiðis vísi.

Minn gestvinur kæri, ei gleymi eg þér
og grafar þótt blæa mig klæði,
minn andi um ljósheim þá fljúgandi fer
á fund þinn, sem gestur, þá draumstund
og færir þér fegurra kvæði. [þín er

---

## Til Sigurðar Kristóferssonar

á gamlárskvöld 1891.

Eg hafði, vinur, hugsað mér,
ef hentug gæfist tíð og stund,
þá skógar gyðjan skraut sitt ber
að skoða þennan fagra lund.

Eg kom hér fyrst, þá hrímkalt haust
um hauður storma vængjum sló
og strauk af björkum laufið laust,
en lundurinn var fagur þó.

Svo kom eg næst, er kafald dimmt
við komu ársins bauð oss stríð

með hræsvelgs org og helfrost grimmt,
en hér var logn og friðar tíð.

Um hús þitt tryggan halda vörð
þau háu tré á sterkri rót,
þótt árás storma herliðs hörð
sé hafin vorri byggð á mót.

Af byljajötuns boga þá
þótt bruni fjúka skeytin hörð,
þeim taka bjarkir flugið frá,
svo falla magnlaus nið'r á jörð.

Þú ruddir braut og byggðir hér,
en blessun drottins með þér vann.
Í lundi þessum allt það er,
sem ánægt líf þér veita kann.

Hér áttu bezta ástvin þann,
sem unnt mun hér á jörð að fá
og barna hópinn blómlegan,
sem bjartar vonir hvíla á.

Hér áttu fénað, áhöld þörf
og akra kring um lundinn þinn.
Hér hafa blómgast bezt þín störf,
hér blessun guðs ég sé og finn.

Þig hérlend stjórn til starfa kýs,
stríddir gegn um marga þraut
brauzt hér löngum ægan ís
á Íslendinga landnáms braut.

En fyrst mér gafst ei færi til
þinn fagra lund í blóma sjá,
eg hingað gjarnan vitja vil,
þótt vetrar blæan hvíli á.

Já, hingað vitja var mér kært
að vinar boði þessa stund,
svo heilla ósk eg fengi fært
í friðarsælum bjarka lund.

Hið nýa ár, sem næsta dag
á náðar himni drottins skín,
þér bjóði gleði bjartan hag
og blómgi heillum lífskjör þín.

Þinn ástvin sérhvern ásamt þér
um ár og daga hverja stund,
eg bið, að drottinn blessi hér,
og blómgi æ þinn fagra lund.

---

## Orkt til sama

á tuttugu ára brúðkaups afmæli hans.

---

Vinar í húsi,
víggirt sem hefir
náttúru herrans
hagvirka mund,
glaðir nú sitja
gestir að borðum
atlögum stormanna
óhultir gegn.

Harðráður vetur
heimskauta gylfi
inngöngu leyfi
ekkert fær hér.
Hjúum hans reynist—
Rosa og Hörku—
harðlæstar vera
húss þessa dyr.

Bygging svo vönduð
berlega sýnir
eigenda sinna
efni og hug.
gestafjöld þessi

glögglega sýnir
örlæti þeirra,
alúð og tryggð.

Gestrisni, mannúð,
glaðværð og friður
hér eiga fullan
heimilis rétt.
Mynd þeirra allra
móti oss brosir
foreldra' og barna
framkomu í.

Heiðvirðra hjóna
hér er að minnast,
frændum og vinum
fögnuð sem tjá,
tvo þegar ára-
tugi að fullu
ástríka sambúð
átt hafa þau.

Heill sé þér, vinur,
hamingju blómsveig
krýndi þig drottinn
kvonfangi með.
Þjóðflokka tveggja

tengt hefir ættir
hjónaband ykkar
hagsælt og tryggt.

Fátæk með efni
framtíð á móti
brostuð þið örugg
búin til stríðs.
Gátu þarf enga,
gjörla vér þekkjum,
drottins á blessun
byggðuð þið von.

Mörg hefir óræk
merki að sýna
heimili ykkar
hýran með svip,
ástrík hvað sambúð,
samtaka hendur,
iðja og ráðdeild
uppskorið fá.

Vinaboð ykkar,
veiting og gleði
þakkar hver gestur
þýðum af hug.
Hamingju óskir

hús ykkar fylla,
friður og blessun
faðmist þar æ.

Langa og bjarta
lífdaga gefi
ykkur hin milda
almættis hönd.
Ættkvíslir ykkar
aldir í gegn um
lifi til heilla
landi og þjóð.

---

## Orkt til sama

veturinn 1900.

Þá harðsnúinn vetur sín hertýgi ber
með hnikluðum sígandi brúnum
og hrímgaða feldinn und fótum á sér,
sem fannryki drifinn og klakaður er
með hótandi helkulda rúnum. —

Þá, komum vér saman á frjálslegan fund,
hér ferðbúinn vinur oss mætir,
en hress er vor andi og hlý er vor lund,
þótt húmblæa skyggi á gleðinnar stund,
það vegstjarnan vonar oss bætir.

Þú burtríðni vinur og bróðir vor kær,
vér biðjum þig alvaldur leiði.
Þótt Vindsvalur yglist og válegur sær,
hans verndarhönd máttuga æ sé þér nær,
og braut þér til blessunar greiði.

Þér fylgi vor hugur um hyldýpis geim,
þars hrannirnar eimdreki ristir,
til föðurlands mjalldrifnu fjallanna heim,
til fornstöðva vorra — ei gleymir hann þeim
og með þér hjá góðvinum gistir.

Þú hefir oft áður séð bárótta braut
og bilað ei hugar þíns kraftur.
Vér óskum þú sigrist á þessari þraut
og þinna í hjartkæru ástvina skaut
þú heill komir heim til vor aftur.

## Orkt til sama

við afturkomu hans frá Íslandi
sumarið 1900.

---

Þú hvarfst oss í vetrarins vindsvala skaut
á veginn til ættjarðar heim
og guð þér að fylgja um bárur og braut
vér báðum að skilnaði þeim.
En vonin, sem oftar, þá léði sitt ljós
og lét oss þig heim kominn sjá,
því vonin á ódáins vorblóma rós,
sem vetrarins frost ekki ná.

En vetur er liðinn og vonin er rætt
og vinirnir heilsa þér blítt.
Það heyra oss fýsir, sem hefir þér mætt,
er hagfellt mun bæði og strítt.
Þú komst yfir íslenzkan Kínverja múr, —
svo köllum vér mannfrelsi skert.*)—
Þeim hafíss og ólaga helgreipum úr
þú heim aftar velkominn sért.

En hins er að minnast, þú heimsóttir þó
vort hrímþakta ættfeðra land,
sem einangrað næðir þar norður í sjó,

---

*) Útflutningslögin heima.

er nöldrar við klappir og sand.
Þó hvarflar vor hugur þar hlýlega að,
og heim þangað fylgdist með þér,
því margan þar eigum vér minningar stað
sem manni svo hjartfólginn er.

Þó erum vér glaðir að heimta þig heim,
sem herstöðvum kæmir þú frá,
og sérhverjum fögnum vér samlanda þeim,
er sótt hefir fund okkarn á.
Nú sjáum vér kominn er skjöldur í skarð,
og skýmökkvi saknaðar dvín
hjá ástmönnum þínum og vinum, sem varð,
þá varstu oss horfinn að sýn.

Við fregn þinnar heimkomu hresstist vor
lund,
vér hugðum, sem fyrst, þig að sjá
og því er í dag svona gestkvæmt á Grund
og glaðleg hver einasta brá.
Að alvaldur blómgi og blessi þinn hag,
sú bæn vor og ósk skal ei gleymd.
Að langan þú enn eigir lífsstarfa dag
og lengi sé minning þín geymd.

———

KVEÐJA

# Til Jóns Sveinbjörnssonar,

er hann fór heim til Íslands.

---

Hvað mun fýsa til þess vina frjálslyndan hóp,
að vér fylkjum oss hér þessa stund?
Skal hinn þysmikli dans eða þrætumál flækt
hafa þennan oss kallað á fund?

Nei, það hvorugt mun slíkt og á svip vorum sést,
að þar samhuga alvara býr.
Þegar fjarlægist einn, þó að funda sé von,
að hans fjarveru hugur vor snýr.

Það er landi vor kær, sem á fastráðna ferð
heim á feðranna mjalldrifnu grund,
það er skylduríekt frjáls, það er föðurást heit,
sem oss fjarlægir góðvin um stund.

Þá vér skoðum vorn hug, okkur skarðið ei dylst
fyrir skildi, er hverfur á braut,
þó vakir þar ljós þessi vegstjarna manns,
það er vonin um sigraða þraut.

Það er farheilla ósk, sem oss fýsir nú þér,
okkar ferðbúni vinur, að tjá.
Far þú heill yfir láð og á hjólfáki eims
sé þér hugléttir skeiðsprett að fá.

Far þú heill yfir sæ og á hafmeya dans
þér að horfa sé skemmtun, sem bezt,
unz við barnkunnug fjöll með sinn blá-
jökla fald
þú með barnsgleði sjón hefir fest.

Stíg þú fótum alheill vorrar fóstru í skaut,
dala faðmlög hún bjóði þér sín
hýru vorbrosi með og í vorskrúða klædd.
Minning vaknar þá barnæsku þín.

Ber þú kveðjuorð hlý vorri kynsmanna ey,
sem af klaka og snæ hefir nafn.
Seg vér geymim hjá oss, seg vér göfgim,
sem fyr,
hennar gullvæga minninga safn.

Bið þú suðrænan vind, þegar sólbraut er
heið,
að hún svífi um öræfin grá
kveðjur barnhlýar með norðurbyggðirnar í
okkur börnunum norðlenzku frá.

Drottins máttuga hönd sé æ með þér í fylgd,
ekkert mótstreymi vinni þér tjón,
svo vér heilan, sem fyrst, þinna heimkynna til
aftur heimtum þig góðkunni Jón.

Geymi alvaldur trúr þinna ástvina líf,
blessist atvinnu framleiðsla þeim.
Björt mun fagnaðar stund, þá með fjar-
lægan son
þú í faðm þeirra kominn ert heim.

---

## Til Jóns Ólafssonar og Helgu Jónasdóttur á Brú.

Flutt á fjörutíu ára hjónabands
afmæli þeirra.

---

Hér er gestum glatt að vinar býli,
gestrisnin hvar jafnan sat að völdum.
Allir heilsa öldnum hal og brúði,
öndvegi sem hér að réttu skipa.
Hýr er brún og hyggjulegur svipur,
hæfir börnum gömlu fjallkonunnar.

Lífsins reynslu rúnir hefir elli
ritað skýrt á enni þeim og hendur.
Öldungs hönd til letur starfa lagin,
líkt sem kreppt að penna skapti mjóu.
Hennar granna höndin gjörla lýsir
hagleik, þrifni, iðjufýsn og þreytu.

* * *

Börn og niðjar beggja þeim til handa,
blóma lífs og æsku rósum þakin,
minnast nú á móður ást og föður,
meta hana rétt og flestum dýrri.
Minnast þess, á lífsins ferli förnum
fylgst þau hafa bæði trútt og lengi,—
fylgst, sem hjón í friði guðs og trausti
fjóra tugi lífsins reynslu ára.
Minnast þess, þau æfimorguns árla
alvalds ljós í sálum þeirra kveiktu.

* * *

Heill sé ykkur hjónin sómakunnu,
heill og blessun, kæru gömlu vinir,
fylgi ykkur fjörs að daga þroti
faðmi vefji sérhvern ykkar niðja.
Blómgist þeir og virðing studdir vinni
vorum þjóðflokk bæði gagn og sóma.

Minning ykkar mæt í heiðri lifi,
meðan varir íslenzk þjóð og tunga,

* * *

Sem kyrrum á aftni, þá kvöldroðinn hýr
á kögrunum ský'a í vestrinu býr,
og heiðri á dagrönd við hæðanna brún
af hnígandi röðli sést gullstöfuð rún.—

Eins kvöld ykkar lífs verði kyrlátt og hlýtt
og kallið til burtfarar vinarmál blítt.
með sólgeislum vonar um sælla lífs hag
og sælunnar bústaða kvöldlausan dag.

---

## Haustið.

Þá síðla morguns sunna rís
við sjónhring geislaprúð
og fagurlima fölnuð dís
sitt fellir græna skrúð,
en nóttin hrímga húð,
á hauðurs breiðir súð,
þau vitni þögul vetrar komu boða.

En oft er svipur haustsins hýr
og hressir dapra lund,
það skæran himinn skrauti býr,
þótt skyggi nótt á grund.
Á frjálsan skemmti fund
þá fýsir menn og sprund,
hið létta andans loft til sín að draga.

Oss sýnir haustið sumarföng,
þótt sumra virðist rýr,
en sé ei andans sjóndeild þröng,
vor sál við nægtir býr.
Til himins hún sér snýr
og heimsins blótgoð flýr,—
hinn máttka dollar, manni allt er veitir.

Þótt haustið jafnist vor ei við,
það vel oss gleðja má,
það tímans framrás leggur lið
og lætur okkur sjá
að blómið beði á
þarf blund og hvíld að fá,
svo lífsmagn nýtt til næsta vors það fái.

En lífið manns á líka vor
þá ljúfu æsku stund

og það á sumar þroska spor
með þrek í sál og mund.
Að hausti hels í blund
það hnígur þreytt á grund,
svo yngdan kraft til æðra lífs það fái.

---

## Gestkoma.

Hér gekk til byggða gestur,
að gömlum víkings sið,
af háu valdi hresstur,
því hjá oss að mun seztur
með stálklætt storma lið.

Hann finnur forna vegi,
þá fer að lækka sól,
á norðan nepju fleyi,
svo nálgast okkur megi,
frá klaka kringdum pól.

Hann þrumu lúður þeytti,
svo þungt og hátt við kvað.

Hann yrju örfum beitti,
og eldibröndum hreytti,
oss byggðar búum að.

Hann snjófgum feldi fleygir
á foldar beran vang
og skafla tungur teygir,
svo týnast mönnum vegir
með nætur gaura gang.

Hann kastar klaka skjöldum
á kjalarfáka leið,
svo bogna bök á öldum,
Hann berst með næðing köldum
á élja rennireið.

Hann manna mun ei rækir,
við marga berst í senn.
Að höll sem koti krækir.
Hann klerka jafnt ofsækir,
sem veila viðsjálsmenn.

Til varnar vér oss myndum
þá vogest kennum þann
og eld á arni kyndum,
svo út hans liði hrindum,
unz vorsól hrekur hann.

Já, kindum eld vors anda
mót árás harðstjórans.
Í fylking félags banda
vér frjálsir skulum standa
og leita sólar lands.

---

## Sumarkveðja
1893.

Hér þótt finnist fólk í dag,
flyt eg engan gleði brag.
Menn þá kveðja mætan vin,
myrkvast gleði röðulskin.
Okkar hjarta oft fær sært
yfirvald að missa kært,
þegar sést í sæti hans
svipur ylgda harðstjórans.

Tjáða líking taka má
tímaskipta sjónhæð á.
Sumarblíðu bjarta hlið
brosir nú ei lengur við,

stirð og fölnuð foldin því
færist hvítan náhjúp í.
Að oss myndar ægirún
ýrð og hnikluð vetrar brún.

Sælu auðga sumar tíð
sólar dóttir mild og blíð
fóstra lífsins foldu á,
fagurt margt er lézt oss sjá,
dvöl þín hjá oss dýrmæt var,
drottins gjafir hönd þín bar
á vort borð, svo er þar nó,
út í vetrar stríð oss bjó.

Söknuð hrífnir sjáum vér,
sýning þinni lokað er.
Fögur hún og fjölbreytt var
fróðleiks til og nytsemdar.
Röðultjaldi rúmu í
reyfðu þig ei okurský,
hreinni skýrð í himinlind,
heimssýninga fyrirmynd.

Kæra sumar, flutt oss frá
ferðavagni tímans á,
eftir léztu yl og líf
æst að hindra vetrar kíf.

Minning þinnar mildi' ei dvín,
menn og skepnur sakna þín.
Fölum sveipuð feldi nú
frá oss nauðugt hverfur þú.

Hjá oss vakir vonin sú,
vitjir hingað aftur þú,
vorsins hlýu signd af sól,
sveipuð nýum blómstra kjól.—
Von um sigrað vetrar kíf,
von um æðra sumar líf,
andinn manns sem æ mun þrá
okkur jafnan blómgist hjá.

Líf vort hér er veturvist,
vorið andans byrjar fyrst,
hans þá ferða fley ótraust
felur dimmleitt grafar naust.
Ræktum andans blóm sem bezt—
blóm, sem geta rætur fest,
ljóss þá flytjum landið á
leystir mótgangs vetri frá.

———

# Vonin um vorið

Þá fyrst eg mæti frosti þrungnum vetri
og fer hann djarft að mínu veika setri,
eg veit mig skortir við hann megn að stríða
og vorsins finnst mér ægilangt að bíða.

Þá döpur sól fer dagleið styztu sína
og dauðans eggjárn vetrar hörkur brýna,
mér geislastaf sinn *von um vorið* gefur
og við hann jafnan studdst minn andi hefur.

Nú sé eg breyting, sólin göngu hækkar,
á sama hátt minn kvíða skuggi lækkar
og vonar ljósið vex í mínu hjarta
um vorið hlýtt og sumardaga bjarta.

Ef vonin mín um vorið út af dæi,
og vetur einn á minni braut eg sæi,
þá yrði líf mitt döpur dauða teygja
og dauðann sjálfan helzt eg myndi þreya.

En vonin mín um vorið brást mér ekki,
þótt vonabrigði heimsins mörg eg þekki,
ef frestar það að færa mér sinn varma,
þess fegnari eg tek það mér í arma.

* * *

Mín lífskjör einatt líktust vetri köldum,
mín leið var grýtt í þröngum skugga tjöldum,
en sál mín jafnan átti sjónhæð eina,
þar að sér dró hún vonar loftið hreina.

Og það er von um vorið, ljósið, friðinn,
þá vetur minnar æfi hjá er liðinn,
að blóm míns anda betri jarðveg fai
og byrji líf, sem fullum þroska nái.

Þú vonin mín um vor í betra heimi,
sem verndargrip í hjarta þig eg geymi,
því líf án vonar líkist dauða stríði
og lífs þess blóm er hnípinn vetrar kvíði.

Þú vonin mín um vorið ljóss á hæðum,
mér veitir styrk og lofar æðstu gæðum,
eg á þig frjálsa fleyið mitt ótrauða,
sem fleytir mér í gegn um líf og dauða.

---

## Vorið og eg.

Nú roðar upp af röðli vordaganna.
Eg rís af mínu vetrarkulda hýði

og kem í félag frjálsra gleðimanna
úr fásinni og mínu innra stríði.

Eg heilsa öllum höldum jafnt og snótum,
er hlýrri vilja kveðju minni taka.
Eg heilsa fold á fögrum tíma mótum,
sem frí er nú við álög snæs og klaka.

Já, vorið öllum fögnuð nýan færir,
það færir vængi niður beygðum anda,
það menn og skepnur nýu fjöri nærir,
til nýrra verka flestir upp því standa.

Nú akurmanna iðju höndin slinga
sín áhöld býr, en fákar orku neyta,
og hvesstir plógar stæltum trjónum stinga
í storðar vanga moldar lagið feita.

Og strik við strik svo ristast ekru reitir,
en rumskast tekur blómstra móðir frjóa
og margfætt herfi moldar hrjóstum breytir
í mjúkan beð, þar hveitistangir gróa.

Og þungstíg sáðvél þrýstir kornum niður,
á þeirra hvílu moldarvoð svo breiðir,
en grátfrjótt ský með geisla, sólar styður
að gróða magni, fram sem jörðin leiðir.

Þá vorið sigrar vetrar frostin hörðu
og vaxa blóm af huldum jurta rótum,
minn hugur lyftist himins til frá jörðu
og herra lífsins krýpur þér að fótum.

Mér bendir vorið vafið nýum blóma,
að verða sjálfur nýr og betri maður,
en allt mig kring um heimsins raddir
hljóma,
að hér sé til þess, hvorki tíð né staður.

Svo hrjáist eg á hörðum æfi vetri
og hrekst þá leið, eg gjarnan forðast
vildi,
eg þrái sumar, þrái tíðir betri,
eg þrái líf, sem hefir æðra gildi.

Og mildum varpa myndi aftan roða
á minnar æfi vetrar kólgur harðar,
að fá í sumar fögur blóm að skoða
og falla svo í haust með stráum jarðar.

Þú allt af vakir von í mínu hjarta,
þótt veik sé trú og fjötraður minn andi,
að ódauðleikans blóma vorið bjarta
mín bæti kjör á nýu fósturlandi.

Oss gefi drottinn styrk í lífsins stríði,
að stefna rétt og blómga allt hið góða.
Hann blessi alla byggðar vorar lýði,
hann blessi húsin, fé og jarðar gróða.

---

## Vinafundur.

Nú flögrar minn andi frá andvöku sæng,
þótt örsnauður sé hann og fluggögnum
þrotinn,
en hart er að bjargast við hrjálegan væng,
því hinn fyrir löngu var stýfður og brotinn.
En þó er, sem lífsneisti framgjarn og frjáls
í fölskanum gamalla kola sig glæði,
að hreyfa við setningum hendinga máls,
þá hóp minna góðvina finn eg í næði.

Þá vaknar minn hugur og hreyfist mitt blóð,
svo hryggspennu ellinnar læst eg ei finna,
þá finnst mér, sem vorssólar geislandi glóð
á gaddinum vetrar sé búin að vinna,
og sumarblóm engin þótt sjáist hjá mér,

mig samt um þau andlegu vorblómin dreymir,
og stund þeirri varið til ávinnings er,
sem andlegur vorblær um sálina streymir.

Nú gleðst eg í fámennum góðvina hóp,
að glaumnum og fjöldanum sjaldan mig
gef eg,
sú nepja, sem örlaga nornin mér skóp,
hún nær ekki til mín, þá skjól ykkar hefi' eg.
Þið hafið mér fyrri úr svefnmóki svift
og sett mig hjá ykkur að gleðinnar borðum,
en andanum dapra og lamaða lyft
með lífgandi viðmóti, hressandi orðum.

Með ykkur þá hugann til fjalla eg flyt,
þars' frjálsleg er útsjón og loftstraumur
þynnist.
Í andvöku klefa þá síðar eg sit
með sólskin í huganum ykkar eg minnist.
Þá vendir sér andi minn vonar að strönd,
þars' víðsýnið opnast og næg eru gæði,
þá hristast af sálunni hlekkir og bönd,
þars' hóp minna góðvina finn eg í næði.

---

# Hvöt.

Orkt til ungu mannanna á samkomu (boxsocial), sem haldin var til arðs fyrir lestrarfélagið „Framsókn" 1900.

---

Vorið nálgast, vaki menn og snótir,
vakin sunna árla morguns lýsir,
gulli strjála geislar hennar skjótir,
gjörvallt lífið endurvakna fýsir.
Fullur máni sín ei sakna lætur,
svæði gyllir hann til enda nætur.

Þá er gott sig gleðji yngri þjóðin,
gamlir mega eflaust hópinn fylla.
Þegar brosa blómleg ungu fljóðin,
bros frá hverri vör þær að sér hylla.
Gömlum jafnvel gleymast liðnar þrautir,
geisla slær á myrkar andans brautir.

Hugsum þá hvað hinum ungu líður,
hér þarf engar getur til að leiða.
Órækt próf hér ungra pilta bíður.
Úr því reynslan bráðum fær að greiða,
fáein „cents" hvert frá því nokkurn ginna
fagran stúku menjagrip að vinna.

Heyrið sveinar, hér er góðs að njóta,
hingað vendið sjónar ljósum björtum,
sjáið haglegt handbragð vorra snóta,
hugvits smekk að geðjast ykkar hjörtum.
Ytri fegurð engum má hér leynast,
innra mun þó sýnu betur reynast.

Hér er skemmtan, hér á þarft að vinna,
hér er ekki kastað fé á glæður.
Framsókn mennta fýsir ykkur hlynna
fróðleiks vinir, systur jafnt og bræður.
Andleg vorsól að oss geisla hneigi,
andinn sæki fram á lífsins vegi.

---

## Á skemmtisamkomu

Goodtemplara 1900.

Nú gefur vel til gleðifundar mönnum,
því glöð og hýr er náttúrunnar lund
og frelsið kallar: „Fleygið hvers dags önnum
og fáið ykkur skemmtan litla stund."
Hvað mætir fegra maður augum þínum,

hvað minnir glöggar drottins hagleik á,
en jörðin sveipuð júní skrúða sínum,
hver jarðnesk prýði sigrar fegurð þá?

Já, það er inndælt þennan dag að finnast,
en þörf sé jafnan okkar skemmti stund.
Á félags heilla mál vér skulum minnast,
svo miði fram við sérhvern gleði fund.
Hvað styrkir betur bróðurkærleiks anda,
en binda fögur siðareglu heit?
Að efna þau, er verk og orð að vanda,
svo vaxi blóm í hverjum starfa reit.

Svo notum frjálsir gjafir lífsins gæða,
en gleymum ei hver veitir okkur þær.
Þó allt hvað styður andans líf að glæða,
skal öðru fremur svalalind vor kær.
Oss heilla gróða gefi dagur þessi,
hinn góði ljóssins andi verki það,
hann félags líf og framkvæmd vora blessi
og fullkomnunar marki leiði að.

---

# Á gamlársdagskvöld

1900.

---

Ei tefur iðinn tímans straumur
við takmark stunda neitt,
hans ferð ei mannlífs glepur glaumur,
né gangi hans fær breytt.
Vor aldur svo með árum líður,
vort æfi takmark nær og nær oss bíður.
Ein kynslóð fer en fæðist ný,
og flest er breytið heimi í.

Svo líða dagar, ár og aldir,
nú er á degi kvöld,
og með því ársins tímar taldir
og tíræð þrotin öld.
Vér hennar sögu heila sjáum
og hinnar næstu kvöld ei litið fáum.
Svo markverð tíma mót að sjá,
oss minnir tímans nytsemd á.

Og langt á tímans liðnu slóðir
oss liðin bendir öld,
sem ellihnigin heilráð móðir
við hinzta æfi kvöld
að beði sínum börn sín kallar,

sem bezt, að tjá þeim skyldu reglur
sem eru alda föður frá, [allar,
og farsæld mannsins byggist á.

Þar allt að sama efni stafar,
sem oss var fyrir sett,
að þekkja tilgang tímans gjafar
og tímann nota rétt.
Af liðnum tíma lært það fáum,
í ljósi tímans höfundar það sjáum,
því reynslan lífs og ljósið hans
fær lyft og þroskað anda manns.

Svo liðið ár og öld vér kveðjum
með öruggt hugarþel.
Við bjartar vonir geð vort gleðjum,
en gætum tímans vel.
Oss nýir tímar nýung boða.
Vér nýrrar aldar fögnum morgunroða.
Vor drottinn blessi lýð og lönd,
oss leiði æ hans föðurhönd.

---

# Fyrstu byggðarmenn

29. marz 1901.

---

Nú bilar óðum brynjan vetrar fanna,
á braut hann snýr og leggur niður völd.
Nú færir líf í fold og hugi manna
hið fyrsta vor á tuttugustu öld.
Og byggðin okkar blóma krans upp setur,
og býður opinn gróða faðminn sinn.
Hún til sín enn þá töfrað hug vorn getur,
sem tvítug snót með æsku rós á kinn.

Þið öldnu bændur Argylebyggðar feður,
sem eigið hér þau fyrstu landnáms spor.
Sú endurminning okkur jafnan gleður,
þá ykkur gladdi hér ið fyrsta vor.
Um veglaus svæði öldur fanna yfir,
þið unnið höfðuð stranga ferða þraut,
því íslenzk manndáð lengi í kolum lifir
og löngum bezt, þá torfær gjörist braut.

Þið námuð staðar stöðvum þessum nærri
og störðuð yfir byggðarlausan geim,
en hvílduð hug í vonar leiðslu værri,
að vænni tíðir breytti kjörum þeim,
og hugur ykkar létt í hæð sér lyfti

frá lundi þeim, sem ykkur veitti skjól,
þá fanna dúk af foldar brjóstum svipti
með fingrum geisla brosmild apríl sól.

Þá sáuð þið að sveitin okkar kæra
í sínu skauti geymdan fjársjóð bar,
hvað búmannleg og börn sín hæf að næra,
hvað blómleg hún og lík til þroska var.
Margt skógarbelti óskert enn þá bar hún,
þótt af þeim hefði vetur laufum svift.
Í röggvar feldi fyrra sumars var hún,
sem forn var nú og litum hafði skipt.

En vorið kom og gladdi hennar gesti,
í gamla feldinn ófst sá nýi brátt
og grænn varð hann á stuttum stundar
fresti,
en stálmynnt öxi kvað í trjánum hátt.
Á skála gerð varð skjóta hönd að leggja,
þótt skrautleg væri bygging ei né há.
Þið unduð glaðir innan bjálkaveggja,
þá önnum dagsins hvílduð ykkur frá.

Því mörg var önn, en mörg ei vopn að beita,
þó mátti bráðum plægðar ekrur sjá,
því hver var öðrum fylgi fús að veita

og félags andinn hlýr, sem vera á.
Með styrkan hug og starfi æfða krafta
þið stríðduð áfram fyrstu byggðar menn.
Um Sigurð, Þorstein, Skúla, Halldór, Skafta,
það skrum er sízt og marga fleiri enn.

Og byggðin þéttist breytt er rósa grundin
í breiður akra hvert, sem augað snýr.
Í skauti hennar skjótt var auður fundinn.
Nú skreyta býlin vinnufæri dýr.
Og skrautleg hús, sem hæfa mætti jörlum,
þið hafið reist í bjálkakofa stað,
en svipur frjáls á konum jafnt sem körlum,
um kjörin bættu ljósast vitnar það,

En ykkar störf á tveimur tugum ára
má telja víst að síðla verði gleymd,
ei máir ykkar minning tímans bára,
hún mun í letri fram á aldir geymd.
Já, heill sé ykkur Argylebyggðar feður,
það eigið heiður fyrir nytsamt stríð,
en allt, sem bætir, blómgar, menntar,
gleður,
hér blessi guð um alla heimsins tíð.

---

## Vestur-Íslendingar.

Flutt á Íslendinga daginn 19. júní 1900.

Þeir viku frá ættlandi vestur um sæ,
því vel féll þeim sjálfræðis kenning,
af hólmgöngum þreyttir við hafís og snæ,
sem heftu þar framkvæmd og menning,
frá þröngsýni stjórnar í þingi og sveit,
sem þrifum hins fátæka eyddi,
frá arðsmárri vinnu, sem orkunni sleit
og unglingsins hæfileik deyddi.

En þó munu flestir, sem féll það ei létt
við frændur og vini að skilja,
sem geyma í minni hvern barnstöðva blett
og blómgun síns föðurlands vilja.
Og ýmsum þá virtist þeir voguðu djarft
og vanræktu landið sitt heima,
en hingað þeir átt hafa erindi þarft,
sem aldrei vor saga mun gleyma.

Þá iðni og kjarkur mót örðugleik rís
með æfingu þrautirnar vinnast.
Menn brutu hér fátæktar báróttan ís,
en brosandi nú á það minnast,
þá líta þeir út yfir löndin sín frjó,

sem lífsbjörg og þægindi færa,
um framtíðar horfurnar hugsa með ró
og hyggni af reynslunni læra.

Og misjafnt þótt hagsælda beri þá byr,
er bjargráða þekkingin meiri
og sjálfstæðis vonirnar vænni, en fyr
og vegir til menningar fleiri.
Já, mörgum það frumbyggja heppnaðist hér,
sér hagkvæman bústað að velja,
en niðjanna framtíð þó eflaust það er,
sem ávinning stærstan þeir telja.

Ei slitna vor íslenzku bræðralags bönd,
þótt blárasta djúp sé á milli,
og heill sé þeim fyrstir hér stigu á strönd
og strax náðu landvætta hylli,
sem lögðu hér íslenzka landnema braut,
sem legið til blómgunar hefur,
með sjálfstæðis löngun og þoli í þraut,
er þróttinn til framkvæmda gefur.

Þótt breytinga hraðstraumi berumst vér á,
vor bræðralags andi sé þýður,
að blómgist hér menntun og manndáð oss hjá
og mannúð og frelsi ei síður.

Hjá íslenzkri kynslóð, sem ei er nú fædd,
svo aldrei vor þjóðminning gleymist,
vor íslenzka tunga sé rituð og rædd
og rit vor hin fornu hér geymist.

Og framsóknar keppni þótt hér sé og hark
með háværum stórþjóða lýðum,
vor unglinga hópur ei missi sitt mark
á menningar skeiðfleti víðum.
Svo óskum vér hverfandi aldar við kvöld,
við ársæld í friðsælu landi,
vor kynslóð að lokinni komandi öld
í kraftmiklum blóma hér standi.

---

## Ávarp til gestanna

flutt við sama tækifæri.

Nú hækkar sveit vor hýra brún
mót hádags röðuls brosi þýðu
og skreytt með júní skarti fríðu.
Því gesta fylking fagnar hún.
Að fóstur börn hún íslenzk eigi,
sé öllum ljóst á þessum degi.
Þau tala íslenzkt móður mál.

Vér heilsum gesta hóp vorn á,
er heiman langt á fund vorn sækir
og móðurlands vors minning rækir.
Sem flesta okkur fýsti sjá.
Þér menn og brúðir, bræður, systur,
hvert barn, hver Íslands þjóðar kvistur
hér veri með oss velkominn.

Vér heilsum fríða flokknum þeim,
sem fylgir merki söngva dísar,
og vorum hug til hæða vísar
frá döprum jarðlífs drunga geim.
Kom heill vor gesta hópur glaður.
Kom heill þú skáld, þú ræðu maður
og hver, sem lagin íþrótt er.

Þið kannizt ykkar ættland við
og okkar hóp þið fylla viljið.
Þið hlýan bróður hug ei dyljið
með okkur glöðum gleðjist þið.
Hin sterka alvalds stjórnar höndin
vor styrki þjóðar félags böndin
og leiði ykkur heila heim.

---

## Til Argylebúa.

Undir nafni bræðranna Þorsteins Jónssonar og Kristjáns Jónssonar frá Norður-Dakota.

---

Glatt er heim komnum
að heilu öllu
fagnandi vinum
fé og löndum.
Gott er heim komnum
hug að renna
yfir frjálsa ferð
um fjarlæga byggð.

Fögur leizt oss Argyle
hin frjólenda,
auðvænir akrar
og iðju merki.
Þó var hug vorum
hrifameiri
mannúð og drenglund,
er oss mætti þar.

Glatt var oss að hitta
heila vini,
móður hjartkæra,
mága og systur,

þar sem ættræknin
ástúðlega
blómgaði minning
bernsku vorrar.

Þó var á hug vorn
ei hrifa minni
fjarskyldra landa
faðmur opinn,
faðmur gestrisni
guðborinnar,
faðmur frjálslyndis
og fagrar vonir.

Glatt var oss að sitja
við gleðiræður,
veitingum hresstir
í vina húsum.
Glatt var oss að renna
reið um brautir,
er fjörmóðgir fákar
flughart knúðu.

Því er oss hugljúft
og hjartafólgið
kærum gestvinum
kveðju að senda,

kveðju þakklætis
og þeirra óska,
er í brjósti manns
beztar vaka.

Blessun sé og ársæld
í bygð yðvarri
og frjálslynd eining
í félagsskap hverjum,
Minning ykkar nýt
og niðjar yðrir
lifi og blómgist
meðan lönd eru bygð.

---

## Á ferð í Norður-Dakota.

Hér við standa fýsn eg fæ,
finnst mér vandi linna.
til mín andar blíðum blæ
bygðin landa minna.

Nú hressist minn andi, þótt hljóður sé oft
nú hefi' eg þá ánægju stund,
að anda hér til mín það lífgandi loft
og líta þá nafnkunnu grund,

sem byggir hin víðfræga þreklynda þjóð,
sem þekkti hvað réttur sinn var,
sem varanlegt sjálfstæðis vígi sér hlóð
og viðjar af þrælunum skar.

Og ljúft er að horfa um hásumar skeið
of héraðið bújörðum sett,
um blómtjölduð skógargöng liggur vor
leið
og ljómandi hveitihaf slétt,
og veggþéttir kornstanga bakkar með
braut,
þars brunar fram gæðingur fús,
og brosandi skóggyðjan búin í skraut
hér breiðir sinn faðm kring um hús.

En bezta sú hressingin anda míns er,
mitt íslenzka hreyfði sig blóð,
þá mönnum og konum eg mæta fór hér,
sem minnar er ættjarðar þjóð.
Eg fagna að sjá þeirra frjólendu byggð
því framgjarna lýðveldi í
og göfuga íslenzka gestrisnis dyggð,
sem grær hér svo frjálsleg og hlý.

Þótt torsótt mér væri á fornvina fund,
það fellur í gleymskunnar sjó.

Nú hressir mig gleðinnar heiðbjarta stund
og hennar eg neyti í ró.
Sú ljúfasta hjarta míns óskin það er,
sem orðum eg blómgað ei fæ,
að friður og blessun í faðmlögum hér
und fánanum stirnda sé æ.

---

KVEÐJUORÐ

## Til séra Jóns J. Clemens

undir nafni „bandalagsins."

---

Hið dapra haust um fold nú fer
og fölnuð hnípa blómin veik,
en söngfugl burtu svifinn er
og sölnuð blöð á styrkri eik.

Eins breytir svip vort „bandalag",
sem blómgast hefir nokkra stund,
nú sér það brugðið sínum hag,
vér söknum trés úr veikum lund.

Því skjóltré vort með skemmtiblóm,
vorn skjöld með fróðleiks rúna skraut,

og svaninn vorn með söngva hljóm,
vér sjáum hverfa langt á braut.

Vort félags merki fellur látt,
við finnum, okkur skortir dug,
við lítum yfir liðið fátt,
en látum þó ei fallast hug.

Þú vinur kær, sem börnin barst
við brjóstið þitt á trúrri mund,
þú skjóltré vort og skjöldur varst,
að skilja nú er döpur stund.

Þú leiddir okkur ljóss á braut,
þú lyftir veikri unglings sál,
þú styrktir okkar þol í þraut
og þrek, að varast heimsins tál.

Til gæfu hvert þitt stefni stig,
þig styðji alvalds höndin trú,
með hjörtu klökk vér kveðjum þig.
Vors kæra félags minnist þú.

---

# Til leikenda Skuggasveins

á Skjaldbreið.

---

Þá norðvestan hávetrar næðingur gól
með nákulda tónfalli sínu
og geisli sást enginn af glaðværðar sól
í geðsmuna úthýsi mínu,
úr suðvestri lagði þar ljósgeisla inn
frá leikflokknum drenglyndis prúða,
er íþrótta fimleika sýndi mér sinn
í svipkunnum ættjarðar skrúða.

Eg ólundar grástakknum fleygði mér frá
og fetin til Skjaldbreiðar greiddi,
vorn heimalda skáldleik að heyra og sjá.
Það hug minn til ættjarðar leiddi.
Eg sá þar vor hvassbrýndu fósturlands fjöll
með flughamra skútana grettu
og íslenzkrar þjóðtrúar örlaga föll
með einkennis drættina réttu.

Eg flyt ykkur þakkir af hlýasta hug,
þið höfuð upp gleðinnar merki,
og fylgduð því örugg með framkvæmdar
dug
og fimleik í orði, sem verki.

Eg óska þið skemmtið, sem oftast
og bezt,
með íþrótt og fjörugu geði,
og nýkomna sumarið færi, sem flest,
til farsældar ykkur og gleði.

---

## II.

## BRUÐKAUPSKVÆÐI OG AFMÆLISKVÆÐI.

---

### Þ. Pétursson og S. Friðbjarnardóttir.

og

### B. Þorgrímsson og H. Þórarinsdóttir.

---

Þótt nú færist fjólu reitir
frosthjúp vetrar í,
samfund manna margt hér skreytir,
myndast glaðvært hlý.
Hvar, sem manns og meyar hjarta
munar stjarnan vermir bjarta,
vetrar napur norðan andi
nær ei þar að landi.

Gleðin varpar vorblæ nýum
vort á bræðralag.
Ástar böndum hafa hlýum
hjörtu tengst í dag.

Þar sem faðir samgleðst syni,
sonur föður, vinur vini,
vetrar napur norðanandi
nær ei þar að landi.

Margt þótt flug vors hugar hneigi
huldri framtíð að,
sjást þar blóm á víðum vegi,
vonar sjón er það.
Þessi himnesk hugsjón blíða
herðir kjark og þol að stríða,
heims þótt napur norðanandi
nöktum hampi brandi.

Oft þótt veikbyggð von og kvíði
voru hjarta í
lífs á öldustöðvum stríði,
stjórn er villt á því.
Hafi skipið atker eigi,
ýmsar líkur til eg segi,
fyrir hrönn og hræsvelgs grandi
hrekist það og strandi.

Hér mun bjart á vonar vegi,
valið strikið rétt,
hér mun vanta atker eigi,

eins mun grunnið þétt,
hér mun þrek við strangt að stríða,
stilltur hugur góðs að bíða,
hér mun þreya hógvær andi
höfn á friðar landi.

Kæru brúðhjón, völdu vinir,
vörmu hjarta frá
frændur ykkar, eins vér hinir,
óskir beztu tjá.
Ykkar kærleiks eining styðji,
ykkur heillabrautir ryðji
farsæld með í frjálsu landi
fullkomleikans andi.

---

## Stefán Guðmundsson og G. Jónasardóttir.

Á voru gamla fróni frera
þá feldi vetrar klædd er grund,
það tel eg fallið vel til vera
að vinir sæki gleðifund,

því leiðindanna léttir byrði
að líta glaðan beim og snót,
og gleðin manns er mikils virði
af mjúkri sprottin kærleiks rót.

Og hér má sjá um hæstan vetur,
að hlýtt er vina brjóstum í.
Hin blíða ást þar blómgast getur
og bundist tryggða eining ný.
Það votta brúðhjón glöð í geði,
þau góðvinanna kvöddu hóp,
að taka hlut í helgri gleði,
er hjörtum þeirra ástin skóp.

Þið kæru brúðhjón blessun hljótið,
sem bezt vor hugur skynja má,
þið ungu stríðsmenn styrkleiks njótið,
er streymir alvalds krafti frá
með framsýnd ráð og frjálsan anda
í friðar eining lífs á braut,
hin mörgu skyldu verk að vanda
og vinna hverja mótgangs þraut.

Svo leggið fram á leið ókunna
og leiðizt vel í geði hraust,
og fylgd sé vonar fögur sunna

og farar efnin drottins traust.
Þá mun skortur engin efna
á ykkar vegferð gjöra stanz
og þið að farsæld þeirri stefna,
sem þráir framast andi manns.

---

## J. Kristjánsson og G. Þorteinsdóttir.

Ei fölna blóm í bjarga skorum,
þótt blási svalt úr hverri átt.
Ei færast björg úr fornum sporum,
þótt fellibyljir láti hátt.
Ei týnist ást hins trygga hjarta
við tímans storma nöldur kalt.
Hún þekkir vonar veginn bjarta,
hún vermir, styrkir, lífgar allt.

Nú fagnar aldni Aðaldalur,
því einn af fremstu niðjum hans
hinn búráðslingi hagleiks halur,
sem hyllir mennt og framför manns,

Í dag var egta bundinn brúði,
sem búin sömu kostum er,
og kærleiksblómum beggja hlúði
svo bjargföst tryggð, sem kjósum vér.

Og gestir þeirra glöðum huga
á góðri stund því una hér
og biðja heill og blessun duga
að bera þau á höndum sér.
Vér biðjum gæða höfund hæstan
þann höfund milda kærleikans
að standa þeim í stríði næstan,
því stríð og sigur frægð er manns.

Á meðan aldni Aðaldalur
af Íslands niðjum byggður er,
á meðan gróði fróns er falur
og fljótið straum til Ránar ber,
á meðan bárur sand við syngja
og svellin þíðir fagrahvel,
á meðan Hraunkot klettar kringja,
hér kynsmenn þeirra búi vel.

Þið kæru brúðhjón lifið lengi,
svo lukku óskir vorar tjá
með eining frið og frelsis gengi,
sem farsæld æðstu veita má,

vort sveitar félag heill þá hljóti,
að hér til elli búið þið.
Vor ættjörð þess og niðjar njóti,
og nöfnum ykkar haldi við.

---

## Þorsteinn Stefánsson og Ólína Jóhannsdóttir.

Eftir dauft og válegt vor
vaknar líf um síðir,
bilað styrkist bænda þor,
blómgast rós og víðir.
Laufin víði laga krans,—
litum foldin breytir,—
rós í skjóli róta hans
rjóðrin fögur skreytir.

Ástin blíð hjá þeim og drós
blómguð hljótt á vetri
algjör kemur oft í ljós
árs við tímann betri.
Það vér sjáum þennan dag,
því skal ólund hrinda.

Astar sælu samfélag
sveinn og meya binda.

Hér að vænum víði stáls
vafin skarti fínu
indæl rósin boða báls
brjósti hallar sínu.
Víst má telja sælu sjón
sorgar dals á vegi
brúðkaups gleði blómguð hjón
beygð af raunum eigi.

Vonar sól þau vermi heið,
veg sem flestan ryður.
Yfir þeirra lífsdags leið
lýsi himins friður.
Gegn um villu hættan heim
hverja þraut sem reyna
verndar englar veri þeim
von og ástin hreina.

Því skal helga þennan dag
þeirra ástar gleði.
Nú skal vorra ljóða lag
lýsa hressu geði.
Okkar hlýa hjartans mál
heilla ósk þeim kveður,

því skal drukkin þeirra skál
þökk og virðing meður.

---

## Daníel Jónsson og Katrín Arngrímsdóttir

á sumardag fyrsta.

Nú vakna blóm af vetrar dái,
nú vermir gleðin hjarta manns,
nú hljómar sunnu salur blái
við söng og dans.
Því frelsis raddir fugla vitna,
að föl sé horfin vetrar mynd,
og harðir klakaðir hlekkir slitna
af hverri lind.

Og hér má sumar fögnuð finna
í frelsis blæ á góðri stund,
hér njóta vinir vina sinna
með varmri lund.
Í dag er sumar sól upp runnin
er sendir varma lands um byggð

Í dag er helgur eiður unninn
    að ást og tryggð.

Sú ást á rót í hreinum hjörtum
eg hygg að enginn neiti því,
hún fylgir vonar ferli björtum
    svo frjáls og hlý,
hún býr í hjörtum brúðhjónanna,
hið blíða viðmót sýnir það,
því gleðst hér með þeim grúi manna
    á góðum stað.

Þau veita oss af glöðu geði
og gjöfum sjálf þau skiptust við,
á hátíðlegan hátt það skeði
    að helgum sið.
Hver sumargjöf mun skærra skarta
og skipulegar tilreidd sjást?
Því hvert gaf öðru hönd og hjarta
    með hreinni ást.

Og þessi dagur vel er valinn,
að votta fögnuð kærleikans,
hér brosir Freya sjálf um salinn
    við söng og dans.
Því, góðir vinir, gleðjum sinn,

til Gimils hallar lyftum sál,
því ung[illegible] hjónum helgað minni
er hellt á skál.

---

## Halldór Jónsson og H. Bjarnadóttir.

og

## Stefán Kristjánsson og Matthildur Halldórsdóttir.

---

Það sést í dag á vorri byggð svo vel,
að vorið á nú samkvæmt tímans lögum
sitt forna stríð við frost og vetrar él,
en færist nær þeim blíðu sumar dögum.

Það sést í dag að frelsi, von og fjör
í forna Íslands niðja streymir æðum.
Hér blómgast gleði bros á hverri vör,
um bjarta framtíð hreyft er snjöllum ræðum.

Það sést í dag hve búleg byggð vor er
að beimum, snótum, fákum, ökugögnum,
þess mikinn hluta má nú skoða hér.
Vér meira venju þessum degi fögnum.

Það sést í dag að dýrmæt ástar blóm
í dyggum hjörtum fengið hafa rætur,
þau fölna ei við djarfan vetrar dóm
við dapurt haust né myrkar hélu nætur.

Það er í dag, þá okkar landar tveir
við ungar brúðir hjóna skilmál bundu,
að vina hóp sinn hingað kvöddu þeir.
Svo helgum ást og gleði þessa stundu.

Og sjálfstæð lífskjör sér þeir hafa tryggt,
þeir sjá þann ávöxt nýtrar iðju sinnar
og hús sitt hvor á bjargi hefir byggt,—
á blessun guðs og ráðdeild skynseminnar.

Vor fagnar byggð að brúðhjón slík hún á
er bænda stöðu prýða jafnt og styðja.
Þeim hlýar óskir hjörtu okkar tjá
og heilla þeim á alla vegu biðja.

Vér felum þeirra framtíð guðs í hönd,
þeim færi nýa blessun sérhver dagur,
þeim blessist niðjar, búfé, hús og lönd,
þeim brosi sælu vonar geisli fagur.

* * *

Góðs má af drenglund
dáðríkri vænta.

Frjálslyndur bóndi
félags er líf.
Heiðvirð er kona
húsprýði sönnust
blíðlynd og hagsýn
bústjórnar til.

Velkominn Halldór
Hólmfríði meður
Stefán og Matthildur
stöðu þá í.
Hag ykkar krýni
hamingju blómum,
friði og kærleik
forsjónar hönd.

---

## B. Jósepsson og G. Helgadóttir.

Á breytinga hveli er lífs okkar leið,
þá logn er og sólskin hún virðist oss greið,
ef élja ský dregur að sólunni svalt,
er sorglegt og dapurt á veginum allt.

Og gott er að eiga sér góðvin á braut,
sem gleður sig með oss og léttir oss þraut,
og sorgleg er breyting að sviftast þeim vin,
er sorgarnótt breytist í gleðidags skin.

Að skinið og myrkvarnir skiptist hér á,
oss skaparinn alvaldi hagkvæmast sá,
að finna og tapa og finna á ný,
það fræðir oss lífsreynslu skólanum í.

Vér fögnum því, vinur, þitt harmaél hart
er horfið og aftur á leið þinni bjart.
Þér ástvinur mætti á óvæntri stund,
sem einstæðum rétti þér hjálpfúsa mund.

Nú áttu þann förunaut lífsdags á leið,
sem lýsir með kærleik þitt ófarna skeið.
Nú leiðir þú blómlega brúði við arm,
sem blómkrans þér hnýtir og sigrar þinn harm.

Ać leiðizt þið farsæl um lífdaga braut,
að lifið þið ánægð í gleði og þraut,
að blómgizt þið drottins við blessun og frið
er bænin, sem einhuga fram berum við.

———

## Stefán Sigurðsson og Auðbjörg Pétursdóttir

á sumardag fyrsta.

---

Í gær tók hann vetur sinn gandreiðar staf,
því glöggt veit hann árstíða skipti,
hann stefndi beint norður í heimskauta haf
og hattinum brosandi lyfti.

Hann dvaldi, sem vinur, svo vægur oss hjá,
að vér þurftum ekkert að kvarta,
hann kom til vor léttbrýnn og fór okkur frá
með friðskjöldinn góðviðris bjarta.

Í morgun úr suðri kom sumarið hlýtt
í sólvagni gullnum það keyrði,
sem krónuð meydrottning brosandi blítt
og bergmál af kvennrödd eg heyrði:

,,Eg kem til að reka burt hretviðrin hörð
og hjálpa þér starfandi maður,
eg kem til að lífga allt lífið á jörð,
svo lifir þú farsæll og glaður.

Já, öllum eg búa vil blessunar hag
af blíðviðris örlæti mínu,

...nn fagnaðar blómkrans þau fá, sem í dag
mér fagna með brúðkaupi sínu.“

Svo ómaði röddin og vel það eg veit
í vonirnar hiklaust þið getið,
að hlutdeild í þessu mun hafa vor sveit,
því hér er að brúðkaupi setið.

Og þau, sem hér knýttu sín kærleikans bönd
og kröftugum eiði það festu,
þau gáfu hvert öðru sitt hjarta og hönd.
Það hyggjum vér sumargjöf beztu.

Vér sumrinu fögnum og samgleðjumst þeim
og sérhver hér viðstaddur biður,
... braut þeirra allri um breytinga heim
... blessun og hagsæld og friður.

Vér, óskum að farsælist allt þeirra ráð
...ð ánægju vorsól í heiði,
... stjórnarinn alheims með styrk sinn og náð
þ... Stefán og Auðbjörgu leiði.

———

## Kristján Jónsson og Lára Skúladóttir.

---

Hver er hinn sterki okkur hjá,
sem anda vorn til félags hvetur
og hérað vort í hreyfing setur,
þess merki gjörla menn hér sjá.
Hér finnast ástmenn, frændur, vinir
og fáir munu vera hinir,
sem hrífur ei það heljar afl.

Hann tengir vina hjörtun hlý,
án hans fær lífið staðizt eigi.
hann lýsir dimma lífsins vegi
og hann er mestur heimi í,
sá himinborni helgi kraftur
í hjarta manns af guði skaptur
er það, sem kærleik köllum vér.

Hann tengir manna hug og hönd
og hjartans slær á innstu strengi
við harma raun og gleði gengi
og festir helgust félags bönd.
Og þessi góði gleði dagur
er geisli kærleiks röðulfagur.
Því fagnar samlynd sveit vor öll.

Og þið, sem kraftur kærleikans
nú kallar lífs í helga stöðu,
þið lítið framtíð geði glöðu
með bjartan vonar blóma krans.
hér gleðst með ykkur gesta fjöl i
á gróðri skreyttu sumar kvöldi.
En kærleiks blómin krýna allt.

Þau blóm ei snerti hret né haust
í hjörtum ykkar frjó þau standi,
þeim engin vetrar voði grandi,
þeim veri drottinn vígi traust.
Já, allir hér af hlýum anda
með hönd og tungu ósk þá vanda:
Guð blessi ykkur brúðhjón kær!

---

## Halldór Jónsson og Guðný Skúladóttir.

Á blómlegu búanda setri,
þars bróðurást hjartfólgin grær
á heiðbjörtum hrímsvölum vetri,
er hlýasti glaðværðar blær,

því hér skemmtir boðsgesta hópur sér inni
við Halldórs og Guðnýar brúðhjóna minni.

Allt ljósanna ljómi hér skreytir
og ljúft rennur gleðinnar hjól
það, beztan sem varma þó veitir,
er vonar og kærleikans sól,
hún léttir upp anda vors langnætti þungu,
hún ljómar í brúðhjóna hjörtunum ungu.

og æ mun hún leið þeirra lýsa
um lífdaga ókunna braut
og beztu á verjur þeim vísa,
svo vinni þau sérhverja þraut.
En friður og blessun frá himnanna hæðum
mun hag þeirra blómga og auðga þau gæðum.

Já blessun og hagsæld þau hljóti
við happasælt lífdaga stríð,
þess byggð vor og bændastétt njóti
um blómlega ókomna tíð.
Sú hlýasta óskin vors hjarta er þessi:
þau Halldór og Guðnýu alvaldur blessi.

---

## Hjörtur Jósepsson og Guðný Pétursdóttir.

---

Fyrst enn var mér gefin sú ánægju stund
til ykkar að sækja á góðvina fund,
sem oft hafið lífgað minn anda,
eg vil ekki hnípinn og svipdaufur sjást,
því systurnar indælu *gleði* og *ást*
við hlið mér með hlýbrosi standa.

Á svip þeirra skammdegis skugga ei ber,
nú skipa þær öndvegið sjálfboðnar hér
og brúðhjóna boðsgestum fagna.
Á öllum sitt merki þær óska að sjá.
Þær órækar sannanir fyrir því tjá,
að sízt megi söngharpan þagna.

Því skulum vér syngja og laga þau ljóð,
sem lífga vorn anda og hreyfa vort blóð
og rýmka um ræðumanns tungu,
á góðvina fundi svo glatt sé í kvöld,
því guðbornu systurnar eiga hér völd
í brúðhjóna brjóstunum ungu.

Þau vita að mörg er á veginum þraut,
en vonglöð þau horfa á framtíðar braut.
Þess einhuga allir hér biðji

að Hjartar og Guðnýar lífdaga leið
til lukku og blessunar verði þeim greið.
Þau alvaldur styrki og styðji.

———

## Þorkell Jónsson og Jónína Kristjánsdóttir.

Nú höfum vér efni að gleðja vort geð
á góðvina fundi í dag
Á viðmóti allra og svip verður séð,
að sumarið bætir vorn hag.
Nú starfar með fjöri allt lífið um láð
og lífs vonar merki sitt ber,
og náttúran lögvaldi himnesku háð
í hátíða skrúðanum er.

Og vel er í sannleika valin sú tíð,
er vorblómin nýþroskuð sjást,
að tendrist vor fegurðar tilfinning blíð
og tengi sig hjartnanna ást,
og aldrei eg göfugri gleðisjón leit
í glaumnum veraldar kífs,
en mannvænleg brúðhjón, sem binda sín heit
í blóma síns vonglaða lífs.

Hér býðst oss sá fögnuður brúðhjón að sjá,
sem blómanum lífs eru skreytt
með andlegu vorblómin innra sér hjá,
sem ástin sitt guðmagn fær veitt,
því framtíðar vonin á fegursta blóm,
er frjóvast við kærleikans yl,
þótt rýrni þau stundum við reynslunnar dóm,
rætast þau mörgum í vil.

Og þau, sem nú einhuga byrja þá braut,
sem blómunum vonar er stráð,
þau vita, að mörg er á veginum þraut
og vita, hver bezt gefur ráð.
Að blessunar óskir hér allir þeim tjá,
það er ekki tilgáta nein,
og andvörpin hjörtunum ástvina frá,
þau eru svo kröftug og hrein.

Því samfagnar byggð vor með blómkrönsum skreytt,
að brúðhjón svo vænleg hún á,
hún sýnir þeim gróðann, sem getur hún veitt
og glæðir þeim lífsvonir hjá.
Mitt sterkasta orð er að biðja sem bezt,
að blessi þau guðdómsins náð,
að öll þeirra von sé við forsjá hans fest,
svo farsælist allt þeirra ráð.

## Þórarinn Finnbogason og Guðrún Jósepsdóttir.

---

Þótt sé oss horfin sól að hæða baki
og sumar blómin lögð í vetrar dá,
þótt hrímköld Nótt um himinbrautir aki
og hauðrið varpi myrkva blæu á,
í þessum sal er ljósa dýrð að líta,
hér lifa gleði blóm á kærleiks rót.
og gesta hópar ferðum hingað flýta.
Þeim fagnað er með ljúfust vina hót.

Því öndvegs bekkinn brúðhjón ung hér
prýða,
þau buðu oss á glaðan vina fund,
og hingað kominn hópur byggðar lýða,
þeim heilla óskir flytur þessa stund.
Þeim óskar sérhvert ástríkt vinar hjarta,
að auðgist blessun þeirra kærleiks band,
að guð þau leiði gæfu veginn bjarta
til gagns og sóma fyrir þjóð og land.

---

## Jóhannes Sigurðsson og G. S. Guðmundsdóttir.

---

Allt prýðir og lífgar hið vonhýra vor,
því Vindsvals er erfingi hniginn,
en náttúran fjölskreytt sín frjóunar spor
í fegurðar hásæti stigin.

Og hvert, sem vér lítum, er lífshreyfing ný,
sem laðar til gleði vorn anda,
og blómjurtir kærleikans brjóstunum í
með blöðum og knöppum hér standa.

Á góðvina samkvæmið geislum hér slær,
er gleðin og kærleikur valda,
sín ástarheit bundu hér maður og mær
og mikils er vert þau að halda.

Því kærleiksríkt samlíf er sæla vor mest,
er sigur í þrautum oss gefur,
hið gagnstæða aftur að bíða þess brest,
það böl allt í för með sér hefur.

Því biðjum vér kærleikans höfund svo
heitt,
sem hjartað og tungan má inna,

að hamingju blómum sé braut þeirra
skreytt,
og blessist þeim áform og vinna.

Eg fremst þó af öllum hinn alvalda bið,
þeim andlegan styrkleik að senda,
að lýsa þeim veginn og færa þeim frið
í friðarins höfnum að lenda.

---

## Pétur Erlendsson og Kristín Jónsdóttir.

Hún er sviphýr vor sveit, því með sól-
vörmum blæ
okkur sumarið kvaddi svo blítt,
og þótt bleikklædd sé fold, er hún brosljúf
og þýð
og í brjóstunum manna er hlýtt.

Því þau ódáins blóm, sem þar eiga sér rót,
finna árstíða skipti ei nein.
Þeirra kraftmest og æðst teljum kærleik-
ans blóm
og þess knappar er(u) lífsgleði hrein.

Því er glatt hér í kvöld, hér er gleðin svo
frjáls,
hún á griðastað markaðan hér.
Hér er vinaboð ljúft, hér er veitinga nægt,
allt hér vitni um kærleika ber.

Það er kærleikans afl, sem hér knýtti það
band,
sem er kraftmest og helgast á jörð.
Það er hjónaást sönn, sem í hjörtunum grær
og af höfundi kærleikans gjörð.

Því er broshýr vor sveit, hún á brúðhjón
í dag,
þeirra blómlegt er lífdaga vor,
þeirra ástarblóm hrein vermi ánægju sól,
blessi alvaldur hvert þeirra spor.

---

## Björn Andrésson og Kristín Björnsdóttir.

---

I.

Fögur og frjó er vor byggð,—
framtíðar vonin oss gleður,—

blómauðgan breiðir hún faðm,
búin í hásumar skraut.

Vonglaðir vinir hér sjást
völdum á fagnaðar degi,
broshýran gjörir hvern gest
gleðin í öndvegi sett.

Boðnir að brúðkaupi vér
Birni og Kristíni fögnum.
Kvongaðra hölda í hóp
heimtum vér nýtasta dreng.

Ungur frá ættjörð hann fór
ættfeðra vorra að dæmi
frama að leita og fjár,
fýsti hann vestur um haf.

Hafs yfir hyldýpið blátt
hollvættir Íslands hann leiddu
hingað á hagfelldan stað,
hér er hann landnemi frjáls.

Vann hann á vötnum og braut,
vann hann í skógi og bæum,
aldrei fékk óregla nein
unnið vorn þreklynda Björn.

Sjáið nú heimili hans
húsin og akrana frjóa,
allt vitnar eigandans þar
útsjón og starfsama hönd.

Konu ei kaus hann sér fyr,
en kjör henni sjálfstæð fékk boðið,
gæti hans atferli að
ungir og framgjarnir menn.

Nú prýðir heimili hans
heiðvirð og ástúðieg kona,
bú þeirra blessunar ríkt
byggð vora prýði, sem lengst.

Langa um lífdaga braut
leiðist þau farsæl og blessuð
alvalds af ástríkri hönd,
óskar þess boðsmanna hver.

II.

Að spyrja voru vífin gjörn:—
nú vil eg á það minna,—
,,Skal engin vinna' hinn væna Björn,
er virðist engri sinna?
Þá bezt vér skreytum búninginn
og brosum hans á vegi,

hann glottir kalt í kampinn sinn,
en kemur nær oss eigi.

Hann Björn er fær um bú að sjá,
hann broshýr gæfan styður,
hann ræktar hveitið ökrum á,
en ástar blómin miður."
Svo mæltu vífin hjartahlý
af hugar gleði beinni,
en gætið auga gáfu því,
hvort gætti' ei Björn að neinni.

Og þögn á fljóða flokkinn sló,
er fregn sú heyrðist spunnin,
sem vart þær trúa vildu þó,
að væri björninn unninn.
Nú kom hann fram á sjónar svið,
það sönnun fulla gefur,
með unga brúði arm sinn við,
sem unnið björninn hefur.

Um sókn og vörn er sízt að tjá,
en samdi þannig báðum,
að fylgjast lífsins ferli á
með forsjón guðs og ráðum.
Hér gekk hún Kristín gæfu spor,
svo get eg margur ræði,

það horfa mun—er hyggja vor—
til heilla fyrir bæði.

Nú gleðst hér þeirra vina val,
menn vekja skemmtiræður,
og allir skipast einn í sal,
sem ástmenn, systur. bræður
og allir biðja eina bæn
þann eina drottinn hæða:
Hann blessi okkar brúðhjón væn
með blessun æðstu gæða.

---

## Hernit Kristófersson og Björg Jónsdóttir.

Skáldið orkti þessar vísur á brúðkaupsdegi þeirra, en komst eigi í veizluna sökum annríkis.

---

Þá eg vina fer á fund
frjáls af þungri anna byrði
hýrnar brún og léttist lund
lífið finnst mér nokkurs virði,
heiðan glórir himin í
heimsins gegn um þoku ský.

Víst á betur við mitt geð
vini glöðum með að kætast,
en að hryggjast hrelldum með,
harmar lítið við það bætast,
böls þó léttir byrði manns
bróður hluttekt vina hans.

Eftir dimmri skúr fer skin,
skipti þau vér hagkvæm teljum.
Þessa stund með vorum vin
vér í anda glaðir dveljum.
Nýan ástvin hans við hönd
heilög tengja kærleiks bönd.

Kæri tryggðavinur vor,
vin þú nýan okkur gefur,
signi gæfan sjálf það spor,
sem í dag þú gengið hef*u*r.
Heiðan sér nú himin í,
harma þinna gegn um ský.

Sú er ósk vor hjartans hlý,
heill sé þér með brúði þinni,
hús þitt blómgi blessun ný,
börn þín nýa móður finni, —
móður hjarta, móður hönd,
móður ástar skyldu bönd.

Hörð þótt önn mér aftri frá
ykkar brúðkaups gestur vera,
ykkur dvelst minn hugur hjá,
heilla óskir fram að bera.
Æfibraut sé ykkar stráð
alvalds blessun, friði, náð.

---

## Kristján Benidiktsson

á Grenjaðarstað.—Orkt undir nafni stúlku.
(Afmæliskvæði.)

---

Geislum dreifir dýrðleg sunna
dags á morgun stund,
skreytir fyrstar skarir fjalla,
skreytir hlíð og grund.
Blóm úr daggar laug sér lyfta,
litum prýðist jörð.
Margraddaðan lofsöng ljóðar
lífsglöð fugla hjörð.

Þan..ig fögnuð sumarsælu
sérhvert vottar líf.
Ellin gleðst og æskan fjörgast,
yngjast menn og víf.

En á þessum stað og stundu
stærst er gleðin ein.
Allir heilla óskum kveðja
elskuverðan svein.

Allir vanda, ungi vinur,
ósk til heilla þér,
þriðja ársleið þinnar æfi
því nú byrjuð er.
Ástar fögnuð foreldranna
fá ei orð vor greint,
guð einn heyrir hann, og skilur
hjartans málið leynt.

Vina þinna eflaust allra
ósk mun það og von,
fósturjörð vor í þér eignist
ástartraustan son.
Mannást, sannleik, frið og frelsi
framast elska þú,
þá er leið til frægðar farin
finnst hin rétta sú.

Heill og blessun, Kristján kæri,
krýnist allt þitt líf.
Vertu barn að hreinleik hjartans
heims við lán og kíf.

Heim að friðar landi lýsi
ljósið sannleiks þér
yfir tímans hafið hætta,
höfn þars tryggust er.

---

## Regina Benidiktsdóttir.

Þú drottins akurfjólan fríð
með frelsishýra brá,
svo elsku verð og yndisblíð,
sem óskir framast tjá.

Þig tekur hver í faðm sinn fús,
oss fagna bros þín æ.
Þú foreldranna fyllir hús
með frjálsum yndis blæ.

Og nýan fögnuð finnum vér,
sem fjörgar vonin blíð,
því fyrsta liðið ár nú er
af æfi þinnar tíð.

Sú hjartans löngun hlý er mín,
þér heilla óskir tjá.

Eg bið að æska blómgist þín
  með blessun drottni frá.

Hann verndi þinnar heilsu hag
  og hans þig laði raust,
þér standi nærri nótt og dag
  hans náðar varðhald traust.

Hvað þarft og fagurt meta má,
  og mey fær unga prýtt,
hvern dag og ár þér dafni hjá
  með dyggða viðmót hlýtt.

Á fullkomnunar bjartri braut,
  sem bannar villtan sið,
að vinna hverja vega þraut,
  þér veiti drottinn lið.

mín ljúfa vina líf þitt hér
  sé leið til æðra stanz,
hvar friðar sæla eilíf er,
  sem andi þráir manns.

---

## Rósa Sigurbjarnardóttir.

Nú helblikna rósir við svalkaldan svörð
því svöl hefir nætur kyljan andað,
þó unir hér rós, sem til æðra lífs er gjörð
og ekki hafa vetrar frostin grandað.

Þú blómfagra rósin með barnglaða lund
í blíðviðri æsku daga þinna,
hvað löng eða stutt, sem þér lífs er ætluð
stund
þig láti drottinn heill og blessun finna.

Hvert ár þitt og dagur sé ávinnings tíð
þann óhulta gæfu veg að finna.
Við andkulda heimsins, ef heya þarftu stríð,
þér hjálpi drottinn sigurhnoss að vinna.

---

## Guðný Sigurbjarnardóttir.

Þorri kve r, kulda veður
koss hans nefna má.
Hafísharkan grimma

hríðar elja dimma
röðuls byrgir brá.

Gleði dagur gafst þó fagur
Guðný litla þér,
af því árstíð nýa
æsku vorsins hlýa
til þín blítt hann ber.

Fyrst við harma hret óvarma
heims þú eygðir ból,
en þér guð algóður
gaf í staðinn móður
vandað vina skjól.

því til gleði þínu geði
þessi dagur er.
Laus við lífs umsorgun
léztu þennan morgun
alla hressast hér.

Ei þarf tvíla, allir stíla
ósk þá sömu leið,
að þig örmum vefji
og til sæmdar hefji
lukkan lífs um skeið.

Góðs til fýsi, leið þér lýsi
ljósið sannleiks bezt,
heims í hættu neti
hjarta þitt svo geti
freistni aldrei fest.

Gleði-fagur gæfu dagur
gefist lífið þér.
Dyggð þitt dagsverk skreyti,
drottinn loks þér veiti
sigurlaun hjá sér.

---

## Sigurlína Jósepsdóttir.

(Munaðarleysingi.)

Finnst að þú ert fáum kær
fátæk Sigurlína,
móðir þér og faðir fjær
fögnuð engan sýna.

Koma þín í heiminn hér
hylst nú gleymsku dvala,
öðrum týnist, eins og þér,
ára þinna tala.

Þegar fyrsta ferðu stig
fjörs á ári nýa
enginn gleðst, né gleður þig
gjöf eða' ósk með hlýa.

Munað svift þótt sértu barn,
sem að fáir hlynna,
himna faðir gæzkugjarn
gætir dag þinna.

Hans því fel eg fyrirsjá
fótspor þín að greiða.
Villu stigum heimsins hjá
hann þig láti sneiða.

Hreyfðu engum mál til meins
mundu guð að biðja,
vertu þakklát öllum eins,
er til góðs þig styðja.

Hvað, sem drífur á þín ár
alvalds traust þig hressi.
Fátækt, gróða, gleði tár
gæzka hans þér blessi.

Hann, sem börn í faðm sinn fús
forðum tók svo blíður,

síns í föður himnesk hús
hverja stund þér býður.

Hann ei sleppi hönd af þér
hvað, sem æfin treinist.
Fyr og síðar ósk mín er
að hans barn þú reynist.

---

## Til stúlkubarns.

Sem heiðbjartur röðull frá hádegis stað
sinn hlýgeisla nýsprottnu rósinni að
um sváslega sumartíð vefur,
svo foreldra ástríkis umhyggja blíð
þig ungmeya blómið um fyrstu árstíð
í friðsælu forsorgað hefur.

En hádegið líður og hafkælan oft
með hreggi og þoku sig færir á loft,
svo kraftveika blómið sig beygir.
Sá algóði faðir, sem færði þér líf,
þinn friðskjöldur veri og sakleysis hlíf,
svo barnarétt æðstan þú eigir.

---

## Í afmælisgildi Péturs Jónssonar.

Þú sem við byrjað æfi ár
upp tendrar gleði blys
og þau hin gullnu þrungna tár
þiggjendum berð á mis,
ósk mín er einungis,
líði þér vel í lífi bæði' og dauða.

---

## J. .S Bjarnarson.

Vel hefir drottinn verndað þig,
vit og þrek svo dafni,
fyrsta árs um ferða stig,
frændi minn og nafni.

Frjáls er svipur fjörleg brún
fremd og gagn að vinna,
dregin myrkra dylst oss rún
daga fleiri þinna.

Flestir játa hættan heim
hans og stigu breiða,

við erum *börn* á brautum þeim
*börn vor* rétt að leiða.

Ei kann lamb við úlfum sjá.
Æskan gætni fargar.
Villu stig oss veiða á
villu raddir margar.

Einn oss leiðsögn ljósa gaf
látt af heimi settur.
Þar, ef bregðum ekki af,
er vor ferill réttur.

Það er eitt, sem get eg gert,
guð vors lífs að biðja
fjörs um leiðar fótmál hvert,
frændi, þig að styðja.

Sjálfur villtan veit eg mig,
vil þér langt um betra.
Ljóssins faðir leiði þig
ljóss til höfuðsetra.

---

## Jósafat Jósepsson

3. janúar 1897.

---

Nú ertu glaður góðkunningi minn
og glaðan jafnan fjörs á braut eg sá þig.
Þér dansa bros um brún og vör og kinn,
sem barnið glaða sælan telja má þig.

Hin arma grýla *Ólund* flýr þig sneypt,
þín augun hýru, söng og dans hún fælist.
Þú henni oft af stóli hefir steypt,
hún stynur flöt, en þú um sigur hælist.

Já, margan dreng og freyu geisla flóðs
úr fangaklefa hennar út þú leystir.
Þér kært mun æ að koma fram til góðs,
og krafti sínum góður vilji treystir.

Þú gjörir mörgum glaðan skemmtifund
og góðra drengja hylli jafnan nýtur.
Þú hefir sjálfur hýra, glaða lund,
og hýru auga stúlkan mörg þig lítur.

Þú annt þeim góðs og ert til gleði þeim,
þótt engri þeirra sért að lögum háður.
Þú ánægður svo ert með þennan heim
og æ þinnar gengur braut sjálfráður.

Eg tala hér um hlið, sem að oss snýr,
því hitt er víst að enginn manna skilur,
hvað innst í fylgsnum annars hjarta býr,
hin ytri glaðværð sorgir löngum dylur.

En hvað um það mitt efni ljóða er,
þér óskir heilla, vinur minn, að þylja, —
að gleði lífsins gefist ómæld þér
og gleðin aldrei við þig nái' að skilja.

Og þetta ár, sem nú er öllum nýtt,
og nýtt á þinni æfidaga skeiði,
þér gefi drottinn glatt og bjart og hlýtt
og glaðan þig á vegi sínum leiði.

---

## Kristján Dalman.

Flutt á afmæli hans í samsæti, er hann hélt nokkrum vinum sínum.

---

Hér gefst oss hvöt að lífga lund
og létta vetrar drunga,
og til þess vel er valin stund,

að vinir sæki gleði fund,
svo liðkist tregmál tunga.

Þitt býli Kristján blómlegt er,
þótt breidd sé mjöll á grundir,
því frelsis vorblóm frjóast hér
og fleira þar um vitni ber,
að styttar verði stundir.

Þú komst hér frjáls á frjálsa storð,
úr faðmi Íslands dala,
þig fýstu vestræn frelsis orð
við frjóseminnar nægta borð
þinn aldur hér að ala,

Þú manst vort kæra klaka láð
og kennir þig við *dali*.
þú hrauðst þér veg með hug og dáð,
en hugðir jafnt á skynsöm ráð,
að villast ei í vali.

Nú harma él þótt hafi skyggt
á himin þinnar gleði,
þú átt þér vonar vígi tryggt
á vissu þeirrar grunni byggt,
að guð til góðs því réði.

Það gleði ljós, sem glatt hér skín,
oss gefur dagur þessi,
sem greinir æfi árin þín.
Sú ósk er vorra hjartna brýn,
hvern dag þig drottinn blessi.

Já, þig og allt, sem áttu kært,
þinn ástvin hvern og býli
hans friðar armur faðmi vært
af frjóum lífsins krafti nært,
hans skjöldur æ því skýli.

Vor Dalman kær, þitt blómgist bú,
vor byggð þín lengi njóti
og gestur hver, sem gladdir þú,
af góðum hug þess óskar nú,
að hús þitt blessun hljóti.

— — —

## Benidikt Björnsson

undir nafni dóttur skáldsins.

— —

Ungi vinur allra, sem
af þér hafa kynni,
hug með glaðan hér eg kem
heill að fagna þinni.

Æsku gleði eygló heið
um þig geislum vefur,
þriggja ára æfi leið,
er þú lokið hefur.

Hýr er svipur lundin létt
liðug hreyfing tungu.
Margan fjörgan fara sprett
fætur þínir ungu.

Gott er skjóli eika í
ungum kvisti' að standa,
foreldranna forsjá hlý
fátt þér lætur granda.

Og í skjóli þeirra því,—
þarf ei neinn að efa,—
æsku vordags veðrin hlý
vöxt og kjark þér gefa.

Sá, sem ungur átti bátt
oft þess hlaut að gjalda.
Veikir sálar þroska þrátt
þrauta vorið kalda.

Betri kostur boðinn er
bernsku þinnar högum,

glöð eg fagna því með þér
þínum æsku dögum.

Engar gjafir á eg til
ungum vini' að bjóða,
en þér gjarnan óska vil
alls hins sanna góða.

Hugar boð og ósk mín er,
ekkert von þá skerðir,
þjóð og ættbálk þínum hér
þú til sóma verðir.

Ljósið allra ljósa frá
lífsuppsprettu hæðum
veg þér réttan vísi á, —
veg að sönnum gæðum.

---

## Til Sigurveigar

dóttur skáldsins.

Þú febrúar rósin mín fjörleg og björt
þig fölnaða hefir ei veturinn gjört,

þótt kalt sé þitt skýli, þú kvart ei
neitt,
af kærleik og gleði er brjóstið þitt
heitt.

Vor guð, sem um hávetur glæddi
þitt líf,
gæti þín jafnan og veri þér hlíf
við andkulda heimsins og afvega tál,
svo aldrei frá ljósinu villist þín sál.

III.

LJÓÐABRÉF.

---

## Bréf til Sv. Sveinungasonar.

Fyrst nú er frá mér blundi bægt
og brjóstið veika þungan stynur,
minn hugur til þín vendir, vinur,
og loftuggana hreyfir hægt
Á svefnbeð þinn hann sezt óleiminn,
þótt sé í frétta málum gleyminn,
og gelur til þín gamanljóð,
þótt gagnorð reynist ei né fróð.

En það er einfalt þakkar mál,
sem þér hann finnur skylt að bjóða,
þín vina hót og glaðværð góða
svo margoft hresstu mína sál,
að verki þegar sátum saman,
og sitt að hverju hentum gaman,

þá hraktist frá mér ólund oft,
því andinn tók sér frelsis loft.

Já, fyrir síðast þýða þökk
eg þér og fleirum vildi inna,
því indælt vini var að finna,
en skjótt dró yfir myrkra mökk,
þá sveif eg burt mót svalri gjólu
í svalan faðm á vetrar njólu,
sem vildi gjarnan villa mig,
og var svo dauðans hryllilig.

Eg beit á jaxl og flýtti för,
þótt fætur mínar Laxá bleytti,
þeim frostið klaka verjur veitti,
en heitt var blóð og brast ei fjör,
þótt víntár ekkert hug minn hressti,—
eg hafði ei grand af slíku nesti,—
um kvöldið feginn komst eg heim
og kælið endti myrkra sveim.

Og þreyttur strax eg datt í dúr,
en drauma ruglið man eg eigi,
og aldrei nokkrum sumt eg segi,
en minnis bók það brenni úr.
Mig dreymir úti' á loftsal löngum,

þar lít eg blóm á snóta vöngum,
og sé þig taka mynd af mér,
en man ei hvernig svip hún ber.

En áðan olundur að mér rann,
minn andi sveif þá draums í leyni
Eg þóttist nærri staddur steini,
sem Dvergastein eg kalla kann.
Þar kom út hönd, sem ljúft mig leiddi,
þá laukst upp hurð, en spor eg greiddi,
og heyrði inni manna mál,
að mæla þyrfti fyrir skál.

Eg sá að hér var stofa stór
úr steini byggð með gluggum fríðum,
hún stóð á blómstur velli víðum,
en gnægur var á borðum bjór.
Þar sátu gestir glaðir inni
og glatt þeir tóku kveðju minni,
eg þekkti víf og virða hér,
sem vina atlot sýndu mér.

Eg kenndi, vinur, þarna þig
og það mér veitti hugar kæti,
í salnum innst þú áttir sæti
og velkominn þú mæltir mig.

en hjá þér blómleg baugs var tróða,
með bjartan hadd og vanga rjóða,
sem himingyðja hýr og fín
og hér var eflaust brúður þín.

Þú helltir víni strax á staup
og staupið það var engin „pína",
eg tók það hægt í hendi mína
og bikarinn að botni saup.
En þú mig beiddir ljóð að laga
og láta þannig orðum haga,
að sungið yrði óðar mál,
þá ykkar væri drukkin skál.

Og svanhvít brúður sat þér hjá.
Mín sál var glöð af happi þínu.
Úr bragar forða búri mínu
hið fínasta eg fram bar þá.
Með stíl á blaði stefin festi,
í staupa legi málvopn hvessti.
Þá gekk mér vel að laga ljóð
og lukku ósk þar kröftug stóð.

Eg lét í hönd þér ljóða blað,
þú last og náðir öðrum rétta,
er sína hófu söngrödd létta
í dverga höll, svo hátt við kvað.

Þar heyrðust manna' og meya raddir,
því margir voru nærri staddir.
Eg hrökk af svefni söngs við glaum,
og svo er lokið mínum draum.

Nú dregur bráðum degi að,
og draumsins lengur nýt eg eigi.
Eg óska, rétt hann rætast megi
og vilji Freyu víst er það.
En þey, þey, dagsins geisli glaðist,
hið gamla ár nú frá oss læðist,
þá byrjar aftur annað nýtt,
því alda hjólið rennur títt.

Og nú er kátt á nýárs dag,
en nú skal hlýa ósk þér smíða.
að gæfu röðuls geisla blíða
æ leggi yfir lífs þíns hag.
Hin sanna gleði sól þér lýsi
og sanna frelsis braut þér vísi
að svalalindum sannleikans,
hvar sælu nýtur andi manns.

Já, þar mun vina fundur frjáls
og frá oss hrakið efa rökkur
og tvístrast villu myrkra mökkur
af geislum drottins dýrðar báls,

og mannlegt drambvit mun þá breytast
í magnlaust ryk, en styrkur veitast
þeim veika, sem með veikri trú
um veikleik andans kvartar nú.

Nú legg eg saman ljóða blað,
en lifðu sæll um tíð eilífa,
eg bið þér alvalds hönd að hlífa
og farsæld æðstu flytja að.
Á Mýri öllum heilsan hlýa
og heilla ósk við árið nýa
eg sendi blítt með bróður þel,
þar blessist allt og gangi vel.

---

## Bréf til J. S. Sigurjónsdóttur.

Eg hreyfi jafnan hug til þín
og hefi ætlað Bína mín
að semja til þín seðil smáan,
þótt sé nú fátt að letra á hann,
því fréttir litlar færast mér,
en f..... hvað eg gleyminn er.

En hvatir tvær eg helztar finn,
er huga til þess dirfa minn.
Það bar til oft í barndóm þínum,
þú brostir hýrt að ljóðum mínum,
þótt ómerk væri orða skil,
og enn kann svo að bera til.

Og hitt, ef gaman þætti þér
að þylja stefja rugl frá mér.
Þótt ei sé flughár andinn ljóða,
þú átt það skilið mærin rjóða.
Mér gleymist ei, hvað ástin þín
var innilega góð til mín.

Og þú ert vís, þá verð eg lík,
þótt værir orðin kona rík,
að lúta klökk að legstað mínum
og láta tár af hvarmi þínum
þar falla niður heit og hrein.
Eg hefi þau að bautastein.

Þau hverfa brátt, sem minning mín,
en minni andar sjón þó skín
sá perlu krans á leiði lágu,
því ljóssins gegn um höfin bláu
eg sé þau glöggt í sælu heim,
og silfur met eg skarn hjá þeim.

En hinu þér eg heita vil
sem hygg, þó varla komi til,
ef verð eg lífs, og lát þitt heyri,
þótt líkams fjötur andann reyri,
eg kvæða hörpu klökkur slæ
og kveðju til þín senda fæ.

Því hreinn og mildur himinblær
af hauðri ljóð mín borið fær
í sælu stað, þars önd þín unir.
Eg efa síst, þú brosa munir
og segir mér í svefni frá,
hve sæl og glöð þú lifir þá.

Frá máli þessu mér eg sný,
þó mætti fleira tjá af því,
sem mér er indælt flestu fremur,
en frétta grein í blaðið kemur,
sem héðan spyrst á fleygiferð
og flestum þykir undraverð.

Um jólagest skal geta þá,
er gandreið þeytti vestri frá,
að klerka setri komst með lagi,
í kirkju hann þótt enginn sæi.
I nunnu sal — því nótt er löng —
var nær að halda aftansöng.

Hans erindi eg óglöggt veit.
Með æðstu jörlum hér úr sveit
hann sat á þingi nokkrar nætur,
en nóttin allt í barm sinn lætur,
í fornvíkinga fór svo ham
og fagra snót á burtu nam.

hann vék með brúði vesturs til,
en veit eg þar á óglögg skil.
Hvort viljugt eins það væri báðum
og við það hafður guð í ráðum,
það veit eg sízt, en sannast hér
að sinna leyfa vitjar hver.

Ei gleymir tíminn gangi enn,
hið gamla ár nú kveður menn,
en náðin guðs hið nýa sendir,
á nýa reynslu það oss bendir
og gylda hvöt það gefur mér,
að greiða heilla óskir þér.

Já, þetta ár og alla tíð,
sem áttu lífs að heya stríð,
þig styðji alvalds sterki armur,
ef stefnir til þín böl og harmur,
og eins þótt heimur brosi blítt.
Hans bros er sjaldan lengi hlýtt.

Því oft, hvar blómin uxu björt,
var eiturnaðra fólgin svört
og þegar dúfan þangað villtist,
er þeirra búning skreyttan hylltist,
hin slæga ókind fór á flakk
og frelsingjann í hjartað stakk.

Það góða allt, sem eg fæ þekkt
og anda manns er þénanlegt,
svo farsæld æðstu finna megi,
þér fylgi æ á lífsins vegi,
en sál þín fljúgi ljóss á lönd,
þá líkams eru slitin bönd.

Já, vertu sæl, þig kært eg kveð
og kveðju mína einnig með
til svefnherbergis systra þinna,
en samt í hljóði, skaltu inna.
Eg óska þeim um æfi tíð
til allra heilla fyr og síð.

Nú leggst til hvíldar mælgi mín,
en mamma bæði og systir þín
þér heilla óskir senda sínar,
er sama hafa stíl og mínar.
Nú brýt eg saman blaðið fljótt
og bið þig forláts. Góða nótt.

# Til Hansínu Einarsdóttur,

undir nafni móður hennar.

Þótt sértu mér fjarri og báran sé breið,
sem bannar mér fund þinn um lífdaga skeið,
og þungt stynji hjartað mitt hrygga,
að hvarfla, sem oftast, er harmsvölun mín
á hugarins léttfæru vængjum til þín
þú ástríka dóttir mín dygga.

Þú blessaða geðfellda barnið mitt kært,
sem blundaðir áður í faðmi mér vært
með sakleysis brosið þitt blíða,
og þegar þú öðlaðist aldur og þrek,
þín ástríka hlýðni við geðið mitt lék,
og styrkti mig dag hvern að stríða.

Hvert árið, sem bættist við aldur þinn hér,
var ánægju dagstjarna gleðileg mér,
sem vonhlý um framtíð þér fylgdi.
Þú elskaðir menntun og sæmandi sið
hið saklausa glaðlyndi, skemmtun og frið.
Sem dýrgrip þig vernda eg vildi.

En geigvænlegt ský fyrir gleðisól dró,
eg grátin þess minnist, en hugleiði þó,
að guð hafi veginn þér valið.

Þú hvarfst mér í fjarlægð af feðranna grund,
mér fellst ei úr huga vor skilnaðar stund
og guð einn fær tárin mín talið.

Oft svífur minn andi of hyldýpis hrönn
að heimkynni þínu frá daglegri önn
og hjá þér í draumsælu dvelur.
Hann fylgir þér ófarna æfidags braut,
hann á með þér hlutdeild í gleði og þraut
og blessunar bænir þér velur.

En hugur minn hvílir sig vonina við,
sem veitir því saknandi hjartanu frið,
— það dregur að fagnaðar degi, —
að frelsunar landinu finnumst við á
og friðsældar bústöðum takist að ná,
þars mótlætis minnst verður eigi.

---

## Undir nafni gamallar móður

til dóttur hennar.

Af ýmsri heimsins mæðu mædd
á minni æfibraut

eg brátt mun grafar blæu klædd,
sem bætir hverja þraut.
Oft flýr minn hugur fús til þín
í fjarlægð, kæra dóttir mín.

Því enn er móður hjartað hlýtt,
þótt höndin kólni þreytt,
og móður ástar aflið nýtt,
því ellin fær ei breytt,
þú hvíldir barn á brjóstum mér,
sem barn eg hallast nú að þér.

Þá harkið dagsins hljóðna fer
og húmið dylur sýn,
og nóttin friðar fánann ber
er frjálsust hugsun mín,
minn dúrlaus andi dvelur þá
í draumi' og vöku oft þér hjá.

Sú er þó kærust iðja mín,
þótt ei sé málið snjallt,
að biðja guð að gæta þín
og gott þér veita allt,
þá ósk og bæn eg bezta finn,
hann blessi sérhvern ástvin minn.

Mér kemur oft sú ósk í hug:
að ætti' eg vængi mér,
svo til þín beint eg fengi flug,
að finna hvíld hjá þér,
og festa þér í faðmi blund,
sem frelsað barn á dauða stund.

En von mín sterka vængi á
og við það una skal,
hún ber mig heimsins böli frá
í bjartan dýrðar sal,
þars sæl mig gleður sambúð þín,
og sú er æðsta huggun mín.

---

## Kveðja til stúlku

undir nafni annars manns.

Nú er tíð að búast brott,
brautir okkar skilja.
Allt eg þakka þegið gott,
þögnin hitt má dylja.
Unga mærin hjartahrein
hýr og ljúf í sinni

þú mér bættir ólund ein
oft með glaðværð þinni.

Ef mig hingað hugur ber
heims frá glaumi snjöllum,
lokkabjarta mærin mér
mætir fyrst af öllum,
hjá mér þann eg geymi grun,
geð mitt til að kæta.
Bros þitt hýra mér þá mun
marga ólund bæta.

Vertu sæl. Eg veg minn fer,
veginn skammt þótt sjái
barna vinskap þýðan þér
þakka, skylt eg tjái.
Hvert, sem forlög flytja mig
fjörs á huldu skeiði,
bið eg *guð* og *gæfan* þig
gegn um heiminn leiði.

---

# Til stúlku.

Á grundinni fögru und hagsælli hlíð
við hraðstreymi Skjálfandamóðu,
þar dafnarðu blómrósin bragðleg og fríð
svo broshýr með vangana rjóðu.

Þú óspillta frjálslega æskunnar rós
með ennið og lokkana bjarta
með blikhýr og stillileg blástjörnu ljós
með barnslegt og seyrulaust hjarta.

Með hugþekka vöxtinn og hagvirka mund,
sem hæf er til nytsamra starfa
með röddina þýðu og ráðþæga lund
og rólega upplitið djarfa.

Þín háttprúða glaðværð og geðfellda mál,
sem gjarnan þér mannhylli bjóða,
það vitnar um hreinskilna, viðkvæma sál,
sem virðir hið fagra og góða.

Eg óska að heimur né illráðir menn,
svo ágætan dýrgrip ei meiði,
en gæfa og blessun þig sveipi í senn
og sælu að takmarki leiði.

---

## Til S. Pétursdóttur

undir nafni H. Jónsdóttur.

---

Í dalskjóli hlýu, sem dafnandi rós,
er daggperlur skærar og álfröðuls ljós
í vorblíðu verma og næra,
svo blómgast þú vordögum æfinnar á
með óhindrað frelsi og vonhýra brá
mín geðfellda góðvinan kæra.

Mér gleymist ei barnæsku vinátta vor,
mér vaka í huga þau skemmtunar spor,
sem hlæandi hlupum við saman.
Við hlýddum á vorfugla kætandi klið
á kraftmikinn drynjandi stórfossa nið,
en ræðan var gleði og gaman.

Í skammdegis kvöldrökkri saman var sezt,
þá sögur og kvæði var skemmtanin bezt.
Við reyndum hvor meira þá myndi.
Nú hreyfa sér lengra vort hugarins grip,
við hyggjum á framtíð með alvöru svip,
en virðum þó æskulífs yndi.

Og ætíð mig gleður, þá fæ eg þinn fund,
Þig farsæli alvaldur sérhverja stund

og gefi þér góðvini trúa.
Hann lýsi þér veginn um lífdaga tíð
og leiði vorn anda, þá sigrað er stríð
í sæluvist saman að búa.

---

## Svar til H. Jónsdóttur

undir nafni S. Pétursdóttur.

Fornstöð minnar æsku á
áls við kviklátt býli
þér mín vina hjartkær hjá
hugann oft eg hvíli.
Þar á spjaldi minnis mér
margt upp rifjast gaman,
geð með sátt þá gjarnan vér
glöddum okkur saman.

Okkur daprar enginn sá
æsku vors á degi,
lífsáhyggju þungi þá
þreytti hugann eigi.
Einlæg mér og ástarhlý,
eins og systir varstu,

meðlæti og mótgang því
mér jafnhliða barstu.

Og þótt skyldi vegur vor
vinskaps bönd ei slakna.
Hvert við æfiára spor
ætíð þín eg sakna.
Gleðst eg æ, að fá þinn fund,
fögnuð oft mér sendi
vinar mál af ljúfri lund
letrað þinni hendi.

Nú þá sumar sólin hlý
svölum vetri eyðir,
hjartans gleði hreyfing ný
hug minn til þín leiðir.
Heilla ósk þér færi' eg fús.
Friðar sól í heiði
yfir þitt og þinna hús
þýða geisla breiði.

Að þér hlynni alvalds hönd
æfi dags á skeiði,
vina ástar blessi bönd,
braut þig gæfu leiði.
Eftir sigrað æfi stríð,
önd þótt líkam kveðji,

eilíf sumar sælu tíð
saman okkur gleðji.

---

## Til K. Sigurðardóttur

undir nafni Jakobínu dóttur skáldsins

---

Ef að telja upp eg fer
æskuvini mína,
jafnan fyrst í minni mér
muntu, kæra Stína.
Þitt ið hlýa hjarta þel
hefir tryggðar rætur.
Marga sending valda vel
vitna slíkt þú lætur.

Bráð og viðkvæm barns er lund,
bíð eg þolgóð eigi,
eftir þeirri óskastund,
að þig finna megi.
Fjarlægð þín og máttvan mitt
móti því vill hrinda,
trautt mun betur takast hitt
til þín ljóð að mynda.

Hjá mér hvöt þó nærist ný,
nú sem þögn ei leyfir.
Þegar sumar sólin hlý
svásum geislum dreifir,
fyr, en blómum ljær hún lands
lífsyl birtu sinnar,
lifna blóm í brjósti manns —
blómstur vonarinnar.

Von um sumar, von um líf
vetrar kveikt úr dái
hún er manna meginhlíf,
margt þótt élið slái.
Barnsleg hjartans ósk mín er,
að með sumri nýu
brosi gæfan blítt við þér
búin skarti hlýu.

Á þín vonar vorblóm kær,
vel svo þroskuð standi,
drottins náðar blíðu blær
blessun himins andi.
Hvar, sem áttu lífdags leið
lýsi þér til varna
yfir heimsins hættuskeið
himnesk vonar stjarna.

Vertu sæl og mundu mig,
mér þótt dveljir fjærri.
Eg skal muna þakklát þig,
þótt eg verði stærri.
Lætur svífa svo af stað,
sent í hendi þína,
þetta létta ljóða blað
litla Jakobína.

---

## Til unnustu

undir nafni kunningja skáldsins.

Þótt hylji þig fjarlægðin hjartkæra mey,
eg horfi á svip þinn og gleymi þér ei.
Hvert fótmál þú fylgi mér veitir,
því hlýlega veit eg þú hugsar til mín,
minn hugur á ljósvængjum svífur til þín
og vorblómum vonar sig skreytir.

Því vonin og kærleikur veita þá hlíf,
sem viðkvæmu hjarta er styrkur og líf;
þá mótblástur heimsins vill hræða,

Þau lýsa upp myrkvaða lífdaga braut,
þau liðsemd oss veita í sérhverri þraut
og himnesku hugrekki gæða.

Og vonin í kærleikans blíðviðri byggð
á bjarginu fasta, er köllum vér tryggð,
hún stendur, þótt stormarnir þjóti.
Hún gjörir að farsælli gleði þá stund,
sem geðrór eg þrái, að sækja þinn fund,
svo augun þíns indælis njóti.

Þá leggst eg að blundi og bið fyrir mér,
svo bið eg hinn alvalda jafnt fyrir þér,
að vernd hans og frið megir finna.
Og blundur á draumvængjum ber þig til mín.
Í blundi og vöku er samvera þín
það hnoss, sem eg hygg til að vinna.

---

## Til Elínborgar Magnúsdóttur

undir nafni Jakobínu dóttur skáldsins.

---

Börnin muna, Borga mín,
betur mörgum hinum.

Mér er ljúft að minnast þín
með þeim beztu vinum.
Viðmótsblíðu bros þín hlý
burtu feimni rættu,
gamanávörp glaðleg því
geðið létta kættu.

Endurminning mjúka þá
mér í hug þú glæddir,
þótt eg sæti sagnafá
sjálf þá við mig ræddir.
Blóms og rósa myndir mér
margar sent þú hefur,
þær að sjá mitt yndi er,
engin fegra gefur.

Fyrst nú liggur fjarlægð í
ferill æfi þinnar,
vinar kveðja veri hlý
vottur þakkar minnar.
Mörg þótt rísi mótgangs hrönn
manns á reynslu skeiði,
Heilög gæfan holl og sönn
hvert þitt fótmál greiði.

Farðu vel á lífsdags leið
lukkan stand þitt hefji,

alvalds náðar eygló heið
um þig geislum vefji.
Farðu vel við bana blund
bjartra ljóss til heima,
þar til komum þann á fund
þér eg vil ei gleyma.

---

## Til Jóseps Davíðssonar.

Nú skal brjóta þagnar þorn
þægðar hóta vinur.
Öfund ljót og fýla forn
frá mér þjóti út í horn.

Mér að laga ljóð til þín
letin bagar forna,
orða hagleik einnig dvín,
andinn ragur blygðast sín.

Langt hvað millum okkar er
yndi spillir mínu,
ef mig kvilla ólund fer,
andi hyllist minn að þér.

Skemmtun tjáist sjaldgæf hér
skapi bága mínu,
vetur á mig vopn sín ber,
vinir fáir heilsa mér.

Ytra friðar á eg skjól,
innra miður stundum.
Hverfult iðar andans hjól
utan við sitt heima-ból.

Man eg fundi fagnaðar
forsjá undir þinni,
frítt þá dundi flösku mar,
frjáls þær stundir andinn var.

Fyrir jólin þráði' eg þig,
þegar gól ei Kári,
geðs um ból þá glæddi sig
gleði sól á hærra stig.

Vóx þá hróðrar hyggja brýn
hjals um slóð, svo yrði,
vinur góði, greidd til þín
gamla ljóða skuldin mín.

Mér eg nætur nýtti frið,
neytt svo gæti hugar,

ljóð að bæta byrjuð við,
brast þó ætíð fagurt snið.

*
*  *

Mínum Grundar góðvin hjá
glaða stund eg átti,
skemmtifundi frjálsum á,
flöskum hrundu tár af brá.

Deyfðar viðjum varp eg því,
vildi styðja gleði.
Lék að iðju lund mín frí
ljóða gyðju faðmi í.

Lengdin vetrar leiðist mér,
leyst ei getur fannir.
Grafinn metast má eg hér,
mitt við setur bundinn er.

Mjallroks veður margan dag
manna treður byggðir.
Snjónum hleður lag á lag,
leiðan kveður norna brag.

Von mín þessi vakir þó,
vorið blessað kemur,
lífið hressir fríð og frjó
foldin pressuð undan snjó.

Hressist eg og hækka brá,
hrausta þegar fæ eg
fjalla vegum ykkar á
útilegumenn að sjá.

Mig þar fýsir fremst að sjá
fjöllin Ísagrundar.
Svelnis hýsin svört og há
sögudísar stöðvum frá.

Fund þar naumast fæ eg þinn
fyrir straumi lýða,
heims við glaum og hark eg finn
hugar draumur truflast minn.

Veg þinn greiði gæfa sönn.
Glaður skeiðið þreyttu.
Mótgangs neyð og harma hrönn
hjá þér sneiði lífs við önn.

Styggðar dvíni storma far
stefnt til þín. — Já, öllum
vinum mínum vestra þar
vorsól skíni blessunar.

Tón við forna tamur sinn
tæmdan þorna finnur

Braga norna bikarinn
Björn á Horni vinur þinn.

---

## Til Jóhannesar Sigurgeirssonar.

Sent með bók.

Þitt hjarta blómgar hreina rós
frá himinsölum björtum,
þú gjörðir jóla gleði ljós
svo glatt í barna hjörtum,
og þessi bók ber þakkar vott
frá þeirra hug og mínum.
Þér hlotnist allt, sem guð á gott,
að gefa börnum sínum.

Nú brosir við þér byrjað ár
og blómleg þroska tíðin,
þér ekkert harma svíður sár,
þú sækir fram ókvíðinn,
þú vænlegt blóm þíns ættflokks ert,
og æ munt reynast nýtur.
Þitt fótmál greiði gæfan hvert,
unz gæði æðst þú hlýtur.

# IV.

## HESTAVÍSUR.

---

### Lýsing af hesti,

til að velja eftir.

---

Ef þú selja meinar mér
makka skeljung góðan,
kosti telja hlýt eg hér,
hann svo velja takist þér.

Álits fríður, framþrekinn,
fjörs með stríðu kappi,
fimur, þýður, fótheppinn,
fetatíður, ganglaginn.

Stutt með bak og breitt að sjá,
brúnir svakalegar,

augu vakin, eyru smá
einatt hrakin til og frá.

Makkann sveigi manns í fang,
munn að eigin bringu,
skörpum fleygist skeiðs á gang,
skrokkinn teygi fróns um vang.

Þolinn, hraustur grjót og grund
grípi laust með fótum,
vaði traustur ekru und,
eins og flaustur taki sund.

Enga hræðist undra sjón,
að þótt slæðast kunni,
viss að þræða veg um frón,
vænn á hæð og frár sem ljón

Leggjanettur liðasver
lag sé rétt á hófum,
harður, sléttur, kúptur, hver,
kjóstu þetta handa mér.

———

# Svanur.

Brúði grana aldna á
er til bana skotinn,
makka trani mestur sá,
Mýrarsvanur lotinn.

Aldur langan þessi þar
þénti spanga týrum,
orku stranga af því bar
öllum stanga dýrum.

Traustum fótum fjörgur nó
fleins með njóta vendi,
yfir gjótur, mel og mó,
mæði hót ei kenndi.

Undan klára flokk um frón
flaug, sem ári trylldur,
viðbragðsknár, en vænn að
vaxtarhár og gildur. [sjón,

Hans á trúðu traustleikinn
týrar Úðar glóða,
þars um flúða feril sinn
fellur snúðug móða.

Hængja veiðar vöðum á
valdi leið í flýti,
sáust breið um brjóst hans þá,
boðar freyða hvítir.

Stríðum móti straumi sá
stanzi hót ei sinnti,
járn við grjóti glumdi, þá
gildum fótum spyrnti.

Stöðugt vóð og standast vann,
straums þar flóði boðinn.
Löngum stóð á hauðri hann
hængja blóði roðinn

Elfdur var hann Svanur svo,
sögn má þar um fljóta,
klyfjar bar við *h*verja tvo
knáa fararskjóta.

Forna leið úr fossum hann
fótum greiðast barði.
Gilda veiði með og mann
margoft skreið að garði.

Dugði lengi hraustur hann,
hátt þars strengir rísa,

finnast enginn knárri kann
klár á vengi ísa.

Ætla má að eigandinn
oft í stjái veiða
gamla þrái Svan-inn sinn,
silungs lá við breiða.

Faxa gotinn frí við tjón
fjörs að þrota blundi
aldrei hnotið fékk á frón,
fyr en skotið dundi.

Hærugráa hetju þá
Hel nam slá að vonum.
Kvæðið smáa mitt ei má
meira tjá af honum.

---

## Blesi.

Lands um flesjar líta má,
lest er hesta skörðuð.
Torfunesi traustur frá
trað nú Blesi helveg á.

Þreks til vinnu þolinn var
þrifinn klyfja svanur,
mörgum stinnum blakk af bar
braut á sinnar lífstíðar.

Söðuldrekinn kraftaknár
kveið ei reiðar slarki,
viljugt lék með vopna jár
vaxtarþrekinn, meðalhár.

Bætti lúa meinin manns.
Marga björg að flutti.
Þótti trúa þrekið hans
þarfiegt búi eigandans.

Nábúanna nauðsýn þrátt
nýtur hann og þénti.
Ösla vann með ærinn mátt
aura, fannir, straumfall blátt.

Þegar móðu þökum blá
þrýsti frostið saman,
broddskóm hróðugt hraustur á
hála tróð um vetrar gljá.

Hlöðnum aka vanur var
vagni klaka brauta.

Hann á baki happarar
  handar jaka tý þó bar.

Veg ótrauður valdi sá
  vötn og hauður yfir.
Þokka bauð sér beztan frá,
  búkinn rauða gljáði á.

Yfir grjót og hrjóstur, hvar
  heppinn fótum stýrði,
sjaldan hnjóta vanur var.
  Vopna njót án slysa bar.

Tvenna þrettán vetur vann
  vel mót Helju stríða.
Ellin þétt, er færi fann,
  feigðar setti bragð á hann.

Fjörs að þroti þolinn vel
  þrek til nota hafði.
Loks með skoti lífskæð Hel
  lagði snotran beizla sel.

Þorláks sinni sjón við þá
  söknuð finna mundi,
benja linna baldri má
  Blesa minning lifa hjá.

———

## Brúnn.

Undir nafni Halldórs á Kálfaströnd.

---

Ungur þegar mín til man,
minn það huga kætti,
*góðan ef eg söðla svan*
*sjálfur eignast mætti.*

Loks mér það í greipar gekk
gjaldi móti háu,
beizla nað eg brúnan fékk,
betri fæstir sáu.

Skeiðvarg rörum skal ei neitt
skrumað hrós fram bera,
drift og fjör hans afbragð eitt
öllum þótti vera.

Vaxtarfríður vel sig bar,
vegi lítt þó skeytti.
fetatíður, snúningssnar,
snúðugt fótum beitti.

Hvíldir naumar sér gaf sá,
sýndi rétta snilli,
lék við taum og tánum á
tiplaði spretta milli.

Sig hvar þandi þrunginn móð
þund með Gínars röðla,
ógnum blandin unun stóð
af þeim jötni söðla.

Mig sá flutti bezt um braut
búinn snilldar þreki,
en hans stutta stund eg naut,
stirt þótt gæfan léki.

Fjallveg langan fjörugt þá
fótum stikað hafði
berserks gangi ægum á,
eins og lundin krafði.

Hjúpi sveiptur hitastraums
hlyn með greipar mjalla,
djarfur steyptist drekinn taums
dauður strax að kalla.

Fætur létt til bana bar
beizla vakur linni.
Hinzti sprettur hans ei var
hinum driftarminni.

Brúns þótt æfi árin fá
yrði, gagn að vinna,

hrósið gnæfir frægð hans frá
flestra yfir hinna.

Lít eg hresstur höggvið skarð
heima í brigðul gæði,
*afbragð hesta eign mín varð*
ei þótt lengi stæði.

---

## Gráni

Jóseps Bjornssonar á Vestaralandi.

---

Þögnin flýi sinnu sal,
sveipuð skýum rauna,
eftir hniginn volka val
vísur nýar semja skal.

Kólgu glæða kvistir tjá
kunnir gæðing þessum
norðursvæði ísa á
engan næði fegri sjá.

Hár og þrekinn vaxtar var,
við sér lék, þann stýrði,

geist á vekurð guma bar
gjarða drekinn snillirar.

Prýddi hringju fálkann flest,
fimni slinga æfði,
á reiðþingum oft með lest
Axfirðingum skemmti bezt.

Taugagróinn tamning frá,
til þess sló hann elli,
böls með sóun bar oft sá
bóndann Jósep Landi á.

Hirðir skjalda skemmti blítt
skeifna mjaldur þýði,
fót óbaldinn teygði títt
tauminn aldrei heimti strítt.

Litinn svana bjartan bar
beztur Grana jafni
köstum vanur kappreiðar
keðju hraninn bragðasnar.

Hálsinn reisti hals í fang,
hart upp leysti þvita,
veginn þeysti þýðum gang,
þyrlaði neistaglóð um vang.

Svita úður sauð um skrokk,
samt ei lúðist Gráni.
Hás af prúðu hringa dokk
hófum rúði blómsturlokk.

Þýfi, heiðar, hraun og dý
hans ei leiðir tepptu.
Þá fjallreiðar róstum í
rauk á skeiði slysafrí.

Sig til lagði sauðum mót
söðulflagða gramur,
þeim ei sagði hrokinn hót
hart viðbragð og styggðin ljót.

Þegar nauða gjald að gekk
gleðisnauðrar elli,
hetju dauði fáksins fékk
fjörs ótrauðan brotið hlekk.

Oft með klökknun rænu ranns,
reið þá frökk er hafin,
eykur söknuð eigandans
endurvöknuð minning hans.

---

## Sölvagráni.

---

Held eg bresti hægt að sjá
heims á flestu láni,
dæmdist bezta aldri á
afbragð hesta lífi frá.

Hans um snilld að laga ljóð
lítt eg gildur reynist,
kappi fylldur fram sem óð
fjörs í trylldum jötunmóð.

Fararskjóta fremstur þrátt
fleins með njót á spretti
aur og grjóti kynjaknátt
kastaði brjótur skeifna hátt.

Framan hár með bakið breitt
beizla márinn þrekni,
eyrnasmár þeim yppti greitt,
úthaldsknár ei hlífðist neitt.

Bitureygður brjóstum að
beizlis hneigði stangir,
öllum fleygðist fyr af stað,
fáka deigðist kapp við það.

Fótviss nó og fimur vel
flesta dró á spretti,
björt þar flógu funa él,
fótum sló hann grýttan mel.

Huldi mökkur himinblár
hann, þá stökk um svæði,
laugaður klökku löðri þá
litar dökkur til að sjá.

Tyllti nettur tám við grund
trylltra spretta milli,
hoppaði létt og lék við mund,
líf hans rétt var skemmtistund.

Svört þótt klæddi gríma grund
Gráni þræddi veginn,
djúp þars flæddi ekru und
íþrótt glæddur knúði sund.

Frægur seinast fíls um hlað
fjörið einatt stælti,
beizla hrein unz bárust að
bana mein, svo helveg trað.

Hlynur fjarða hita sá,
hjört er gjarða átti,

bætt því skarðið seint mun sjá,
söknuð harðan reyna má.

Hneigð að slíku ósk mín er
elda sýkis hlynur,
gæfan ríka gefi hér
Grána líka aftur þér.

---

## Skaftagráni.

Undir nafni B. Gunnlaugssonar frá Skógum
í Ax[illegible]

Lækkar sól en hrímkalt haust
hret og vetur boða,
Vindsvals gólar geigvæn raust.
Gleði hjól er manns ótraust.

Fölna stráin, lögð sem lík,
láð er áður skreyttu,
skil þess má og skoða rík,
skepnan fái afdrif slík.

Þeirra valt oss lánast lið,
líf þótt hlífa njóti,

stríð við kalt um stundar bið
stefnir allt á feigðar mið.

Megn og snilld þótt megi tjá
mest sé hesti gefið,
sína vild þeim einnig á
Elli gild og Helja sjá.

Hér að sinni hreyfist því
hljóður óðar strengur,
skorið finn eg skarð á ný
skeifna linna hópinn í.

Sveiptan láni söðul nað
svalan val í felldi
Skuldar fróna sköfnungs blað
Skaftagrána velli að.

Norður hingað seldist sá
sókn reiðþinga tamur
fálkinn hringju hreins um lá
Húnvetninga byggðum frá.

Tíu ára tíð mig bar
traustur klár og heppinn.
Lipur, frár og leiftursnar,
líkt og snjárinn hvítur var.

Vexti fríðum hófa hreins
hrósa lýðir mundu,
brokkið þýða bót var meins
börvum hríðar mistilteins.

Þá af kappi þreytt var reið,
Þótti rótt ei verða,
elfdur happi skerpti skeið,
skjótast slapp því fram á leið.

Framsókn skörug skeifberans
skynding vinda líktist.
Eðlis fjör var ætíð hans,
eins og kjörn hugur manns.

Leiðar gætti Gráni, hvar
gat ei ratað maður,
í svartnætti oft mig bar
yfir hættur torfærar.

Eins þars grundar æða flóð
yfir dundu klungur,
þrátt með undra þreki vóð,
þreytti sund í jötunmóð.

Ára tugu tvenna hann
traustur dugað hafði,

fákinn bugast bráðskarpan
blóðgýrug þá Helja fann.

Skuld og Elli skemmt var, þá
skot við gella heyrðist.
Gömlu svella grund þar á
Gráni féll og dauður lá.

Líf allt þrýtur svo um sinn,
söknuð hlýt eg kenna,
hvergi líta má nú minn
mjalla hvíta skeiðvarginn.

Galla án þótt gæðing mér
gæfan láni aftur,
minning Grána gleymd ei er
gulli fránu af sem ber.

---

## Um Skjónu Jóns Ólafssonar.

Skjóna grjóti skeifum frá
skirpir fljót í bragði,
trauðla fóta missa má,
mæði hót ei kennir á.

Beizla hindin bráðfjörug
brokkar yndislega,
hröð, sem vinda bóls um bug
beini' í skyndi valur flug.

Þenna iðju þarfan þjón
þrátt í hryðjum ferða
ístaðs bryðjan elfd, sem ljón,
Ólafs niðja flytur Jón.

---

## Um Hjalta,

reiðhest Árna Magnússonar.

---

Gæðing hröðum hrósa má,
hér sem er að Skriðu,
Hjaltastöðum fenginn frá
fákaröð í beztu sá.

Mætti lýsing heyra hans
hölda fjöld og snóta:
Blakk um ísa byggðir lands
betri kýs ei hugur manns.

Niðji Grana blóms um beð
bezt sá hesta skeiðar,
lipurt vaninn lífgar geð
litinn svana bjarta með.

Svip með hýran hreyfur nó
hafinn svíra beygir.
Fjörið dýra fargar ró,
fáknum stýra létt er þó.

Skreytir allt hvað skemmtun lér
skeifna galta þýðan.
Fljótt óvalta fætur ber,
folann Galta nefnum vér.

Vöðvaþéttur sómir sér,
sést ei hestur fegri.
Brúnaléttur oftast er,
eyrun nett á kviki ber.

Fús að taka fiman sprett
fjörið vaka lætur.
Sköflum blakar laust og létt
lóna þakið hefilslétt.

Ganginn teygir góða, þá
grund um fleygist slétta,

heldur eigi hikar sá
hrjósturvegi grýttum á.

Framar liðið fær ei hest,
ferð ef herða bragnar,
hann þá iða allur sést,
orkan styður fjörið bezt.

Þar, sem klárnum þrekna á
þekkist Árni víða,
hörund sárna hauðurs má,
hríslast járnum elding frá.

Bræddur svita hjörs með hroft
hvíta litinn blekkir.
Flugs með þyt af fótum oft
færir þvita hátt á loft.

Gjörir hlýan huga manns
hrekkjafrí og gæfur.
Svifs við gnýinn sýlaþranns
sund er íþrótt fögur hans.

Þrot ei sést á þreki hans,
þegar mest við liggur.
Eign mun bezta eigandans
afbragð hesta norðan lands.

Langa æfi Árna hjá,
ósk sú hæfi rætur. —
Hjalti svæfi hugar þrá
höllum gæfu dögum á.

---

# V.

## LAUSAVÍSUR.

---

### Blesa og Pækúl.

Hross og hundur

---

Allir heya hinztu þraut
  hels í fjötra krepptir,
Pækúl stefndi bana braut
  Blesu skammt á eftir.

Þau sér héldu létt á loft,
  launin hátt ei settu,
en spori' og byrði af mér oft
  öðrum framar léttu.

Tryggð við sitt þau tömdu vel,
  trautt er fundin meiri.

þeirra laun varð lúi' og hel
 líkt og margra fleiri,

Feti undan fóru þau(g)
 frið og hvíld að þiggja,
svo ei mega myrkan haug
 mér við síðu byggja.

---

## Gamli spring.

Hundur. sem Jóhann Sigurðsson átti.

Dagar kólna, deya blóm,
 döpur ljóð í haust eg syng,
hörpu minnar hásan róm,
 hef eg til þín gamli Spring.

Mér ei lengur fær þú fylgt
 forni tryggða vinurinn,
þín að minnast mér er skylt,
 merkja vil eg legstað þinn.

Aldrei tryggða band þitt brast,
 borið get eg vott um það,

eigandanum fylgdir fast,
  fáum öðrum gafst þig að.

Strax þú horfðir hýrt til mín,
  hvað því olli vart eg skil,
vinskaps trygging var sú þín,
  vel sem hélztu dauða til.

Margan dag hjá mér við hjörð
  mæddur hita röltir þú,
þrumu skúr og höglin hörð
  hræddist aldrei lund þín trú.

Ef eg lagðist látt á jörð,
  las og féll í höfga dá,
hjá mér dyggan hélztu vörð,
  hraktir skepnur burtu frá.

Illkvikindi ef þú leizt,
  iðrum jarðar skriðin frá,
hristir og til heljar beizt
  hræðilega ylgdur þá.

Fyrri dögum æfi á
  orkan þín var hvergi lin,
heilar mílur heiman frá
  hljópstu að verja sáðlöndin.

Griða tími gafst ei þá,
  gripum varstu harðleikinn,
fjöldann hraktir flótta á,
  fáir stóðust aðgang þinn.

Létt og stillt með lundar far
  leiddir hjá þér ófriðinn,
en ef leitað á þig var,
  aldrei léztu hluta þinn.

Allur þrýstinn vöxtur var,
  vöngum skýldu eyrun stór,
hárið mórautt búkur bar,
  brjóstið framan hvítt, sem snjór.

Hart þig ellin hrjáði þung,
  heyrnin þvarr og glaptist sýn,
þó var söm, — já, alltaf ung,
  óslítandi tryggðin þín.

Einn þú heiman höktir þrátt
  hrumur mjög með stirðan fót,
tryggðin gaf þér meiri mátt
  mér að sýna vina hót.

Þú ert horfinn hels á veg,
  heyrir ekki ljóðin mín,

meðan vina minnist
mér ei gleymist tryggðin þín.

---

## Augnaverkur.

Oft mér vakti öfund framt
íþrótt liðsins fleyga,
náttuglunnar sæti samt
sízt eg kaus að eiga.

Ef eg sviftist sjónar gjöf,
sár mun raun að bera.
Kalla' eg mig í kalda gröf
kvikan fallinn vera.

En frá mæðu myrkra stað
mér það skyldi kenna
himinsælu hæðum að
hugar sjón að renna.

Bezt mun trúar blómgast rós
böls við élja mökkva,

Hann á frjálst, sem ljær mér ljós,
líka það að slökkva.

---

## Ólund.

Orð mig vekja ekki nein
óðar þátt að spinna.
Engri tekið gamangrein
get eg vina minna.

Undir meins eg færist farg, -
finn þó verst að kvarta, —
það er eins og banvænt bjarg
byltist mér á hjarta.

Mín ókæti mörgum duld
mjög er þar af sprottin,
að eg bæti skuld á skuld —
skuld við menn og drottinn.

---

## Andvaka.

Ó, guð minn! hvað það líf er langt,
sem lakan ávöxt gefur.
Ó, vökunótt! þitt stríðið strangt
minn styrkleik bugað hefur.
Það færir andann fjötur í,
sem fléttar hversdags mæða
og dregur heimsleg harma ský
á himinn sannra gæða.

## Til hvers er að tefja meir.

Til hvers er að tefja meir?
Tak þú guð við þínu.
veröld mig, sem veikan reir,
vefur neti sínu.
Andinn æðra sér.
Freistinganna margbreitt magn
mig af stefnu ber.
Öðrum vinn eg ekkert gagn,
en óhag sjálfum mér.

## Fjárkláðinn.

Sauða maur og kláði kann
kinda þrif að skerða,
yfirvalda höfðum hann
hættari mun þó verða.

Hans að ríki verði velt
vit og krafta þreytir.
Hann við laga hunda gelt
háttum lítið breytir.

## Kláðagjaldið.

Vöðull þolinn orða aurs
oss til gjalda krefur,
sá að kolum kláða maurs
kröftugt blásið hef*u*r,

Kúgun stælir rekka ríg.
Rikkt er deilu fleini.
Laga svælu gýs úr gýg
glóð með brennisteini.

## Deilan.

Hér ei skeður nýung nein,
nefna dæmi má eg,
rakka tvo um roð og bein
rífast löngum sá eg

rétt og lög svo sækja þeir,
raskast friðar vegur.
Sá, sem orkar öllu meir,
út úr hinum dregur.

Ei þarf raska okkar frið,
élm þá dýrin tryllast.
Hitt fer ver, þá varga sið
vænir menn aðhyllast.

---

## Tveir menn kepptu um ábúð

á lélegu koti.

Er þá Glaumbær salur sá,
sælu nægt hvar ríkir?
Menn um kotið ýtast á
úlfa kindum líkir.

Færast lög í flækju hnút,
fólginn endi liggur.
Hver vill hrinda öðrum út
og það réttlátt hyggur.

---

## Vetrarkoma.

Í norðan hríð.

---

Vetur kallar vist oss hjá,
veðra hallir duna,
kalda mjallar kjólnum sá
klæðir fjallkonuna.

Sviftist reginsala land
sólar meginljóma,
snurðað fleygist bólmar band
baugs að freyu óma.

---

## Um nótt í stórviðri.

Stríðs fékk kröfu storma lið
stundir blunds að nota,
varð á töf mér gæfist grið
ganginn höfuðskepna við.

Renndi Kári Róstu skeið,
ruggaði glugga fýlum.
Hrund að jára hvals um leið
hamröm Bára gandi reið.

## Við Brúarfoss

Nú er Brúar buðlung kátt,
Braga' á strengi leikur.
Gýs í loft frá honum hátt
heiðblár úða reykur.

## Um nótt við slátt.

Nætur vakan varð mér súr,
vantaði' egg í ljáinn,
flatur loks á fold í dúr
féll eg, líkt og stráin.

Bróðir hefnir blunds á mér
blómleg fyrir stráin,
innan skamms hann að mér ber
eggjar þolna ljáinn.

## Slaður

Þeim, sem vaða þvættings elg,
þykir' ei fjölga syndum,
þótt í slaðurs burðar belg
bætt sé ósannindum.

Þeim, sem sletta þvættings elg,
Þykir svala tranti,

þótt í frétta burðar belg
botn og sannleik vanti.

---

## Lokaþráður.

Loka þráður Laxá frá
liggur að álfa dýi,
hans vér teljum þætti þrjá,
þvætting, róg og lýgi.

---

## Bakmælgi.

Hér er bakmáls hnútu kast
heimsku drifið gjósti.
Öfund, hatur, lýgi' og last
logar í sumra brjósti.

Sár á bak hér fjölmörg fá
fljóð og eggteins börvar,

oft eg sit og þegi þá
  þjóta lastmáls örvar.

Hér et forugt fúa ból
  fullt af ýmsu níði,
nauðug hingað sendir sól
  sína geisla prýði.

Hér er leiður lastmáls flór,
  löðrið slettist víða.
Hingað illri heill eg fór,
  hunda bit að líða.

Hér um skemmtan finnst mér fátt,
  fýld er brún á mönnum.
Knúðir rokkar kveina hátt,
  kambar nísta tönnum.

Mitt eg geng í myrkra skot,
  menn og ljós þótt flýi,
svo ei rokka þrumu þot
  þakið heila knýi.

---

## Okkar til að gremja geð.

Okkar til að gremja geð,
glaðir í kjafta sæti
slaður hrafnar hoppa með
hérdóms fregna æti.

---

## Kveðið í kaupstað heima.

Margur hér til gildru gekk
glópsku feril taman.
Þræll að vera þræls í hlekk,
þykir mér ei gaman.

* * *

Hér að lítur margra mál,
minnki líkams forði,
smábands kufli klædd er sál,
kaupmanns negld að borði.

---

# Áminning.

[Margir höfðu orkt klámvísur um Finn og var skáldið beðið að bæta við einni vísu, eða svo. Orkti hann þá þessa vísu.]

Finna safnast kvæðin klúr,
kroppa jafnir svínum
mannorðs hrafnar augun úr
eðlisnafna sínum.

---

# Stökur.

Sumra orð hjá eyra manns
eru vinskaps hljómur,
en þá bak við horfir hans
harður palla dómur.

Oft eg skrafa fávís fátt,
fólk að lasta trauður.
Til að lafa heims við hátt
hlæ eg gleðisnauður.

## Til kunningja.

Margoft finn eg mér sé bent
málstað þinn að taka,
þegar bakmáls hnútum hent
heyri' eg þér til saka.

## Við slátt í krapahríð.

Norðri lítið lyftir brá.
lætur þvælast heyin,
slettir hvítu slapi á
sláttu þræla greyin.

## Í óþurkum.

Hér er slæmt að ala aldur,
ekkert þornar strá,

þoku myrkra klefi kaldur
*Kverfið* heita má.

---

## Tyrfingur.

(Torfaljár.

Tyrfings heiti hlaut minn ljár,
hann þótt eitur vanti.
Blómum veitir bana sár,
brandinn skreytir litur gljár.

* * *

Eg þótt slái ekki fast,
ekru þjáist kviður,
Tyrfings bláa blaðið hvasst
byltir stráum niður.

---

# Um Hring.

Undir nafni kerlingar nokkurrar, er kærði hann fyrir allar þær gripdeildir, sem hér eru taldar með öðrum fleiri, og klifaði jafnan á, að hann væri drepinn.

Nú er Hringur fallinn frá,
fyr er Skriðu búrið eyddi.
Heill sé þeim, er hjörvi brá,
hans úr strjúpa blóð svo freyddi
Heill sé þeim, sem hreystislingur
hans að löppum kreppti fingur,

Nú eg boða fullan frið
fyrir gjörvallt Skriðuhverfi,
hvar, sem liggja lamba svið
lungu kálfs og garna kerfi,
frið í hunda fúlum bollum,
frið í alls kyns grautar kollum.

Án míns leyfis enginn hér
oftar sleikir potta' og klápa,
enginn dregur út frá mér
ísu roð né hákarls skrápa.
Mig og hrafna hressir bráðin.
Hringur er af dögum ráðinn.

———

## Kjaftakindin.

Lastmáls hljóðpípa lagviss þín
langan veg hljóminn ber,
úlfurinn mannorðs morða hrín
merktur á vörum þér.

Þvættings leirveltu saurugt svín
sannkallað tungan er.
Ormur forvitnis glepsinn gýn
glenntum í heyrnar hver.

---

## Vondra róg ei varast má.

Vondra róg ei varast má,
varúð þó menn skeyti,
mörg er Gróa málug á
mannorðs þjófa Leiti.

## Um grálynda kerlingu.

Fenjukreggja gerður grá
góma eggtein beitir,
lastmáls dreggja djúpi frá
dómum sleggju hreytir.

## Friðar bönd í flækju hér.

Friðar bönd í flækju hér
finnast öfug snúin,
melétin því mannást er
mygluð dyggð og fúin.

Andans þel er illhært tog
artin hnefar krepptir,
ósanngyrnis verstu vog
virt er sérhvað eftir.

## Um skuldseigan mann.

Þekki eg einn, sem ýmsra til
eftir láni kveinar,
en sín gjörvöll skulda skil
skæða kúgun meinar.

Undanbragða hugsun hög
heilan þúsundklýfur.
Skaða hræðslu seinvirk sög
sundur hjartað rífur.

## Dýrtíð á kúm.

Hækkar baulu hagur nú.
Held eg sanna þyrði,
ritning helg mót kelfdri kú
kallist lítils virði.

Magans þarfir máta vald
menntun andans hreinni.
Trautt mun rífleg talið gjald
tíu móti einni.

## Hrakningur.

— —

Sérhver rækir sína art,
sér að krækja æti.
Mig ásækja hrafnar hart
heims með flækju læti.

Þótt eg leiðan flýi flokk,
fárra heiður dafnar.
Magurt hreiður, magran skrokk
mettir veiða hrafnar.

*

* *

Hólmavað eg hrossskrokk tel,
helzt mér skaði geymist,
ef eg þaðan hrepps í hel
hrafnkroppaður teymist.

---

## Illa sækist þvættings þóf.

— —

Illa sækist þvættings þóf
þorskum, hlýrum, álum,

höggormar og hrafnar próf
hafa í þeirra málum.

## Álög og ólög.

Bænda þjóðin þjökuð mjög,
þungum gjöldum pínist.
Framan oft við orðið *lög*
*ó* mér vanta sýnist.

Fléttar aura fýsn órög
flækjur véla spunnar.
Eigingirndar gilda lög,
grýtt eru samvizkunnar.

Vorra laga vörðum þó
vel sé fægðir kantar.
Það er kannske *á* og *ó*,
orðið *lög* sem vantar.

## Til Odds í Yxnadal,

á hreppamóti, er [illegible] hreppsnefndinni fra ekkju, er hefði grátbænt sig til að lofa sér að vera a jorð þeirri, er hún bjó á og halda bornum sinum hjá sér, og gjörði að því skoll mikil.

Það, sem hryggði hrjáða sál
  hrepps í eldi kvala,
hafðir þú fyrir hæðnismál,
  hlátur til að ala.

Réttlætis við bjarta bál
  buðlungs h[illegible]
hreppsvand[illegible] mun þér mál
  minni hlát[illegible]

Hroka brynju sveipuð sál
  sér þarf líkn að fala.
Hafðu aldrei harma mál,
  hlátur til að ala.

———

## Um óspakan dreng.

Frá því lauk upp líkams sjón,
  löngum fyrrtur næði,
syngur litli Sigurjón
  sorgar gremju kvæði.

Mannleg rauna beiskja brátt
  barnkind unga hrellir,
líkt og eg við heimsins hátt
  hann sig illa fellir.

Ungi vinur oft þér finnst
  allt í móti snúa,
góðan tilgang metur minnst
  móður hjartans trúa.

Svefn og vöku varla er
  vandalaust að njóta,
fósturlögin finnast þér
  frelsis rétt þinn brjóta.

Á því sést að sonur minn
  sverðs er ungi rjóður,
að honum þykir heimurinn
  hvergi nærri góður.

## Ákvæði.

Sigurjón í Laxamýri vildi koma dún sínum í verzlunarskip, er lá á Húsavík, en var hræddur um að hann myndi verða of seinn með hann. Bað hann þá skáldið að gjöra vísur og mæla svo um, að því gæfi eigi fyr en hann kæmi dúninum í það. Þá kvað hann

Heyrðu, Norðri brims um bú
bragða neyttu þinna.
Ægis dætur ástu nú
án þess tjón að vinna.

Himinglæfa, Dúfa Dröfn
dans með taktinn kalda
móti Önnu*) á Húsahöfn
hristið ennis falda.

Henni skal ei héðan leyft
heim á ættstöð sína,
unz hún hefir góðu gleypt
grávöruna mína.

Þá skal Suðra blíður blær
bending systrum gefa,
hafs um flöt svo hljóti þær
hrika leik að sefa.

---

*) Nafn skipsins.

Þær um djúpa búrhvals braut
beint með óskaleiði
sitt blágræna skykkju skaut
skipið undir breiði.

Þær með hvelfdan beri barm
bros með hýrrar lundar
heila drengi, fley og farm
Fróða heim til grundar.

---

## Leiðindi.

Líf mitt þreytir byrði böls,
brags er þögull strengur,
hvorki víf né áhrif öls
andann vekja lengur.

Villuhætt er veikri sál,
vakir freistnin slinga.
Tauma' að stríkka mér er mál
minna tilhneyginga.

Mín þótt leiki tungan töm
tals að gamanföngum,

fremst á harma heljar þröm
hjartað stynur löngum.

Löngum blund eg fékk ei fest
friðar banni stunginn,
oft þá vaka vildi bezt,
var eg svefni þrunginn.

Bezt er að vaka búinn vel,
bið ei tekur langa,
unz í dauðans járna él
ég þarf út að ganga.

---

## Stökur.

Fjörs þótt bata framhaldið
finni hvatir nógar,
hollum glata hugar frið
heims og Satans vina lið.

Beinni sannleiks braut að ná
bila grannir kraftar,

hanga manni ótal á
ígultanna kjaftar.

---

## Glaður meðal glaðra

Glaður meðal glaðra
gætni frá eg sný,
styn þó stundu aðra
stríði hugar í.
Ó, hvað andinn þráir
annað betra líf,
þar, sem hann ei hrjáir
heimskra sorg og kíf.

---

## Þú svikagleði.

Þú svika gleði voða værð
og villugjarna braut
eg þekkti löngum þína flærð
en þó ei varnar naut.

---

## Nokkrar sundurlausar vísur.

Orktar hjá Sveini veitinga manni.

---

Hér frá Vík eg hafði spurt
hrörleg, þjáð og nakin
gestrisnin og Bakkus burt
bæði mundu hrakin.

En á hverri flökkuferð
fæ eg slíku hrundið,
og til baka bera verð,
að bæði hafi' eg fundið.

---

Hér er löng og daufleg dvöl,
dofið hjarta stynur.
Láttu vökva áfengt öl
akur þurran, vinur.

Andvöku mér ægja stig,
ærið löng mun gríma.
Kom þú Sveinn og singdu mig
seint við háttatíma.

---

[Hofundi var úthýst ásamt fleirum fyrir þrengsli, orkti hann þá þessa vísu]

Héðan frá þótt hrekjast megum,
heims hvar þjáir vald,
skála háan allir eigum
uppheims bláa tjald.

---

Ölvaguðs að grátum kraup
gjarnan breiskur maður.
Láttu Sveinn á lítið staup,
lífs þá nýt eg glaður.

---

Kannske djúpt mér verði vað
víns á gleði þingi.
Margur staupi stefnir að
stuttum hagyrðingi.

---

Heims við stríð af hrelldri brá,
heit svo frjósi tárin,
sletti' eg brennda bjórnum á
böls og harma sárin.

---

Vínið hressir hyggju veldi,
hlekkjum böls er vesst,
þó að slökkva eld með eldi
illa flestum gefst.

---

Nú er aldrei öls við skál
óðar þáttur saminn,
mín því hýmir syfjuð sál
sorg og fátækt lamin.

Auðlegð drembin ei hjá sér
augna blik mig líður,
föl og döpur fátækt mér
faðminn jafnan býður.

---

## Einveran.

Einveran er holl og hætt,
hún í bikar sínum
hefir bæði beiskt og sætt
borið huga mínum.

Mér að hjarta sorg ef sezt,
  sárin forn þá blæða,
eg vil forðast menn sem mest,
  mín þeir tárin hæða.

## Böls þá sker mig beittur fleinn.

Böls þá sker mig beittur fleinn
brýndur höndum vina,
gaum svo mér ei gefi neinn
gott er að vera staddur einn.

Heimsmenn kátir hneikslast, þá
hinna renna tárin,
að eg gráti óhult má
einan láta drottinn sjá.

## Fyrsti vetrar morgun,

í kafaldi og stórsjó.

Kring er þoka dauða dimm,
  drífu mokar niður,

upp sér hrokar aldan grimm,
úti lokast friður.

Vötnin klæðir klaka tjald,
*h*vítnar svæði mjallar,
vetrar skæðan skauta fald
skepnur hræðast allar.

## Upprof.

Kyrrist móður Kári loks,
kjör voru góð ei lánuð,
hamför óðust hríðar roks
hálfan stóðu mánuð.

Þennan mána allan út
oss var hegning ráðin,
það hefir drifið hnút við hnút
á harðan veðra þráðinn.

## Myrkra kvíðinn hrekst í hlé.

Myrkra kvíðinn hrekst í hlé,
harmar stríðir dvína,
eygló blíða, eg þá sé
andlits prýði þína.

## Brúagola.

Gjörn að sjúga hold af hjörð
hamför nú með rama
næðir brúa nepja hörð
norður á búin Hvamma.

## Fyrsti sumarmorgun

í harðindum.

Nú roðar fyrsta sumarsól
hin sollnu ljóra glér

og dauðafreðið blómstra ból
und blæu fanna er.
En náttúrunnar herra hár
á hjálpar meðul næg.
Þótt sýnist nálægt nauða fár,
er náðar stjórn hans væg.

## Á sigling í hafíshroða,

á skipi, sem hét *Vonin.*

Aftanhvessa ljær oss lið
lífs með hressing værri,
Vonin blessuð skerpir skrið
skeiðum þessa*) nærri.

## Sigling í roki.

Hrannir þvógu húna dýr,
hreggi sló úr boðum,

*) Skip bjarnanna — hafís.

guðinn sjóar gretti brýr,
Glyggur hló í voðum.

## Vetrarkvöld á Íslandi.

Tungls eg glætu fölva finn
fanna stræti prýða,
hrærast lætur huga minn
himnesk nætur blíða.

## Morgun.

Nú ljómar dagur, ljósið skín,
minn lyftist hugur guð til þín
og lof þér færa fýsir.
Þú gafst mér sjón að sjá þín verk,
þín sannleiks orða birtan sterk
til æðra lífs mér lýsir.

## Sterkur hiti.

Hjarðmanns fætur hitinn lýr,
hönd og andlit flagna,
sig í skugga draga dýr
drykkjar stöðvum fagna.

## Þrumur og rigning.

Skruggu duna skotin hörð,
skýa buna tárin.
Loks til muna lifnar jörð,
læknast bruna sárin.

## Himin bláan skyggja ský.

Himin bláan skyggja ský,
skúr þau á mig hrinda.
Þýtur trjáa toppum í
tónninn hái vinda.

## Ísingin mikla—vorið 1890.

Skepnum synjað fæðslu fer
foldin kynjum slegin,
klaka brynja kristalstær
krenktar stynja lætur þær.

---

## Hríðar áfelli—vorið 1892.

Hylja fannir sumar sjón,
sáðverk manna tefur,
okkur annað frera frón
fengizt þannig hefur.

---

## Snjóél—fyrsta vetrardag 1892.

Vekur Norðri vopna glam,
verki manns þótt hamli,
dregur hvíta fánann fram
frosta valdur gamli.

## Veðravísur—veturinn 1893—94.

1. febrúar

Fátt, sem gladdi, í gær við bar,
glumdu raddir storma.
Hels með gaddi', er hörund skar,
hart oss kvaddi janúar.

Þannig jagast þægða spar
þussin gagur bylja
fyrsta dag af febrúar,
fleiri slaga eftir þar.

Síðar í sama mánaði.

Æsist baldinn storma styr,
storðin faldar hvítu,
opnar haldast Heljar dyr,
hann er kaldur enn, sem fyr.

Þorra þrællinn.

Klettafjalla koldimm þoka
köld og ílits grá,
það er kveðjan þorra loka
þesssum vetri á.

Síðast í febrúar.

Vestan rok á mjallar mar
myrkt, sem þoka væri,

hels að koki' oss hrjáða bar
hinzt við lokin febrúar.

Í marsmánuði.

Veðurblíðu vott eg finn,
vetrar stríð þótt könnum.
Langt er síðan kom við kinn
kylja þýð á mönnum.

12. apríl.

Tólfta apríl týndust grið,
trylltist napur Kári.
Hálsa skapar harðfennið,
Helja gapir skepnum við.

---

## Á sumardag fyrsta.

Snjófgan hristir hramminn sinn
hreðabyrstur Norðri
svæðis lýstur svala kinn
sumars fyrsta morguninn.

## 5. nóvember 1896.

Vetur grimmt að garði fer,
gagur jagast Kári.
Norðan dimmt af drífu er
daginn fimmta nóvember.

## Þorri.

Nú er vetur yfir allt,
augu mín sem líta.
Strokjárn þorra stífar kalt
storðar faldinn hvíta.

## Mildur febrúar.

Veðra slag og vetrar far
vér ei klaga þurfum,
milt og fagurt mjög það var
margan dag af febrúar.

## Vestanbylur í marsmánuði.

Lætur gjalla lúður sinn,
látt ei skalla hneigir,
snæs þótt falli kull að kinn,
klettafjalla jötuninn.

## Ferðbúinn til Vesturheims.

Fyr eg aldrei fann, hvað hörð
  fátækt orkað getur.
Hún frá minni móðurjörð
  mig í útlegð setur.

Eftir hálfrar aldar töf
  ónýtt starf og mæði
leita' eg mér nú loks að gröf
  langt frá ættar svæði.

## Kveðja.

Gnauðar mér um grátna kinn
gæfu mótbyr svalur,
nú þig kveð eg síðsta sinn
sveit mín Aðaldalur.

Kveð eg vini, fyrða' og fljóð,
ferðar til ei hlakka.
Kærleik, dyggð og kynni góð
klökkur öllum þakka.

---

## Orkt í hafi nálægt Færeyum.

Með hugar sjón eg sé til þín.
sett í fornar skorður,
Ísland, feðra eyan mín
ærið langt í norður.

Hinzt að kveðja háfjöll þín
hindruðu ramar skorður
ástkær feðra eyan mín
út við skautið norður.

Nótt og þoka huliðshjúp
hélt mér fyrir hvarma,
þó var myrkvast muna djúp
mitt af skýum harma.

---

## Á Atlantshafi.

Kólgu æxlin kljúfast æ,
kemur straumfalls dalur,
eins þar bæxlum syndir sæ
siglureiðar hvalur.

Tekst honum liðugt töfra dans
takt við sæmeyanna,
rúm þótt iðra hýsi hans
hátt á þúsund manna.

---

## Á miðju Atlantshafi.

Nú er oss fjarri fjalley há
vor fósturjörðin kæra,

þá miðju djúpi Atlants á
vér eigum hvílu væra.
Hér er það fátt, sem oss var
 tamt,
vor augu til að bæra,
en himin guðs er sami samt
og sólin undurskæra.

Oss gufu drekinn ruggar rótt
á Ránar yfirklæði
og drífur skriðið dag og nótt,
þótt Dröfn með súðum æði.
Hún nöldrar til vor: „Gleym
 þú, gleym
því gamla hafíslífi."
En andinn leitar heim,—já heim,
þótt hingað aftur svífi.

---

## Staka orkt í Quebec.

Skáldið hafði orðið fyrir skakkafollum á fargjalds-reikningum heima, og leiðrétti B. L. Baldvinsson þau þar. Þá orkti hann þessa visu

Mig á setti hraknings haf
 heimur prettafjáður.

þótt mér flettist fjaðrir af,
flýg eg rétt sem áður.

---

## Landtökuvonin.

Mér var ráðið rýrðar stand,
rúm þó vonin hefur,
að eg bráðum eignist land,
eins og þörfin krefur.

Þrot við ferðar fæst mér greidd
fylling þarfarinnar.—
Land, sem verður lengd og breidd
líkams grindar minnar.

---

## Fararskjóta munur.

Áður fákar fleyttu mér
Fróns á klaka brautum.

Nú eg dreginn óljúft er
  aftanvert á nautum.

---

## Kálfaleitin.

Kominn er eg í kálfa leit,
  kannske villtu sjálfur.
Þá að finna veginn veit
  varla meira' en kálfur.

---

## Maðurinn og uxinn.

Glöggt þú skilja maður mátt,
  miður hygg eg sæma,
að þú kallar alvald þrátt,
  uxann þinn að dæma.

Guð því aldrei gegna mun,
  geta hins eg kynni,

að hann heyri uxans stun
undir pinting þinni.

---

## Sléttueldur.

Vér þann skoðum víking nær,
vora byggð sem herjar,
á hans roða öldum hlær
undrun, voði og fegurð skær.

* * *

Bróðir storms um blóma sæ
byggðum voða gestur,
höfuðskepna allra æ
ertu tignar mestur.

---

## Sjálfbindari.

Sé eg hvelfættan
með hvössu saxi

ekru víking
eykum leiddan
skriðvang skera naðs
skæðan herja
bænda liði gegn
bleikhödduðu.

Vegr hann að fótum
vopnleysingja
og bútar títt
með braukan háværri,
föllnum jafnhraðan
fyllir arma,
læsir í læðing
og á láð kastar.

---

## Hveitiræktin.

Binda hnúka ber við ský,
bænda lúkur fyllast,
hveitisjúkar sálir í
sveittum búkum tryllast.

---

## Hveiti trauðla treysta má.

Hveiti trauðla treysta má,
táldræg bauð það gæði,
þreytu dauða flestir fá
fyr en auð og næði.

---

## Stráhríðin.

Næðir á oss næsta hart
norðan hávær stormur,
ljósin bráa blindar snart
böndulstráa élið svart.

---

## Til þreskivélar,

sem var að fara út í þreskingu.

Farðu heil á happa stund
hjóla tröllið þarfa,

hveitibænda flutt á fund,
fljótt og vel að starfa.

Þá, sem stjórn þíns starfs er léð,
styðji æðri kraftur,
sigurhrósi' og heiðri með
heil þú komir aftur.

---

## Um þreskivél—í myrkri.

Reykjar stroka gneistum glædd
gýs í loft frá svæði,
blökkusnótin brynju klædd
blæs af hita mæði.

---

## Í þreskingu--yfir borðum.

Bindast orða bátt eg á,
blóð um diska lekur,
Esplins borð með ætin hrá
óbeit manni vekur.

---

## Storma guðinn gramur er.

Storma guðinn gramur er
gripa sveltir blakka
og með krafti okkur ver
Esplins þreskja stakka.

Esplins þresking ógreið sést
ollir storma plága,
næturvinnan notast bezt
næturdraugnum gráa.

---

## Um þreskivél--á ferð í snjó.

Hrefnan eins um brannir snæs,—
hreyfð með undra krafti,—
þéttum reykjar bólstrum blæs.
Brennur glóð í kjafti.

---

## Til þreskjara,

er sváfu fram á dag í hríðarveðri.

Hér er dauða deyfð í sal,
degi menn ei fagna,
því mun ráð að ryðja val,
reisa lík og magna.

## Um stóran hveitipoka.

Krafta slítur kjúkum frá
kyllis báknið illa,
bænda hít sem barma á
bushel þrjú ei fylla.

## Vottorð.

Verkfæra auglýsing fyrir Kristján Jónsson.

Nú reisa sig kornstanga höfuðin hátt,
en hærra þó bændanna vonir sér lyfta.

Menn sækja til Baldur úr sérhverri átt,
því sérlega gott er við Kristján að skipta,
hann sjálfur er bóndi og séður á flest,
af sjálfs reyndum jarðyrkju verkfærin dæmir,
hann vill ekki þurfa að berja í brest,
en brestina sínum af markaði flæmir.

Og bóndinn, sem kemur og bindara þarf,
hann bendir á *Deering*. ,,Eg verkið hans þekki,
það borgar sig karl minn við kornskurðar starf
að kaupa þau áhöld, er svíkja mann ekki.
Eg átti *McCormick* og segi þér satt,
að sáryrði bitur lét ,stúkkarinn' hlaupa,
því *McCormick* færra af bindunum batt,
eg brallaði honum, en *Deering* vil kaupa.

Eg *hveitiband Deering* hið traustasta tel
og tek það, ef falt er, á markaði þínum,
og *sláttuvél Deering* mér vafalaust vel,
hún vinnur af prýði hjá nágranna mínum,
og *Gray* er hið þýðasta *buggy* á braut
og brunar sem elding, þótt folald það dragi,
en traust eins og klettur í torfæru þraut
með töfrandi fegurð og nýasta lagi.

Og *Cockshutt* er plógur, sem vinnur það
verk,
er vandaðast sé eg,—já afbragð hið mesta,
og öll eru verkfærin eindæma sterk,
en útlitið smekklegt og verðið hið bezta.
Þeir eiga þau Jóhannes, Andrés og Björn
og álitið þeirra kýs margur að heyra,
þeim er ekki skrök eða skrumsaga gjörn,
þeir skoða þau afbrögð, og hvað þarf svo
meira?"

---

## Hinn almáttugi dollar.

Eg hefi' fundið alvald einn
almáttugan vera,
víst mun dollar verða seinn
verk hans öll að gera.

Dollars megn það mest eg fann,
myrkra valdi knúið,
að frá guði hefir hann
hjarta mörgu snúið.

Alvalds gjöf eg auðinn fann,
að því gættu maður,
geysiafl því góða hann
gefur, rétt notaður.

Mun svo dollars mátturinn
mest til gagns þér vinna,
að *þig hans*, en *hann ei þinn*,
herra megi finna.

---

## Reykdælingsvísur.

[Sveitarblaðið „Reykdælingur" flutti eitt sinn greinarstúf á donsku. Sama blað hafði skommu áður flutt myndarlega grein um Egil Skallagrímsson. Þá orkti höf. þessa vísu]:

Nú er Egils nídd oss frá
norræn tungu snilli,
„Reykdælingur" rölti á
ropar af dönsku-fylli.

[Útsendinga-maður „Reykdælings" fyrirbauð að láta blaðið koma inn á heimili höf. er hann sá þessa vísu. Þá orkti hann þetta]:

Tjái' eg lof þeim tók og gaf,
til þótt kenni hjarta stings,

sankti Páll mig setti af
sakramenti ,,Reykdælings."

---

## Vísa Þormóðar Kolbrúnaskálds.

„Undrast eglis landa“ o.s.frv

Undrast svanni að, sem nár,
er eg þannig bleikur,
fegurð manna farga sár,
fleinn mig tannað hefir blár.

Skeyti búið banvænt trað
brjóst víglúið gegn um,
magni knúið myndi það
minn í smjúga hjarta stað.

---

## Vísa Gunnlaugs Ormstungu.

,,Væna á ek verst at launa" o.s.frv

Þínum, falda fögur gná,
föður og móður líka

böl eg gjalda grimmast á,
glaður aldrei héðan frá.

Því að logar bála bil
bæði í næði hvíla, —
tröll það hagleiks hafi spil, —
helzt of fagra bjuggu til.

---

## Vísur Grettis Ásmundssonar.

„Gekk ek í gljúfrið dökka"; og
„Ljótur kom mér í móti."

Geist eg svam í gljúfrið svart,
gein við steina burður,
skáldið hvam á herðar hart
hrönn og framan brjóstið snart.

Helli vinur fálu frá
fótum Ljótur stýrði,
vann ólinur lengi sá,
laufa hvin við mig að há.

Höggvopnið, sem Hrímnir bar,
hjó eg þó af skepti

brjóst og kvið hins blakka þar
bjartur Sviðris logi skar.

---

## Við Þ. Jóhannesson.

Þótt vort lýist líf og kraftur,
ljóð fram knýum Steini minn,
þú hefir nýað okkar aftur
æsku hlýa vinskapinn.

---

## Við G. Þórarinsson.

Á oss fellur hélu hrím
heims við storma slögin,
samt eg þekki gamla Grím
gegn um élja drögin.

---

## Við ungan mann.

Æfðu þrátt þinn eigin mátt,
eigðu fátt þá slægu við,
sittu látt, en hyggðu hátt
hvar, sem áttu verka svið.

---

## Þrenningin.

Þess má enginn eiga von,
að eg lasta vilji
Bakkus, Lofn né Braga kvon,
braut þótt okkar skilji.

Þótt þau sjaldan lýða lund
laði bús til þrifa,
mér þau löngum styttu stund,
stirt þá féll að lifa.

---

## Dauðadómur Bakkusar.

Bana ráðning geist var gjörð
guði víns að helgum stalli,
andstæðinga ólin hörð
er nú strengd um háls á karli.

Hrafna krúnk og hana gjall
hátt í salar turni hvinu,
dæmdist rétt að kyrkja karl
kirkju fyrir altarinu.

Bakkusar mun bálför gjörð,
blossinn orða skjótt þótt falli,
linast máske lögin hörð,
losnar ól um háls á karli.

---

## Hátíða messufall.

Jóla gleðin helg oss hjá
 heimsins vefst um glingur.
Guðsþjónustu gleymir þá
 guða málfræðingur.

Tíma skipti honum hjá
heita daglegt glingur.
Fyrsta degi ársins á
ekkert gott hann syngur.

---

## Í tvöföldu myrkri.

Yfir plágu myrkra mér
mögla tjáir eigi,
æ eg þrái gegn um gler
geisla sjá af degi.

Þó má svala þreyttri sál,
það eg skal íhuga,
við þig tala trúar mál
tignin almáttuga.

---

## Æskan mín.

Mitt æsku líf var aldrei morgun tími,
því aftangola næddi jafnan köld,

gegn éli dauðans hlífarlaus eg hými,
mín hérvist öll er dapurt skugga kvöld.

---

## Ílla notað æfi vor.

Ílla notað æfi voı
er mér bríxlis keyri,
óvíst loks hvort á eg spor
yfirsjónum fleiri.

---

## Mitt er sofnað sálar fjör.

Mitt er sofnað sálar fjör,
særa fjötrin hörðu,
mannlífs rauna köldu kjör
krippling andann gjörðu.

---

## Strandið.

Knör með sprunginn hætt eg hrekst
heims við klungur fjöru,
á mig drungi dapur legst
dauðans þungavöru.

---

## Mitt er skeið á ringulreið.

[Hof. var spurður hvert hann væri að fara, og svaraði hann með þessum vísum]:

Lífsins neyð mér löngum sveið,
lítt þó beiðist tafar.
Mitt er skeið á ringulreið
rakin leið til grafar.

Hér eg bíð við hættu stríð,
heimskan þýðist vana,
lífs því kvíði langri tíð
langtum síður bana.

---

## Ferðalagið.

Minn uxagang nota í veröld eg verð,
en við það ei sálina festi,
eg létti mér upp, þegar líkur hér ferð,
um ljósheim á vængjuðum hesti.

## Er það mögulegt.

Fær minn andi endurbót
æfi hraknings tíðar?
Getur skeð að reirs af rót
rísi pálmi síðar?

## Afsökun.

Hug minn grálitt hjúpar ský,
hróðrar stjá það letur;
liggur dái andinn í,
eins og strá um vetur.

## Vinar komu von mig þraut.

Vinar komu von mig þraut
vörm þá kvaddi sólin.
Oft á vestur bárust braut
brúna minna hjólin.

## Margur auðugs hús í hnýsir.

Margur auðugs hús í hnýsir,
hressing bauð þar krydduð lind.
Til hins snauða fáa fýsir,
finnst þar dauðans beina grind.

## Yfir gripahjörð.

Einn við hala hjörð eg gala,
hund og malinn við mig gleð,
eins og smalar Íslands dala
engu talinn fólki með,

## Andlegir steingjörvingar.

Lítils met eg mælsku glaum,
meira þarf að skoða.
Hvort mun betur standa straum,
steinn eða hreykin froða?

---

## Hringgjöfin.

Bræðra höndum borinn á,
braga gerð sem hlynna,
gulli sæmdur fer eg frá
fundi vina minna.

---

## Stjörnuhvarf.

Farga öllu forlög þrá,
fyr er glatt nam skína,
vesturfjöllin hylja há
hugar stjörnu mína.

---

## Morgunstjarna.

Dimman lundar akur á,
yrju böls að varna,
suðurlofti ljúfu frá
ljómar morgunstjarna.

## Við stúlku.

Nú er dagur skíninn skær,
skal ei harmur þjá mig,
hefi' eg fagurhærða mær
hlakkað til að sjá þig.

## Við draumkonu.

Æ, láttu nú minn sæludrauminn sannast
og svásum kossi þrýstu' á varir mér,
því við mig æ, sem vin þinn, muntu kannast
og vin að kyssa saklaust gaman er.

## Það er frá þér að eins ein.

Það er frá þér að eins ein,
er eg kýs mér vinar gjöf,
láttu fá, en hlý og hrein,
hrynja tár á mína gröf.

---

## Kveðja.

Eg kveð þig Björg með línum ljóða,
því ljóðin síður gleymast þér,
og kynning þér að þakka góða
skal þægt verk mér.
Eg finn hér skarð í flokkinn svanna,
er forlög burtu hrífa þig,
þér lýsi guð og lukkan sanna
um lífs þíns stig.

---

## Fyrirburður.

[Sömu stúlku bar fyrir skáldið í draumi á sama stað og þau höfðu kvaðst litlu áður; þótti honum hún þá vera náföl og döpur í bragði. Þá kvað hann:]

Sjöfn hafglóða sá eg, hvar
síðast rjóð mig kvaddi.
Nú í hljóði hugraun bar,
horfið blóð úr kinnum var.

Dul þótt standi dísa spá,
draums er vandþýdd gáta,
líkams bandi leystur frá
leitar andinn fund vorn á.

---

## Aftur hönd þín hög ei fæst.

[Stúlka, sem ætlaði að flytja í fjarlægð, stýfði hár skáldsins. Orkti hann þá þessa vísu:]

Aftur hönd þín hög ei fæst,
hári þótt eg safni,
máske gröf og moldin næst
mína lokka jafni.

## Hjá mér veik er hliðin sú.

— —

[Stúlka bað höf. að gera fyrir sig kvæði. Þá kvað hann þessa vísu:]

Hjá mér veik er hliðin sú
hýrri snót að neita,
mig í fjötur færir þú
flutta bæn að veita.

---

## Hrörnun.

— —

Hált er svellið heims um stig,
hans má brellur skilja.
Gigt og Elli glettnar mig
gröf í fella vilja.

Gang minn heykir gigt ósmeik,
gekk eg hreykinn áður.
Elli bleik mig lýr í leik,
lífsins veikist þráður.

---

## Hel mér knappan haslar völl.

Hel mér knappan haslar völl
hristir vopnin þungu,
lífs mig bila áhöld öll
augu, tannir, lungu.

---

## Flutningur.

Mitt að hrekjast álag er,
ellin þrekið skarðar,
þar til ekur einhver mér
undir þekju jarðar.

---

## Vísur orktar 29. des. 1899.

Eg hefi' ætíð eignasmár,—
auðs því veiðum gleymi,—
fjórum sinnum fimmtán ár
flækst í þessum heimi.

Engan vaxinn á eg son,
er við starf mig hvíli,
mín er elliathvarfs von
að eins grafar skýli.

---

## Hvimleitt flest við elli er.

Hvimleitt flest við elli er,
eitt mig sárast heggur,
engin framar meya mér
munn að vörum leggur.

Líkt og mosa lagður steinn
lízt eg augum snóta,
Freyu kött ei fýsir neinn
framar á mig þjóta.

---

## Á leið til heimboðs.

Mín þótt flækist lúruð lund
lífs við hækju ganginn.

tryggðarækin tek eg stund
til að sækja vina fund.

---

## Skapferli.

Allt hvað finn eg of gott mér
aðrir vera hyggja,
nauðung mín og andstyggð er
af þeim slíkt að þiggja.

---

## Fylgdarkaupið.

Austri frá við háa hlíð
hlógu röðulgeislar skærir,
glóðu daggar dropar tærir,
angan sendu blómin blíð,
þar und björtu brúðar enni
blika leit eg stjörnur tvær,
þá eg vendi veg frá henni
varman geisla sendu þær.

Vífs um fögru vanga þá
varmar spruttu dreyra rósir,
háls mjallhvítan lokkar ljósi
rituðu gylltar rúnir á,
til mín leit hún ljúf í svörum,
líkust gyðju himni frá.
Mér var kært af meyar vörum
mjúkan kossa teyg að fá.

---

## Stúlkan mín.

Auðarfreyan ungra meya
ertu prýðin hér,
lokka safn þitt ljósa
litur vanga rósa
fremstu fegurð ber.

Létt í spori lífs á vori,
limafríð og nett,
höndin hröð og lipur,
hýrt er bros og svipur,
vaxin vel og rétt.

Viðmótsglaða, góðhjartaða
gullbaugs unga hlín
heill og blessun hljóttu
hér, en síðar njóttu
sælu, sem ei dvín.

---

## Það batnar og hverfur.

Þá leiðinda gremja með hugraun og harm
að hjarta mér sverfur,
mín ástkæra mey við þinn blessaða barm
það batnar og hverfur.

---

## Andvaka.

Þú sjónar auki sárra mótlætinga,
er svefni bægir grátnu auga frá,
þú bitur skeyti brjóstið lætur stinga
og blæða und, sem manna enginn sá.

Hið liðna margt í leyniskuggsjá þinni
þú lætur hvarfla fyrir hugar sjón,

og sýnir flest er særa hjartað kynni,
og samvizkunni auka friðar tjón.

Þú ýmist lætur andann frjálsan líða
um óska sinna friðsælustu mið,
eða hörðum böls í hlekkjum bíða,
þars byrgir gleði harma náttmyrkrið.

---

## Kólnuð ást.

Harður kuldinn hrífur þá,
heitt sem reyndu áður,
hita mælir ástar á
eru næmar gráður.

---

## Mannskaða frétt.

Mjög er feigðar myrkva sveipt
mannsins æfi lína,
nú hefir æga gjálpin gleypt
góðkunningja mína.

Harmur þrengist hjartað gegn,
hreyfing mælsku dvínar,
aldrei sárri fluttist fregn
fyrir hlustir mínar.

## Við Jón Hinriksson skáld.

Þegar lúinn lýðs frá sjón
legg eg reisu mína,
láttu stutta stöku Jón
stíla tungu þína.

Jón svaraði á þessa leið

Þitt við endað æfi stríð,
ef eg stend á velli,
málvins endurminning blíð
mér skal benda' á liðna tíð.

## Staka.

Færum hrós því hefir gjört
höndin föður alda.—
Skæru ljósi blika björt
blysin röðultjalda.

# VI.

## EFTIRMÆLI.

---

### Hólmfríður Indriðadóttir,

frá Hafralæk. — Hún var trúkona mikil og skáldmælt í betra lagi.

---

Nú hefja sigur söngva mál,
þeir sæla æðst er fengin.
Úr veiku hreysi vegleg sál
í vist með þeim er gengin,
sem leit á himni lofað hnoss,
er lausnar stundin kæmi,
en frelsarans við kæran kross
hér kraup að Hallgríms dæmi.

Hún rækti vel sinn verka hring
og vann, sem kraftar leyfðu,
þótt mótgangs öldur ýfðust kring

og andstæð kjör sig hreyfðu,
á trúar vængjum vonglöð sál
um vöku nótt réð svífa,
og hóf í ljóðum hjartans mál
við hátign guðs eilífa.

Með nægjusamt og góðfúst geð
hún gjafir drottins þáði,
að deila litlu mörgum með
hún margoft reyna náði.
Sín efni guð að blessa bað
og börn sín þannig vandi,
hans lofgjörð, bæn og þökk var það,
sem þýddist hennar andi.

Þótt döpur ellin deyfði sjón,
er dró að síðsta blundi,
var bjart um andans blómríkt frón,
við birtu þá hún undi,
því andinn dýrðar sjónir sá,
er sálar þrekið nærði,
en hagmælt tungan hugsun þá
í hætti ljóða færði.

Um langa tíð sinn líkams kross,
með ljúfu bar hún geði

og virti meir það vonar hnoss,
sem vakti andans gleði.
Að eftir stranga stundar raun,
ef stríðið trú hún þreytti,
sinn friðþægjari loks í laun
sér lífskórónu veitti.

I gegn um dauðans dimma él,
þótt draums í líking væri,
hún þóttist sjá og þekkti vel,
að það var herrann kæri,
sem henni frelsis faðminn bauð
og friðar boðskap lýsti,
en leystri sál frá líkams nauð
sér ljúft að hjarta þrýsti.

Og heill sé þér hin sæla sál,
er sigri nú munt hrósa,
þú varst í heimi svo forsjál
þér sannleiks veg að kjósa.
Já, heill sé þér í himins dýrð,
þú helgan lofsöng kveður.
Þar finnst þín sjón að fullu skýrð,
þig friðsæld eilíf gleður.

---

## Benidikt Björnsson.

Hér er lokið leið
og lúinn hvílist
fjarri fósturjörð
ferða maður.
Hans er lokið leið,
sem löng var orðin,
gegn um mæðu mergð
og mannlífs raunir.

Heim er kallaður
af konungi friðar
stríðsmaður trúr
að starfi loknu.
Fyrri lét hann líf,
en liðhlaupi færi,
undan drottins
og dyggðar merkjum.

Kring um hann féllu,
sem klett í hringiðu
trúar grufls straumar
tíma vorra,
æ var stefna hans
ein og hin sama

vonar ljóss á leið
að landi friðar.

Mennta frækorni
mörgu hann sáði
heima' á ættjörð
í ungmenna hjörtum.
Tendraði guðs ljós
á trúar arni,
er lýsa mætti þeim
g[illegible] um líf og dauða.

Fátæk var hans hönd,
en flugríkur andi
náms og minnis
af nægta gáfum.
Fróðleik margs háttar
um fornt og nýtt
græddi hann ávallt,
en glataði engu.

Útlagi fór hann,
sem ýmsir fleiri,
sökum fátæktar
af föður landi.
Fjarri hvíla bein hans
feðra gröfum,

en óðal sitt rétta
hefir andinn fundið.

Róleg var hans burtför,
sem röðull hnigi
hýr um haust kvöld
að hæða baki.
Geislar trúar ljóss
hins guðrækna hjarta
brostu til himins
frá hans bana hvílu.

Samfagnið honum,
en syrgið ekki,
ástvinir döpru,
sem eftir standið.
Hinir fyr förnu
fagnandi taka
anda heim fluttum
úr útlegð kaldri.

Já, heim er nú kvaddur
til hirðsveitar guðs
stórhæfur andi
til stöðu hárrar.
Skipaður í söngflokk

sælla anda,
er lof syngja' um eilífð
lífsins drottni.

---

## Sigurveig Jóhannesdóttir.

11. nóvember 1899

Hún sefur og hvílist, sem vakti og vann,
sem vildi hið góða og þarfa,
sem annara farsæld sér ánægju fann
við áreynslu skyldunnar starfa.

En skyldan var margbreytt og skeiðið
var langt,
en skyldurækt hennar ei breyttist.
Já reynslan var margbreytt og stríðið
var strangt,
unz starfskraftur líkamans þreyttist.

Sem kona og móðir hún vakti og vann
og velferðar barnanna gætti,

og hvar sem við bágstadda færi hún
fann,
hún fúslega mein þeirra bætti.

En sálin og hjartað og höndin varð
þreytt
og hörð var og þreytandi biðin,
en drottni sé lof, nú er dauða stríð
breytt
í dýrðlega himneska friðinn.

Og dauðans þótt él væri dimmt mjög
og hart,
hinn dýrmæti sigur var unn[illegible],
því grafar að skýanna baki var bjart
og betra lífs dagur upp runninn.

Til himneskrar sælu var sál hennar fús
og sérhverjum okkar það bendir.
Hún kveður sín ástmenni, kveður sitt hús
og kveðju til vinanna sendir.

Þótt horfinn sé vinur af hérvistar braut,
til heimsvonar æðri vér snúum,
vér samfögnum henni, að sigruð er þraut
og sömu til ferðar oss búum.

---

# Ekkjan við gröfina.

Hér nemur staðar fámenn fylgd þín vinur,
sem fjala beði dökkum hvílir á.
Af sárri líðan lengur ei þú stynur,
því lausn er fengin dauða stríði frá.

Þitt dimma svefnhús sé eg opnað vera.
Mín síðsta kveðja eru þögul tár.
Eg græt hér ein — já, ein eg hlýt að bera
til æfi kvelds mitt djúpa hjarta sár.

Þig ástvin traustan átt um stund eg hafði,
það ei mér fyrnist meðan hjartað slær,
þín nákvæm hyggja veikleik minn umvafði,
sem viðkvæm móðir barni hjúkrað fær.

Þú lézt þér annt að lina þjáning mína
og létta hverja mæðu, sem eg bar,
en hels ei líðun linað fékk eg þína.
Ó, lífsins guð, hvað hjarta mitt það skar.

Nú sé eg lokað svefnherbergi þínu,
hin svarta mold að hvílu tjaldi er.
Þig vefur gröfin vært í skauti sínu.
Mín vörmu tár, sem blómsveig gef eg þér.

Um perlur slíkar heimur neitt ei hirðir,
en hjarta míns það tryggða vitni ber,
og andi þinn, sem ástarpant þau virðir,
með öndum ljóss hvar sæll og frjáls hann er.

Hvað löng, sem verður leiðin daga minna,
þín lifir minning hjarta mínu í.
Minn vinur kær, eg vona þig að finna
í veldi ljóss á bak við grafar ský.

## Benidikt Einarsson.

Hér fylkist saman fjöldi manna hljóður,
er föður dapran sjá og hrellda móður,
og fjarstödd systir hugsar hingað grátin,
þau harma einkason og bróður látinn.

Og andvörp þung frá ekkju stíga barmi,
sem unga dóttur ber á veikum armi.
Þau öll af hjarta ástvin kæran syrgja,
sem innan stundar gröfin myrk skal byrgja.

Hans stutta æfi stund var þrauta ganga,
en starf hans vandað hefir þýðing langa,

hann gekk með reglu góðan veg og beinan,
að gjöra rétt og tala sannleik hreinan.

Hans æsku líf var ungum fagurt dæmi,
hann æfði það, sem vel til nota kæmi,
í veiku skýli var þar sál, eg meina,
sem villigötu heims ei þýddist neina.

Og hér er skarð, þótt veikur skjöldur væri,
og von að harmur þreytta ástmenn særi
Það vonar ljós, sem vakti þeim í hjarta,
nú virðist hulið grafar myrkri svarta.

En vonar ljósið lifir þeim í hjarta,
það lýsir bak við grafar myrkrið svarta.
Og drottinn sagði: „Sá þið harmið lifir,
eg sýndi vald mitt dauðans krafti yfir."

Og hér var þreyttum þörf á hvíldar blundi,
er þrautum beygður langar tíðir stundi,
og missti værð svo margar daprar nætur,
því mannleg hjálp fékk ráðið engar bætur.

En stillt var lund og stöðugt sálar þrekið,
hinn sterki dauði fékk það aldrei tekið.

Hið síðsta fet með sigri nú er stigið,
og sjáið, hér er drottins krossbarn hnigið.

Eg lofa guð, minn góðkunnugi vinur,
í greipum dauðans lengur ei þú stynur.
Nú signir friðar sólin hvílu þína
og sælu geislar anda þínum skína.

Vér hressum geð, það hlítir ei að kvarta
þótt harma örvar standi djúpt í hjarta,
frá lárri gröf oss lyftir trúar kraftur
á ljóssins hæð, þar vinir finnast aftur.

Og þið, sem standið þreytt á grafar barmi,
og þráið kæran son með beiskum harmi,
æ verið hress, það verður skammt til fundar
og vel er þeim, sem guðs í friði blundar.

Svo kveðjum vininn vonar ljósi gladdir
á vorum eigin grafar barmi staddir,
en veginn grafar leið til lífsins teljum,
og lífsins orð til stuðnings okkur veljum.

---

## Sigurveig Jóhannsdóttir,

bróðurdóttir skáldsins.

Hér skilur vora vegi,
þótt vitum gjörla eigi,
nær dregst að dauðans nótt.
Á braut til grafar búin,
því blóminn lífs er flúin.
Þú systir kæra sefur rótt.

Þú ferð í drottins friði.
Vér fylkjum vina liði,
að sjá þig síðast hér
og kveðja lík þitt látna.
Því lýsir brá vor grátna
að sárt og djúpt þín söknum vér.

Þú hvarfst í blóma beztum
og bundin vanda mestum
við móður stöðu starf
úr félags flokki manna,
úr faðmi ástvinanna.
Hve sorglegt gleði sólar hvarf.

Hér leið þitt líf í friði,
þú lærðir góða siði
og varst að breytni vönd

með tryggð og táll͏aust hjarta
með trúar hugsjón bjarta
með skarpa sál og haga hönd.

Þín raun var löng að líða,
þitt líf við dauðann stríða
var eldraun sár að sjá,
en nentug hvíld er fengin,
nú heyrist stuna engin,
því hjartað þreytt er hætt að slá.

Þá sorgar sárin blæða
um sorgar efnið ræða
er hjarta svölun hrein.
Það sorgar sjón má heita,
en samt þó huggun veita,
er dauðinn læknar dauða mein

Í skúra skýum harma
er skyggðu vonar bjarma
vorn hressti hug að sjá,
að svæfðum sjúkdóms loga
þann sigur friðar boga,
sem hvíldi þínu enni á.

Vorn léttir harm að líta
þitt línið mjallahvíta,
það bendir okkur á,

að barns í búning hreinum
frá böli leyst og meinum
sig gleður sál þín guði hjá.

Þín móður ástin milda,
þín móður stöðu skylda
þar nú fær notið sín.
Þín fyrst og æðst mun iðja
með okkur drottinn biðja
að leiða blessuð börnin þín.

Svo förum guðs í friði
með fylktu vina liði
að fylgja þangað þér,
sem leið vor allra liggur,
þar lúinn hvílu þiggur,
vor grafar leið til lífs þó er.

Og lof sé lífsins drottni,
þótt lífs vors reirstrá brotni
í rót þess leynist líf,
það varpar vetrar dróma
á vori eilífs blóma
og berst ei meir við bana kíf.

Þótt skilji vora vegi
er vonin myrkvuð eigi -

ið helga himinljós,
oss vísar veg þess kraftur
til vina fundar aftur.
Þá breytist sorg í sigur hrós.

## Þóra Sigurðardóttir.

Þá guðleg sólin geislum hlýum
á gróðann jarðar skinið fær,
en sveipast brátt í sorta skýum,
það sýnir lífsins hliðar tvær.
Því gleðin vor er harmi háð
og harm fær gleðin burtu máð.

Hinn svarti flóki sól þá hylur,
vér söknuð finnum brjósti í,
en sérhver líka ljóst það skilur
hún ljómar þá á bak við ský,
og þegar skýið færist frá,
í fegurð nýrri skín hún þá.

Hvað árla dags hér ský á skyggir,
að skarð svo hörmugt lítum vér,

það sérhvern góðvin hennar hryggir,
sem húss var ljós og skjöldur hér,
en blundar nú, sem bliknuð rós,
með blíðleg slokkin harma ljós.

Og hér mun ekkert ósárt hjarta,
sem áður henni kunnugt var,
en til hvers er að tjá og kvarta,
vér tökum því án möglunar,
og kveðjum hana hinzta sinn
með hjörtu klökk og tár á kinn.

---

## Helga Sigurlína Pétursdóttir.

Í fanna hjúpi falin,
af frosti vetrar kalin
sig beygir blómrós fríð.
Hún sýnist dauð, en sefur
þar síðar raun á gefur,
að vekur hana vorsól blíð.

Vér bliknað blóm hér lítum
og búið línhjúp hvítum

af næðing dauðans níst.
Vor ættlands rósin unga
hér átti krossför þunga.
Á betri stað hún blómgast víst.

Þín saklaus sálin hreina,
er sárra kenndi meina,
þá holdið leið svo hart,
hún beið með biðlund styrkva,
því bak við dauðans myrkva
hún leit hjá guði ljósið bjart.

Þú ljóssins barnið blíða,
sem búin ert að [illegible],
og laus við líkam[illegible]
með sigurfána fenginn,
til frelsis vistar gengin,
nú lofar guð þín unga önd.

Sá friðar geisli fagur
þinn frelsisröðuldagur
var guðleg nýárs gjöf.
Með hjartans söknuð sárum,
en samt með gleði tárum,
skal fölu blómi fylgt að gröf.

Þá harmur hjartað vefur,
oss huggun vonin gefur,

[illegible] vonin guðs er gjöf.
Sú von á vina fundi
að vakna hels af blundi
er hafin yfir *hel* og *gröf*.

## Rannveig Jósepsdóttir.

Undir nafni Jóseps Davíðssonar, manns hennar.

Nú hallar yfir hæð míns æfi blóma,
mín hönd og sál við lífsins stríð er þreytt
við kulda heimsins, harða norna dóma
og hjarta sár, er dauðinn hefir veitt.

Mig studdi lengi höndin móður hlýa
og hennar kærleiks röðull jafnt mér skein,
að víkja frá mér skuggum rauna skýa,
að skýla mér og græða sérhvert mein.

Hún glæddi ljósið guðs í mínu hjarta
og gaf mér heilráð bezt, er vissi hún,
að væri það mín vega stjarna bjarta,
svo vélti mig ei heimsins töfra rún.

En nú er kólnað hjartað ástarhlýa
og höndin stirð, er jafnan hlúði mér,
og valt er oft í vina skjól að flýa,
þá viðkvæmt móður hjarta brostið er.

Minn verndar engill varstu, kæra móðir,
svo vel mér liði barstu stranga önn,
og hvar, sem fór eg fjörs um daga slóðir,
mér fylgdi ást þín holl og dygg og sönn.

Í stríði lífs með styrka sál og hendur
þú stóðst og varðist langa æfi stund,
unz friðar boði fram gekk til þín sendur
og festi þér á hvarma væran blund.

Sú morgunstund mun hrífa æ mitt hjarta,
er hress þú virtist rísa beði frá,
og gekkst að skoða daginn drottins bjarta,
og drottins vald að fela líf þitt á.

Þann fagra sið þú æfðir morgna alla,
og ungum mér þá kenndir reglu brátt,
við dyr þíns húss á drottins nafn að kalla,
og dagsverk þitt að byrja á þann hátt.

En blítt kom svar mót bænar orðum þínum,
frá byggðum ljóssins þessa morgunstund:

„Nú rennur þér upp sól í sölum mínum,
þín sál er leyst og kvödd á guðs þíns fund.“

Þótt fámenn væri fylgd til grafar þinnar
og fátt þar mælt að ytra helgisið,
þér færði eg úr fylgsnum sálar minnar
þá fórn, sem þakklátt hjarta kannast við.

Mitt þakklátt hjarta þrungið duldum harmi
við þína gröf í barmi fann eg slá,
þótt fá mér sæist falla tár af hvarmi.
Þau frostið stöðvar köldum dögum á.

Minn fyrsta blund eg fékk í örmum þínum,
mitt fjörið veika nærðist við þinn barm.
Þú hvíldir síðast föl í faðmi mínum
og festir þar hinn síðsta blund á hvarm.

Í hjarta mér sá vonar geisli vakir,
að veg mér greiði bæn þín drottni hjá
og mig þú loks í móðurfaðm þinn takir,
þars megni dauðans lífið sigrast á.

———————

## Nanna Helgadóttir,

dáin 30. ágúst 1900.

Hví er nú svo dapurt og húmleitt og hljótt
og hugin öll glaðværð í blund,
þars áður hún vakti og ríkti svo rótt
með risnu og mannúðar lund,
en nú er þar skuggi af náblæum svörtum
og neyðast fram andvörp frá syrgjandi
hjörtum.

Hins andkalda dauða af völdum það varð,
að visnaði nýþroskuð rós,
í húsblómstra lundinn því höggvið er skarð
og horfið svo gleðinnar ljós,
en faðir, og móðir og systkini syrgja,
því sortnaða ástvininn návoðir byrgja.

Og frændum og vinum er harmur í hug,
að hníga varð grafar í skaut
hin þýðlynda ungmey með þroskaðan dug,
sem þjáðist og hvarf svo á braut,
og starfþreyttum foreldrum styrkvænleg
höndin
er stirðnuð og vafin í helkulda böndin.

En svo fellur rósin, sem blómknapp sinn ber,
þá bitskörnum mætir hún ljá,

og prúðvaxna furan, sem allaufguð er,
við öxinni standast ei má,
en hulið í rót þeirra lífmagn þó leynist,
með lífgandi vorinu sést það og reynist.

Og hví skyldi mannsandinn láta sitt líf,
þótt leggist hans tjaldbúð í dá?
Mun lífgjafans alvalda hönd ei sú hlíf,
hvar heimkynnið rétta hann á
og mun ei sá eilífi kærleikans kraftur
vor kærleiksbönd helgustu tengja þar aftur.

* * *

Eg sé þú ert horfin og sæti þitt autt,
nú sefur þú rólega grafar á beði,
en blómið á vöngunum bliknað og dautt,
nú brosir ei við oss þín æskulífs gleði.

Þitt viðmótið fríða er minnistætt mér,
það myrkvanum létti og fálátu geði,
sem barn gat eg orðið og brosað með þér,
svo barnsleg og saklaus og frjáls var þín gleði.

Og fámálgur hlýddi eg harmfréttum þeim,
að helfjötrað væri og brostið þitt hjarta.
Það beið ekki kvöldsins að kalla þig heim,
varst kölluð um æfinnar hádegi bjarta.

En burt er nú þjáning og banamein grædd,
því burt sveif þinn andi frá jarðlífsins dölum.
Nú fagnar þú ljósbarna lífinu gædd
í lífgjafans eilífa hátignar sölum.

Nú eignast þú himneska frelsið og frið,
nú fullþroskast anda þíns menntunar kraftur,
og gott er að hvíla þar von sína við,
að vér komum til þín og skiljumst ei aftur.

---

## E. L. Goodman,

undir nafni ekkju hans.

Um myrka nótt þá mannlífs glaumur kyrrist
og mildur svefninn lokar flestra brá.
hann augu mín og fylgsni hugar fyrrist,
en fölleit sorgin stígur beð minn á,
hún fjötri sínum fast mitt hjarta vefur,
til fylgdar með sér andvökuna hefur.

Þær bregða ljósi liðinn tíma yfir,
þá leiddi mig hin trausta vinar hönd,
í hjarta mínu ljúf hans minning lifir,

þótt leysti dauðinn samvistanna bönd.
Nú ástar vorrar unaðs morgunroða
í endurminning glöð og hrygg eg skoða.

Þá sá eg heiðan himinn vona minna,
því hjörtu okkar bærðust tvö, sem eitt,
og ástar vorrar unaðsblómum hlynna,
var okkur ljúft, en skjótt var högum breytt.
Eg sá minn ástvin þunga þjáning líða
og þreyttan loks við dauðans atlög stríða.

Nú skyggir dapurt ský á mína daga,
en skjöldur horfinn brjósti mínu frá,
því nú er stirðnuð höndin snilldar haga
og hjartað dygga kalt og hætt að slá,
sem öruggt var gegn örðugleik að stríða
og aldrei virtist ráðaþroti kvíða.

Það hjarta, sem var hlýrri mannúð vakið
og hjálp í þrenging öðrum vildi tjá,
nú sefur það und sverði foldar þakið,
en sorgar þungi hvílir mínu á,
og ástar vorrar blómið æsku bjarta
nú ber eg ein, og þrýsti mér að hjarta.

En hönd er ein, sem hels ei máttur bugar,
við hana styð eg veikan móður arm,

og þangað vendi vonar sjón míns hugar,
það vægri gjörir söknuð minn og harm.
Þótt skýin frá oss skinið sólar taki,
vér skynjum, eins hún ljómar þeim að baki.

Eg bíð um nótt þá blundur gefst mér eigi
og bitur sorg minn rekkju nautur er,
unz lýsa fer og ljómar upp af degi,
þá léttir einnig til í hjarta mér,
þá finn eg hann, sem ljós og lífið skapti,
minn lífga anda himinbornum krafti.

Þá sé eg bak við sortann grafar skýa,
hvar sólar landið vona minna er,
og þangað heim minn hugur æ skal flýa,
þá harma myrkvi dregst að hjarta mér,
þar frelsuð sál míns ljúfa vinar lifir,
mín leið er þangað dauðans brotsjó yfir.

## Friðfinnur Jónsson.

Það lúta allir dauða, sem lifa hér á jörð,
en löng er oft sú glíma, já bæði löng og hörð,

en stundum fellur dáðríki stríðsmaðurinn harði
á stuttu andartaki, og fyr en margan varði.

Hann kvaddist burt í svipan, sem kveðjum vér
í dag.
Á kunningjum og vinum má líta sorgar brag.
Og heimilið hins látna með hjarta sárið djúpa
og húsin næstu' í kring um und sorgar blæu
drúpa.

Og byggð vor gjörvöll hljóðnar við borna voða
fregn,
en brjóstin ástvinanna af harmi lögð í gegn
því hér er horfinn skjöldur, sem hlífð þeim
veitti mesta,
og hjartað trygga brostið, er vildi þeim hið
bezta.

Og hér er fallinn maður, sem háði lífdags stríð
með hugar kjark og þreki um langa æfi tíð,
sem varði hús sitt örbirgð og var þar ljúfur
faðir,
sem virti sannan drengskap og leysti margra
kvaðir.

Hann kramdist ekki lengi und köldum dauð-
ans hjör,
en karlmannlega barðist á meðan endtist fjör,

frá starfi sínu hneig hann. því stríða vildi'
og iðja,
hann stynja að eins heyrðist og drottinn
hjálpar biðja.

Og drottinn heyrði bæn hans og dúr á augun
rann,
sá dúr er allri þjáning og böli firrir mann,
hinn væri grafar blundur, sem vís er fyrir alla,
og vel er öllum þeim, sem við góðan orðstýr
falla.

Já, bæn hans heyrði drottinn, nú birtir fyrir
sýn,
hins burtu liðna anda, þar frelsisröðull skín
og huggun er að stöðva þar hugsjón vona
sinna,
að horfinn kæran ástvin vér síðar munum
finna.

Í dýrðar sölum ljóssins nú finnur sál hans frið,
sem friðinn hér með réttu var jafnan kenndur
við.
Hans minning lifir blessuð í harmi særðum
hjörtum,
en harma tárin þerrast af vonar geisla björtum.

---

## Eyólfur J. Snædal.

Svörtu tjaldi sveiptist fljótt
salur vinda dags að kveldi.
Geystar skruggur glærðu eldi,
værðum hnekkti váleg nótt.
Hús og líf í voða var,
vitni þess er hægt að sýna,
var sem heyrðist brand sinn brýna
dreyraþyrstur dauðinn snar.

Þrumulostna þegar jörð
þungbrýnn dagur yfir lýsti,
árdags verk sín vinna fýsti
þreki búinn býlis vörð.
Einn hann svefni árla brá,
einn svo burt frá húsum vendi.
Hvernig bana bar að hendi
ekkert mannlegt auga sá.

Hér að maður hnýs þú sízt,
hér er ei vort starfa svæði.
Vort er líf á veikum þræði,
það er eitt, sem vitum víst.
Fátt þótt segi einum af,
er hann síðstu fótmál vendi,

efumst sízt hann andvörp sendi
guðs í náðar grunnlaust haf.

Heyrir ekki hyggja þín
hann í þrenging dauðans viðja
miskunarann mikla biðja:
,,Lífsins herra minnstu mín.''
Heyrir þú ei himni frá
hans til eyrna svarið líða:
,,Þjáða sál ei þarftu' af kvíða,
strax í dag minn frið skalt fá.''

Annað glöggt vor augu sjá,
auða sætið döggvað tárum,
hjörtu þrungin harmi sárum,
er sinn horfna ástvin þrá.
Níræð móðir nálgast gröf,
nötrar líkt og strá um vetur.
Kvaddi nokkur barn sitt betur
fram við dauðans dimmu höf?

Nýtum dreng er svift vor sveit,
sjást hans dáðrík iðju merki,
þreyttur dags af þungu verki
fékk hann hvíld í friðar reit.
Þeim, er sárast sakna hans
sólin drottins friðar lýsi,

huggi þau og veg þeim vísi
lífs að vonar landi manns.

---

## Jóhannes Oddson,

sem eitt sinn bjó á Ytrafelli í Þingeyarsýslu og fluttist
á gamalsaldri með börnum sínum til Ameríku.

---

Eg man það glöggt frá minni æsku tíð,
að mínum byggði föður húsum nærri
ein hetja traust, að heya lífdags stríð,
svo hans eg líka þekkti síðar færri.

Hinn þrekni vöxtur sýndi dáð og dug,
og drengileg var ásýnd hans að líta
og viðmót hans bar vott um fastan hug,
er vina tryggðir aldrei myndi slíta.

Eg sá hann vaða Laxár flúða flaum,
mér festist það í næmrar bernsku minni.
Um brjóst og axlir brotna lét hann straum,
en bifðist ekki fet af stefnu sinni.

Nei hver er það, sem þannig hættir sér,
og þreytir kraft gegn stríðu elfar falli?

Eg spurði svo og svarað heyrði mér:
,,Hér sérðu barn hann Jóhannes á Fjalli."

Og þannig klauf hann æfi stríðsins straum
og stefnu sinnar gætti þreklundaður.
Sig hrífa lét ei heimsins óra glaum,
í hópi vina sást þó jafnan glaður.

Jafnt hög og stórvirk höndin iðna var
og hagsýnt ráð að stjórna nýtu verki,
hann hverja þraut með þreki sálar bar
og þolinn stríddi undir dyggðar merki.

Að rétta öðrum hjálpar lægna hönd
var honum ljúft, þótt ríkur ekki væri,
að styrkja frið og félags heilla bönd
hann fús var æ við sérhvert tækifæri.

Og hans var dagfar hógvær lund og þýð,
er hjá því sneiddi nokkurn mann að
styggja,
en ljóðhög tungan lék við braga smíð,
sem lýsti findni traust og slétt að byggja,

Í trausti guðs hann treysti eigin dáð
og traust svo háttað kjark hinn bezta
gefur,

en iðju sinnar ávöxt fól hans náð,
sem alla lífsins krafta skapað hefur.

Sinn ástvin hvern við föður barm hann bar
og börnum sínum dýrmæt heilráð færði,
hann ljós og skjöldur lífi þeirra var
og ljósið guðs í sálum þeirra nærði.

Hinn dýra arf, sitt dæmi, þeim hann gaf,
því dyggðar merkið aldrei niður felldi,
hann fylgdi þeim af fósturjörð um haf
í fjarlægt land á æfi daga kveldi.

Og hár varð aldur hárið drífu hvítt,
en hraustmannlega tók hann móti elli,
því líf hans anda ætíð var sem nýtt,
sem íslenzk hetja stóð hann fast á velli.

En dauðans örvar enginn staðizt fær,
hann ótal launsát hefir þeim að miða,
og vorum stríðs á velli jafnt hann slær
hið veika barn og hraustan fyrirliða.

Vor þreytta hetja þannig hneig að grund,
en þjáning dauðans tók með prúðu hjarta
með glaðri von um góðvinanna fund
í guðs vors föður dýrðar ljósi bjarta.

Í verkhring sínum vann hann sóma krans
og vænti æðra lífs í betri heimi.
Hans börn og vinir blessa minning hans.
Frá bernsku tíð eg honum aldrei gleymi.

---

## Jóhannes Sigurðsson,

20. október 1894.

Við strangleika dauðans ei staðizt fær
neinn,
um starfhring sinn litast hann hraður,
og fellir á veginum einn eftir einn,
sem okkar var samferðamaður.

H[illegible]am hjá mér gengur og hrífur burt
hinn,
en hvíslar við eyra mér þetta:
,,Já búðu þig maður eg bráðum þig finn,
þér bikarinn sama að rétta''.

Hann spyr ei um aldur né atgervi manns,
né ástvina harmstunum skeytir,

en þó er sá kostur við harðýðgi hans,
að hvíld inum þjáðu hann veitir.

* * *

Vér komum hér áður á fjölmennan fund
í fagnaðar árgeisla björtum,
þá vorblíðan faðmaði grænklædda grund,
og glatt var þá ástvina hjörtum.

En blómin þau fölna, því breytið finnst
og bylting á mannlífsins högum. [allt,
Þótt hlýtt sé á vori, er haustið oft kalt
með hreggi og frostélja slögum.

Sá vinur, sem okkur hér fagnaði fyr
og flokk vorn með drenglyndi skreytti,
í svalfaðmi dauðans nú sefur hann kyr,
en svefninum fagnar hinn þreytti.

Og þreytt var hans líf undir þjáninga
er þverrandi lífs krafta mæddi, [kross,
og lausnin var anda hans ljúfasta hnoss,
er lífs vonin himneska glæddi.

Nú komum vér daprir að heimili hans,—
en haustblær í trjágreinum þýtur,—
og sjáum því fléttaðan sorgþyrna krans,
er sárum að skilnaði lýtur.

Vér fylkjum oss daprir að fylgjast með þér
vor framliðni góðkunni vinur,
með grátþreyttum ástvinum grafar að beð
og grátþrungið hjarta vort stynur.

Kom ljósengill vonar með lífsöfl þín hlý,
og lækna hin bölsærðu hjörtu,
og gef þeim sinn elskaða ástvin á ný
í alsælu heimkynni björtu.

---

## Gunnlaug B. Guðjónsdóttir.

Hún varð fyrir elding.

---

Dagur var áliðinn, dökknuðu ský,
dynjandi heyrðu menn loftelda gný,
skúrirnar féllu á fjölskreytta jörð,
fljúgandi leiftruðu eldskeytin hörð.
Hver hefir skjöld móti skotvopnum þeim?
Skelfa þau lífið um gjörvallan heim,

Sporum þá hröðuðu heimkynni nær
húsi frá nemanda smámeyar tvær,
dauðans þá engill sinn boga fékk bent,

brunandi eldingu til þeirra sent.
Hver hefir skjöld móti skeytinu hans?
Sker það eins lífþráð hins tignasta manns.

Helskeytis dyninn þá heyrðu sér nær,
hræddar til jarðar sér vörpuðu þær,
vonuðu fram hjá sér færi lífs tjón,
fólu sig guði og lokuðu sjón,
önnur—að líkindum—augnablik fá,
annarar helsvefninn lukt hafði brá.

Þannig oss sláandi banafregn barst,
bölsár þá foreldra hjörtunum skarst.
Rósin, að morgni sem vænleg svo var,
og vonirnar ljúfu um framtíð þeim bar,
lá nú að kvöldinu fjörvana, föl.
Fallvalt er lífið og margt er þess böl.

Grátið ei foreldrar. Guð okkar lífs
guð vor er líka í stríði helkífs.
Barn ykkar ávarp hans burt kvaddi hér:
„Barn mitt í dag skaltu vera með mér.“
Sviplega fallin þótt firrt væri önd,
féll hún í lífgjafans miskunar hönd.

Grátið ei foreldrar. Föðurhönd sú
frelsaða barnið sitt umfaðmar nú,

englanna líking hin unga fær sál,
ekkert sem blekkt hafði spillingar tál,
ljóssins í námsbarna flokki þar frædd,
fullkomnun sannleikans þekkingar gædd.

* * *

Undir nafni systra hennar.

Æ, hví er þannig skjótt um skipt.—
Að skilja drottins lög er þungt.—
Æ, hví er burt í svipan svift,
vor systir kæra, líf þitt ungt.

Við undum saman systur þrjár
um sólbjart æsku gleði skeið,
ei féll oss harma hregg um brár,
vor hugur léttfær engu kveið.

En bráðum sveif að sárbeitt él,
og sólin gleði hvarf oss þá,
það færði með sér harm og hel,
því horfin varstu okkur frá.

Sem elding hjörtu okkar sló,
svo óvænt dauða fregn af þér,
hún skarð í ættflokk okkarn hjó,
sem ei að fullu bætist hér.

En hjá oss vakir vonar traust,
þótt væri fá þín jarðlífs stig,

því elding sú var alvalds raust
til æðra lífs að kalla þig.

Þér fylgdi dapur hópur hér
til hvíldar síðast jörðu á,
en fylking engla fagnar þér
með frelsis lofsöng guði hjá.

Og hjá oss vakir vonin sú,
er veitir særðu hjarta frið:
Þar einnig fagnir okkur þú,
hvar aldrei framur skiljum við.

---

## Sigurveig Sigurðardóttir.

Þín lífs er mæða liðin,
sitt ljós og himins friðinn
þér gaf nú guð að sjá.
Þín leið var löng til grafar,
en ljósið frelsis gjafar
þinn andi gjörla ætíð sá.

Til hinztu hvíldar búin
af heimsins mæðu lúin

þú sefur bata blund.
Hér fékkstu hvíld að finna
í faðmi barna þinna,
og slíkt er grátblíð gleði stund.

Þú kæra ættjörð kvaddir
og kvíðalaus þig gladdir
við sonar fegins fund.
Þú þekktir ættland annað,
sem andinn hafði kannað.
Þú fannst að eftir stutt var stund.

Nú færðu frelsis landið
og friðar sælu standið
með heilli sjón*) að sjá.
Þú kveður ástmenn kæra,
er kærleiks tár þér færa.
Þín blessuð minning býr oss hjá.

---

## Kristján Sigurðsson.

Við komum hér að kveðja síðast þann,
sem kaldur nár til grafar borinn liggur,

*) Hún var lengi blind.

og vér, sem þekktum, vitnum rétt, að hann
oss vinur reyndist fyr og síðar tryggur.

Og þið, sem dýpst er höggvið hjarta sár
og hinzta sinni kveðjið ástvin kæran.
Þið fellið daprar fögnuð blandin tár,
að fékk hinn þreytti hvíldar blund svo væran.

Þið leggið síðast brjóst við föður barm,
þar bærist lengur trygga hjartað eigi.
Þið finnið stirðan starfi þreyttan arm,
er stríddi vegna ykkar lífs á vegi.

Já, þreytt var líf, er þrauta harður kross
svo þungt og lengi dauða slögum hrjáði.
Vér fögnum, vinur. Friðar sælu hnoss
þú fékkst nú loks að drottins gæzku ráði.

Þitt stríð var margt á stöðvum reynslu kífs,
þú stóðst æ fast og hugðir sízt á flótta.
Þitt stríð var hart þá hlekkir brustu lífs,—
já, hart og langt, en bauð þér hvergi ótta.

Þú hafðir von, að dauðans háreist dröfn,
sem dauðlegt eðli manns í gegn ei stendur,
hún flytja myndi friðar lands í höfn
þinn frelstan anda loks í drottins hendur.

Og það er fengið. Frelsis geisli klár
um fölnað andlit gefur slíkt til kynna,
og himins friðar blær um þínar brár
oss bendir þangað aftur þig að finna,

* * *

Horfni vinur heims af þyrnivegi
heim til guðs að hverfa ósk þín var.
Heill sé þér, þinn andinn ódauðlegi
allra meina lækning finnur þar.
Hafðu þökk míns hjarta fylgsnis innsta,
hlý var okkar samferð lífs um skeið.
Hér eg vel þér vinur kveðju hinzta.
Vertu sæll. Eg kem þá sömu leið.

---

## Lilja Jósafatsdóttir.

Haustið er komið með helsvipnum bleika,
halla sér blómin að skrælnaðri grund,
sorgarlag næðandi nákyljur leika
naktar á greinar í fölnuðum lund,
krenking og dauða vort líf einnig líður,
leiðin til grafar nú tíðfarin er,
heit eru tárin því hjörtunum svíður
hinzt þá að kveðja, sem elskuðum vér.

Þannig hér hvílir vor ljúfasta Lilja,
líkblæu hjúpuð á friðarins beð,
slokknuð er þjáninga þreytandi kylja,
það skyldi hressa vort sorgdapurt geð.
Sál hennar frelsarans faðmlagi vafin,
flutt er úr mannrauna hrjóstugum dal,
æðra og betra til hlutskiptis hafin
himneskrar gleði í ljósprýddar sal.

Dauðans og grafar ei skelfi oss skuggar,
skammt er til funda og dagsbrúnin skær,
vonin á hausti um vorið oss huggar,
vonin um lífið í dauðanum grær.
Horfum því bölstrauma öldurnar yfir
ástvinir döpru, sem harmar nú sá,
þangað, sem hjartkæra liljan vor lifir
lífgjafans eilífa blómjurtum hjá.

---

## Siggeir Hannes Björnsson.

(Fæddur 20. mars 1877. Dáinn 20. mars 1895.)

---

Eg litast um blómríkan búanda garð,
þar brosir við kornsléttan græna,
þó sé eg, að hörmulegt höggvið er skarð
úr húsblómstra kransinum væna.

Þar foreldrar daprir og dóttirin ung
á daglega skemmtun ei hyggja,
og yfir þau lagst hafa þrautaský þung,
sem þeirra á glaðlyndi skyggja.

Já, heimilið drúpir og dapurt er flest,
því dauðinn þar reisti sitt merki,
en æsku og þroska ei fram býður frest
hans fellandi armleggur sterki.

Hin ljúfustu móðurtár læzt hann ei sjá,
og líðenda stunur ei heyrir,
hann fellir ei sakir hinn fangaða á,
en fjöturinn þegjandi reyrir.

Hér svifti hann foreldra fegurstu von
er framtíðar hugmynd vor gefur,
því ungmenni vænt, þeirra einasta von
hann örmum í gröfinni vefur.

Þó aldrinum framar hans atgervi var
með áhuga námfýsnar ríkan,
því sálar og líkama þroski sást þar,
svo þágum vér margir ei slíkan.

Hin mannvæna sálin var menntunar þyrst,
og mundi ei hæfileik bresta,

og andi hans hneigðist að ljóðgerðar list,
sem lét hann þó dulið við flesta.

Hann vissi um ættlandið anda síns, hvar
vorn anda ei fjöturin reyra,
og þröngsýni jarðlífsins þungt honum var,
hann þráði af ljósinu meira.

Hann fjarlægðist sjúkur sín föðurhús kær,
ef fá kynni bót sinna meina,
en mannanna íþrótt er miður enn fær,
þá megn sitt við dauðan skal reyna.

Hann fjarlægðist vini og frændmenni kær
og faðm sinnar ástríku móður,
en færðist þó anda síns föðurleifð nær
til frelsarans Jesú vors bróður.

Og síðast þá lífsaflið bugaða brauzt
við banameins átökin þungu,
á náð guðs hann vottaði nægilegt traust
með nafn hans á máttvana tungu.

En faðirinn dapur á verði þar var,
og vonir hans börðust gegn kvíða,
unz friðarins merki hinn framliðni bar
og fengin var svefnværðin blíða.

Og nóttin er liðin, svo notið sín fær
hinn námgjarni, ljósþyrsti andi,
því sannleikans býðst honum svalalind tær
á sælunnar blómríka landi.

Og hví skyldi foreldrar syrgja þann son,
er sannleikans ljós vildi hyllast,
hér glatast í heimi mörg glæsileg von,
á glapstigu margir hér villast.

Svo harmið ei foreldrar heim farinn son
í hirðsveit síns frelsara genginn,
þar ástvina fagnaðar funda er von
og framar mun skilnaður enginn.



# Efnis yfirlit.

I. KVÆÐI FLUTT Á ÝMSUM SAMKOMUM.

III. LJÓÐABRÉF.



IV. HESTAVÍSUR.

V. LAUSAVÍSUR. BLS.

VI. EFTIRMÆLI.

# Leiðréttingar höfundarins.

5. bls. 14. línu: blasti, les: blasir
26. — 3. — þeim, les: þinn
27. — 10. — æfi, les: æfið
30. — 6. — s*k*jaldan, les: sjaldan
35. — 2. — unnu, les: unna
35. — 4. — faðminn, les: framtíð
36. — 9. — Þar, les: Þá
37. — 10. — lágnættis, les: langnættis
40. — 1. — norrænu, les norræna
45. — 5. — fund, les: stund
45. — 14. — gjalda, les: gylda
49. — 17. — hálu svelli', les: hálasvell
51. — 8. — geymir, les: geymi
52. — 4. — lífgandi, les: lífsglaða
53. — 18. — ljúfa, les; ljúfu
53. — 20. — líktist, les: líkist
56. — 11. — löngu, les: löngum
59. — 12. — vantar *haf* í enda vísuorðsins
66. — 4. — Því, les: Þú
70. — 7. — stormanna, les: storma
73. — 8. — Œttkvíslir, les: Œttkvistir
74. — 11. — fylgi, les: fylgir
78. — 21. — hún, les: hann
79. — 15. — hæfir, les: hæfur
80. — 10. — flestum, les: flestu
82. — 1. — hinn máttka dollar manni allt er veitir, les: Hinn máttki dollar manni alt ei veitir

95. bls. 14. línu: 1900, les: 1890
117. — 23. — og, les: að
118. — 2. — Þá, les: og þá
120. — 5. — Þorsteinn, les: Þórarinn
135. — 8. — rætast, les: þá rætast
138. — 8. — sveit, les: byggð
158. — 18. — Nú, les: Og
162. — 7. — gæti þín, les: hann gæti þín
167. — 13. — kátt, les: kalt
169. — 11. — ástin, les: artin
175. — 17. — þó, les: þá
187. — 11. — Mér, les: Mig
205. — 5. — himinblár, les: himinblá
205. — 16. — glæddur knúði, les: gæddur knáði
211. — 12. — Galta, les Hjalta
215. — Jóhann, les: Jóhannes
220. — 5. — Það, les: Þú
235. — 15. — rifleg, les: ríflegt
236. — 9. — hrossskrokk, les: horskrokk
239. — 13. — Svefn, les. Svefns
241. — 5. — með, les: við
245. — 16. — harma, les: gremju
251. — 11. — sterk, les: merk
273. — 3. — logar, les: lagar
273. — 9. — skáldið, les: skáldi
302. — 20. — heimsvonar, les: heimvonar
308. — 1. — tryggð, les: tryggt
313. — 5. — yfir, les: yfir af
316. — 22. — bitskörnum, les: bitskörpum
317. — Þitt viðmótið fríða er minnisstætt mér, les:
Þitt viðmótið hýra er minnisfast mér
517. — 16. línu: og, les: af.

---